Frá

# Flokkabók

innihaldandi

## Fædingar-Pasśiu-Upprisu- og Hugvekju-Sálma.

Selst óinnbundin á Prentpappír 1 Rbd. r. S.



Videyar Klaustri.

Prentud á kostnad Sekretéra O. M. Stephensens,

1843.

Þrjátíu

# Fædíngar Sálmar,

útaf

holdtekju og fædíngu

Drottins Vors Jesú Krists

kvednir af

Síra Gunnlaugi sál. Snorrasyni,
Presti til Helgafells og Bjarnarhafnar safnada.

Videyar Klaustri.
Prentadir á Forlag Sekretéra O. M. Stephensens.

1843.



# 1. Sálmur.

Um Skattskriftina.

Lagid: Allfagurt ljós oss byrtist brátt.

Upplyptu, sál mín! eina stund, augum trúar vid Jesú fund, láttu blessadann barndóm hans, berusku frœda þíns innra manns.

2. Mínu samfara máli sé, mannvits kraptar og skynsemi; andleg uádar uppsprettan þín, ávaxti, Drottinn! túngu mín.

3. Audmjúklega í anda nú, eg vil hugleida, minn Jesú! fædíngu þína og framferdid; sáfrœdi mínu veittu lid!

4. AE! hvad skyldi eg aumur hér, íhugad géta, svo sem ber, almœttis-verkin undarleg, ófœrann til þess reikna eg mig.

5. Hvörsu kann dýrdar dásemd þá, daudlegur madur skynjad fá, sem yfirgeingur oslítinn, Engla og manna skilnínginn?

6. Hálfverk er allt af holdi gjört, heimsku blandad og einkis verdt, andans fullkomnun er til sanns, ógrípanleg í þánka manns.

7. Vid ſkulum, ſál mín! ſinni og hug, ſvala med krapti og nýum dug, vid forþénuſtu fyllíng þá, ſem fæding Jeſú verka má.

8. Ungdóms vanmáttugt edli var, allra manna, og dugdi ei par; í Jeſú úngdóms edli þó, eilíf guddómsins fyllíng bjó.

9. Hvørt géta þánkar hjarta = ranns, hærra flogid eins ſyndugs manns, enn ad grunda med íhugun, alvíſa Drottins rádſtøfun?

10. Enginn gáfa má ædri fáſt, ad því ſkyldir, mín ſála! dáſt, heldurenn einn ad eignaſt þann, ſem alla hluti vita kann.

11. Læt eg því, Jeſú! málid mitt, minnaſt framar á nafnid þitt: áformid bædi og ordin mín, adſtodi bleſsud gjædſkan þín!

## Textinn.

12. Utgékk þad bod frá Augúſtó, allur heimur um lønd og ſjó, ſkyldi láta ſkattſkrifa ſig, ſkikkun þeſsi var tignarlig.

13. Þetta ſvo feingi framgáng þar, ferdadiſt ſkjótt, ſem búinn var, ſérhvør til borgar ſinnar þá, ſettu løgmáli hlýdni tjá.

14. Allt til þeſs Schíló auglýſtiſt, átti hjá Júdum, (þad er víſt), veldisſprotinn ad vera kyrr, vitnadi Jakob um þad fyrr.

15. Kom nú uppfyllíng tímans téd, tók því ad

nálgast hjálpræðed, Gydínga lýdur greiða vann, gjald og skatt undir keysarann.

16. Í Adams falli urdum vér, eilífum dauða skattgyldir, løgmálið þessu lýsa vann, lagdi bølvan á syndarann.

17. Allur heimurinn átti því, aldrei að verða skulda frí, nema ef einhvør gjæti greidt, gjaldið daudans, og bølvun eydt.

18. Undirgékkst Jesús undir það, øllum heiminum vægðar bað, hlýðninnar skyldur Guði galdt, gaf sig til þess að borga allt.

19. Littu, mín sál! þá sætu náð, sjálfkrafa' uppþeinkti Drottins ráð, hann sem aldrei Guðs boðorð braut, bølvan uppá sig taka hlaut.

20. Lítillækkaði sjálfann sig, Sonur Guðs, Jesús, fyrir mig, náttúru hroka næmann minn, nógu borgaði hans autmýktin.

21. Fljótlega Jóseph ferðast réð, festarkvinnu þúngaðri með, Bethlehem Davíðs borgar til, boðum keysarans gjørðu skil.

22. Hlýðni þakknæmast offur er, athuga, sál mín! byrjar þér, skipun og vilja Skaparans, skikka þér eptir boðum hans.

23. Gjættu og þess að Guð er sá, Guði stiptaði jørðu á, eru það Drottins umboðsmenn, eiga að skipa réttindin.

24. Audmjúklega þeim hlýð og heyr, haldt þig við það sem bjóða þeir, valdið tímanlegt Guð þeim gaf, góðum launum ei drag þú af.

25. Sá sem að yfirvaldi vill, veita óþøkk og gjøldin ill, bakspyrnir móti broddunum, burtskúfar Drottins setníngum.

26. Ef þú hlýðninni offra vilt, yfirboðnum sem vel er skyldt, þægasta Guði gjald er það, með góðu verður umbunað.

27. Vøkumenn þeßir velferð lands, vaka yfir og sálu manns, vakandi þeirra vilja gjør, vaka lát Drottins ótta í þér!

28. Ekki er gjøf, þótt eigir þú, yfirmønnum að tolla nú, þakklátann vilja greið og gjaldt, Guði fyrir hans lánið allt.

29. Eg vil, minn Jesú! holla hér, hlýðni og audmýkt gjalda þér; vyrðstu að láta viljann minn, verða í Guði fullkominn.

## 2. Sálmur.

### Um Fæðíngu Kristi og reifana.

Lagið: Mitt hjarta hvar til hryggist þú.

Meðan dvaldist í Davíðs stað, dýrust María, svo bar að, frumgetinn fæddi svein, reyfum vafði hýr og hrein: hermir þannig ritníngargrein.

2. Hugleið þú, sál mín! Herrans ráð, hér-

um var laungu fyrirspáð, Bethlehem sveininn sá, koma skyldi frægur frá, sem fólki Drottins stjórnaði hjá.

3. Aldrei hefur frá upphafi, afbrugðið Drottinn trúfesti, sannorður alltíð er, verði því hans vilji á mér, vonin blessun færir með sér.

4. Tími Maríu téður var, tími mannkynsins frelsunar, ásettur eilífð frá, þú skalt, sál mín! þar að gá, þér nam Drottinn tímann að ljá.

6. Er það Drottins, en ekki þitt, eignar-valdið hann brúkar sitt, vertu ei vaðbúinn, vitjunar tíma þekktu þinn, þakka Drottni velgjørning sinn.

7. Þeinktu og líka um það eitt, ekki er neinum manni veitt, vors Guðs að vita tíð, í auðmýkt trúar árla og síð, eptir henni þolgóður bíð.

8. Trúfasti Guð! þá tími er þinn, tímann lát einninn vera minn, að taka miskun mót, og unna þér af elskurót, auðsýnandi þakklætis hót.

9. Frelsarinn! láttu fæðing þín, fæða daglega í hjarta mín, ydrunar ávøxt þann, að endurfæðist innri mann, á orði Drottins forsorgist hann.

10. Frumburð syndanna Satan fyrst, sjálfur fæddi þá metnaðist, og Skaparans skykkun braut, Adam bølvun af því hlaut, andar-bann og kvalanna þraut.

11. Ertu frumburður orðinn nú, eilífrar náðar, minn Jesú! yeilagri holdgan í, Adam blessun beið af því, bættist ráð hans aptur á ný.

12. Þú sem réttlátur ríkir einn, reifum klæddist sem úngur sveinn, þess vegna eg þenki nú, um audmýkt þína, ó Jesú! eikur gledi hjartanu sú.

13. O! hvad margt synda afkvæmid, alid hef eg og leikid vid, reifad í brjósti best, hofdlega þánka þar vid fest, þad var sálar forðjørsun vest.

14. En þinn blessadi úngdómur, alleina klár og heilagur, míns úngdóms brek og brest, afmádi hreint svo ekki sjest, er þad sálar farsældin mest.

15. Lífs ávøxt þennann lifanda, lagdi í jøtu María, mjúkann gaf mjólkur smekk, af því hún á ødra bekk, ekkért rúm hjá géstunum fékk.

16. Hvar var þá, Jesú! heidur þinn? hvar var þín eilíf kóngstignin, dulin um myrkra mund, ad þú fékkst ei eina stund, annad rúm né værari blund?

17. Víst hafdir þú øll ríkdóms rád, ríkjandi yfir himni og lád, allt frá eilífri tíd, en hjá þínum eigin lýd, ekki gafst þér vidtakan blíd.

18. Þótt ad framandi fædist þú, forsmán og lægíng bídst þér nú; virdíngar missa mátt, í slíkum vafinn fyrstu nátt, hjá fénadinum svefn-værdir átt.

19. Framandi kom eg hingad hér, heimurinn bústad veitti mér, fagrann enn fallvaltann, aptursklija á vid hann, eins og snaudur vegferda mann.

20. Veit eg Lausnari lifir minn, leidir hann mig um sídir inn, í samhelgra samfélag, hvar eg eilífann hvíldardag, hafa mun og gladværdar hag.

21. Hér þegar veröld hrekkjaleg, herbergja vill ei leingur mig, eg bid þig, Jesú kjær! leidi mig þín liknin skjær, loks í dýrdar tjaldbúdir þær! Amen.

## 3. Sálmur.

Um bodskap Engilsins til fjár-hyrdaranna.

Lagid: Heidrum vér Gud af hug' og sál.

Gudspjallamann þess gétur vel, gódir vøktu um náttarþel, hyrdarar sama héradi í, hjørdina geymdu úti frí, ljómandi Engill lét sig sjá, leiptran Guds skein í kríngum þá, ad þeim réd miklum ótta slá.

2. Engillinn mæla vid þá vann: verid ei hrædd- ir! sagdi hann, ydur til eyrna' eg blídan ber, bodskap, sem øllu fólki skér, Endurlausnarinn er í dag, ydur fæddur med gledi hag, Davídsborg fékk þad lukkulag.

3. Má og vera til merkis þad, munud þér finna í greiudum stad, reifunum vafid barnid best, blundinn hefur í stalli fest. Hugleida, sál mín! byrjar bert, bodskapar þess njótandi ert, þar fyrir jafnan þakklát vert.

4. Eins og vatnsstrauma uppsprettan, øndu daudþyrstri svala kann, gledi bodskapur fjarlægd frá, fáráda sál eins hugga má; í Jesú fæding ein hér sjest, uppsprottin svala lyndin best, aumann syndara hún fær hrest.

5. Undir ránglætis oki hlaut, allt mannkyn líða sára þraut, óbærileg sú ánaud var, orkaði straffs og hegníngar, ørmagnaſt sálin af því réd, ángrud samvitska fylgdi med, bølvun løgmálsins grætti géd.

6. En Jesús sinni elsku af, opnaði Drottins nádarhaf, fram til alls mannkyns flutu þar, fossarnir endurnæríngar, sálunni er því svølun skéd, sefadist hjartans ángrid med, blessanin allra gladdi géd.

7. Þegar samvitskan mædist mín, og minníng glæpanna eikur pín, Jesú! þín nádar ljúfust lind, lífgi mig auma sképnukind, sál mína lát þann føgnud fá, sem færdi Engillinn jørdu á, gledinnar næríng géfst mér þá.

8. Hérnæst gjøri eg ad þenkja um þar, þegar ad Adam fallinn var, med ángist stórri út á braut, af aldingardinum rekast hlaut, ei mátti lífsins eta af tré, Engla vardhald þad bannadi, sem veginn þángad vaktadi.

9. Aptur á móti opnast hér, inngángur beinn til lífsins mér, Engill þann bodskap bar til sanns, braut sé lidug til himna-ranns, hyrdurum veginn vísar heim, vid skulum, sál mín! fylgja þeim, burt frá veraldar synda seim.

10. Ertu Jesú! þad edla tré, ávexti lífsins færandi, dávænt sprottid af Davíds rót, dýrmæt sálnanna heilsubót, láttu því blessud blødin þín,

breidast út yfir sárin mín, andar meinsemdin øll þá dvín.

11. Nær sem ad sterkur stofnast hér, stormur gudlegrar reidi mér, í þínum skugga skadlaus þá, skjóls og hælis eg leita má, vakna og sofna vil eg þar, verdur ei neitt til skélfíngar, sálina ekki sakar par.

12. Ef ad mig sturlar ángurs pín, upp vil eg standa og leita þín, andleg hugsvølun eikst mér þá, í ordinu nær þig finna má, Drottins miskunar braud-hús ber, blessada lífsins fædu mér, þetta mín sálar audlegd er.

13. Víst er ei nóg, þó vaki á jørd, vesællra Drottins barna-hjørd, utan þú hafir á þeim nú, augu vakandi, minn Jesú! sálin vøku-nótt haldi hrein, heidrandi þig á alla grein, þad sé mín hjartans unun ein! Amen.

## 4. Sálmur.

### Um Lofsaung Englanna.

Lagid: O, Jesú elsku hreinn.

Himneskir herskarar, hér eptir, svo til bar, Englinum ásamt þar, upphófu raddirnar.

2. Dýrd Gudi tídt í té, tjáist í hædinni, fridur á foldu sé, fólki gódur vilje.

3. Þakkláta sýndi sig, sveit Engla tignarlig, uppvekja á þad mig, athuga, sál mín! þig.

4. Vera ei minni mátt, mæta dýrð Guði átt, offra á allann hátt, í anda, dag sem nátt.

5. Jørð, sjór og himna her, heims allar tegund-er, dýrð Guðs og hátign hér, herma daglega þér.

6. Aldrei svo aumur mann, 'augunum renna kann, að megi ei merkja hann, mátt Drottins frábærann.

7. Orð Guðs ef athugar, með augum trúarinn-ar, sjeð gétur sálin þar, sætleik hans miskunar.

8. Dásamleg dýrðin þér, Drottinn! alleina ber, er blygðun aumum mér, í øllu tilheyrer.

9. Eg sæ og einnig sjeð, að Engla sveit boða réð, frið á jørð, glaðvært géð, og góða vel-þókknan með.

10. Adam frið af sér braut, óvingan Guðs því hlaut, en Drottins ástarskaut, aptur linaði þraut.

11. Eilífann frið oss fann, frelsaði syndarann, Soninn þá senda vann, saklausann, Guð og mann.

12. Allt er því bølið bætt, við blíðann Guð mannkyn sætt, hans friðarmerkið mætt, mein fær í burtu rætt.

13. Ofriður einginn má, elskunni Drottins frá, skilja né þvínga þá, er þennann frið treysta á.

14. Allt er oss veitt í vil, vantar ei neitt þar til, Jesú! þinn ástar-il, aldrei fyrir oss dyl.

15. Vér høfum fengið frið, friðar-høfðíngjann við, synda-bót, sálar grið, og sælunnar athvarfið.

16. Oss hefur afrekad, eilífann grida stad, Guds nádar-þel er þad, þess trúin nýtur ad.

17. Nádarstóll ordinn er, eingétinn Son Guds hér, hans skuggi hlífir mér, hvad sem til meina ber.

18. Rati eg ángist í, ótraudur þángad flý; Jesú! þín nád á ný, nemur burt sorgar ský.

19. Og þegar óróleg, ángrar samvitskan mig, trúar-hønd heldur sig, Herra minn! fast vid þig.

20. Andlegann frid eg finn, fridstillist hugurinn, hjarta, sálu og sinn, sedur Guds miskunin.

21. Þegar Guds grimdar hríd, geisadi harla stríd, med flódinu fordum tíd, og fargadi øllum lýd.

22. Til fridar fékkst ei par, fanst merki reidinnar, vatnsflódid þegar þar, til þurdar geingid var.

23. Sáttmáls-teikn setti þá, sjálfur Gud himnum á, blída réd blessan tjá, sem bregdast aldrei má.

24. Þegar Gud vildi vid, vora sál binda frid, burt frá hans hægri hlid, hjálpráð er útgengid.

25. Sáttmálann samdi vel, Son Guds Emanúel, hans blessad blídu-þel, bætir øll rauna-jel.

26. Gódvilja þennann þinn, þakka eg, Jesú minn! vertu í sérhvørt sinn, sálunni velkominn! Amen.

## 5. Sálmur.

Um reisu fjárhyrdaranna til Bethlehem.

Lagid: Ef Gud er oss ei sjálfur hjá.

Þegar ad Engla fylking fríd, fór til himins af

grundu, hjarðar sveinar á sømu tíð, søgðu með gladri lundu: til Bethlehem skulum gánga greidt, og gaumgjæfa Drottins verkið eitt, ferðbúnir strax að stundu.

2. Sem þeir komu í sagðann stað, svo vill ritníngin greina, fundu allt eins og Engill kvað, úngbarn og meyu hreina, Herrans dásemdum hermdu frá, hvørjir sem fréttu søgu þá, tilburð þann undrast eina.

3. Viljir þú, sál mín! anda í, Endurlausnarann skoða, trúarhøndin fyrst þreifi á því, þér sem Drottins orð boða, gaumgjæfni betri enn offur er, efasemd taktu burt frá þér, síst kann þig sú að stoða.

4. Ef að vantrúin finnur fyrst, fylsni í hjarta ranni, hlotnast þér ekki að horfa á Krist, holdið trúi eg það banni, meðan í syndum situr kyrr, seint munu opnast náðar dyr, ángráðum innra manni.

5. Þegar Jesúm ei fundið fær, fyrir sér trúin veika, grunda betur og gakktu nær, Guðs orði og hans sannleika, í því ljósi þú líta mátt, Lausnara þinn og skoða brátt, svo muntu síður skeika.

6. Døpur er sálar sjónin mín, syndanna hulin glýum, utan, minn Jesú! orðin þín, auðgi mig smyrslum nýum, ryð þeim mín trúar augu á, elskan þín góð mér hryndi frá, vantrúar villu-skýum.

7. Birtu Ísraels fólki fékk, fagúr eldstólpi um nætur, eitt ský á daginn undan gékk, á því höfðu þeir gjætur, óhulta leið þeim vísa vann, í villimørku tíma þann, Drottinn miskunar mætur.

8. Vond eptirdæmi og illsku-ský, undan Guðs børnum gánga, afvega leiðast opt af því, um eydimørku lánga, syndirnar villa sjónir þeim, finna ofmjøg um þennann heim, sem vísar á veginn ránga.

9. Eldstólpinn þinna orða mér, ó Jesú! lýsi í heimi, þegar eg viltur velkist hér, svo veginum aldrei gleymi, eður á hálum hrekkja stig, sem holdið leggur fyrir mig, í þvermóðsku þoku sveimi.

10. Pitt ljúfa orð er lampi víst, og ljós á vegi mínum, þegar mér birtan þessi býðst, með þýðum geislum sínum, uppljómast sál og sinnið kaldt, syndanna myrkur hverfur allt, af blessuðum bjartleik þínum.

11. Undradist fólkið fregnir þær, sem fjárhyrðarar báru, Guðs orð María góð og skjær, geymdi í hjarta kláru; nær sem eg þennann fjársjóð finn, fagnar og leysist hugur minn, af eymdanna ángri sáru.

12. Margt þó undarlegt, sál mín! sé, fyrir sjónum trúarinnar, dásemdir Guðs ei drag í hlé, með dul fávitsku þinnar, holdlegann skilníng heldur gef, hlýðninni fánginn utan ef, Drottinn krefst býrðar sinnar.

13. Sjá til þú hafir í hjarta fest, hjálpræðis orðið blíða, láttu þér vera í minni mest, miskunsemd Drottins þýða, réttlætis sólin sannarleg, syndugra líkíng klæddi síg, til endurlausnar lýða.

14. Gef þú; Jesú! í geðið mitt, gjæðskunnar ljósið bjarta, ó! að eg fengi orðið þitt, innrætt í mínu hjarta, svo að eg megi um eilíf ár, af øllum syndum hreinn og klár, í lífsins ljóma skarta! Amen.

## 6. Sálmur.

Um heimreisu hyrðaranna og þeirra þakklæti.

Lagið: Kom andi heilagi!

Hyrðarar héldu brátt, heim með føgnuði, súngu og hermdu hátt, hæðsta lof Guði.

2. Sem gjæðsku sína þá, sjá lét og heyra; hér, sál mín! hlýð uppá, með hugskots eyra.

3. Fedrunum forðum tíð, fyrirheit skéðu, sem nú fagnaðar frið, framkoma réðu.

4. Lángaði leingi þjóð, að lifa næði, tíðindin gleði-góð, og Guðs hjálpræði.

5. Eins kóngar og spámenn, ætluðu mundu, með augum sínum senn, sjá þá nýlundu.

6. Eins fengu ekki þó, að sjá Krists daginn, af því Guð undan-dró, þann auðnu-haginn.

7. Dýrðar ráð Drottins það, dult var høfðíngjum, en nú opinberað, aumum smælíngjum.

8. Allmjøg Abraham víst, eptirlángadi, ad sjá mætti Son Guds Krist, og sá med fagnadi.

9. Í trúnni vænta vann, vissu Guds orda, vid þad traust vildi hann, vonina skorda.

10. Hógværd og þelid þýdt, þókknast Guds hjarta, ljúflætis bragdid blídt, best kann ad skarta.

11. En dramblátt hjarta hann, hatar á jørdu, og stundum straffa vann, med strídi hørdu.

12. Af því ad útvalid, aumíngjann hefur, og hefdar háswtid, hógværum géfur.

13. Í lægíng Lausnarinn, lét sig hér finna, ei vill hans audmýktin, oflæti sinna.

14. Raunar nú rættist fród, ritníng spádóma, ad fátækum gésin gód, gudspjøllin hljóma.

15. Hyrdarar hér vid því, helst kannast nádu, trúadir audmýkt í, ad slíku gádu.

16. Gladværir greiddu á mót, Gudi þakklæti, af innra manns elskurót, og andans kjæti.

17. Guds húsi gengin frá, gjæt þess, mín sála! til ordsins þeinktu þá, og þess leyndar-mála.

18. Hvad sem þú heyrdir þar, hjarta þitt geymi, leita Guds lofdýrdar, lastvør í heimi.

19. Utbýttu einninn þá, ordum Guds sønnum, hvørjum sem heyra má, hjúum og grønnum.

20. Sem annad edla tré, í blóma standi, and-lega áverti, af sér færandi.

21. Pund Guðs ei máttu, mann! í moldu grafa, af því vill allann hann, ábatann hafa.

22. Herrans orð heitir því, hveiti sáð rétta, sem Guðs barna brjósti í, best á að spretta.

23. Og færa ávørt þann, sem aldrei rotni, þinni sál þarflegann, þakknæmann Drottni.

24. Uppskéra þá munt þú, það dýrðarlífið, sem endar eymdir nú, og rauna kífið.

25. Ljótum heim leiddur frá, til ljóssins vista, sem Guði sjálfum hjá, síðar munt gista.

26. O Guð! það untu mér, um eilífð hljóta, og meðan mæðist hér, miskunar njóta! Amen.

## 7. Sálmur.

### Um umskurn Kristí.

Lagið: Túnga mín af hjarta hljóði.

Atta døgum eptir þetta, umskurn líða skyldi sveinn, og sitt nafnið ødlast rétta, eptir því sem mælti einn, Engill forðum, í þeim orðum, er til meyar boðaði hreinn.

2. Hans var Jesús nafnið nýta, nefnt á þeirri stundunni, þess má hreina þýðíng líta, það er manna Frelsari, sem meinin bætir, gjørla gjætir, Guðs útvaldra á jørðunni.

3. Eg vil, sál mín! umskurn sára, yfirvega Lausnarans, og mæla um hennar merking klára,

medur lærdóm sannleikans, innri krapta, í mér skapta, ebli blessud nádin hans.

4. Allt var hold af blódi borid, banvænt, spjallad, einkisverdt, í íllsku forhúd óumskorid, ordid Guds þad sýnir bert, med vondsku hótum, lífnad ljótum, løgmál brotid hafdi þvert.

5. Þessa bølvan bísna stránga, bar á herdum Jesús minn, þegar pínu þráutá lánga, þoldi af Gudi forlátinn, og þad barnid, ørt med sanni, undirgékkst í þetta sinn.

6. Hans var sál og holdid bædi, hreint af lýtum, flekkad síst, en míns er edlis saurugt sædi, syndum þakid, bølvad víst, nema eg hljóti og nýrrar njóti, nádar Guds fyrir Jesúm Krist.

7. Hann út sínu hellti blódi, hérmed umskurn líkamans, svo í því mætti eg fridu flódi, fágá bústad hjarta-ranns, og forhúd lasta, frá mér kasta, sem flekkar skrúdann innra manns.

8. Óumskorid hef eg hjarta, huxun ránga geymi þar, og líkamans alla parta, sem æfa kunna syndirnar, Jesú mæti! géf eg gjæti, greidt miun hag til betrunar.

9. Hvør sem umskurn hljóta nádi, hann vár skyldur løgmálid, upp ad fylla allt ad ládi, sem útkrafdi Guds réttlætid, og sá vandi ómælandi, ógnar straffid lagdi vid.

10. Ertu kominn upp ad fylla, allt løgmálid,

(2*)

Jesú minn! og þann bera ángurs kvilla, sem átti ad lída syndarinn, vafinn meinum, í þér einum, endurlausn og hjálp eg finn.

11. Sitt réttlætis klára klædi, Kristur hefur þér sál mín! lént, umskorinn og skírdur bædi, skriftin þetta fær oss kénnt, svo gjæfi ad skilja, guddóms vilja, um gamla' og nýa testament.

12. Adams gamla edlid rotna, átti ad merkja forhúdin, sem í oss gjörir dárleg drottna, med bjarfann vondsku kraptinn sinn, holdsins blinda, saurinn synda, signud hreinsar vatnslaugin.

13. Þá Móíses Guds madurinn hreini, mundi ei bodord umskurnar, Zippóra hans son med steini, sjálf óbedin fljótt umskar, og mann sinn blída, brúdurin þýda, blód-brúdguma nefndi þar.

14. Lætur Drottinn lögmáls steina, lasta forhúd snída af, en Jesú mjúkust mildin eina, minníng hennar djúpt í haf, nidursleigir, finnst hún eigi, forþénustan hans þad gaf.

15. Blód-brúdguminn ertu ædstur, ordinn Jesú kristninnar, þinnar nádar geislinn glæstur, géfi mér ljósid þekkíngar, svo veg þinn rati, en vondum glati, verkum gömlu forhúdar! Amen.

## 8. Sálmur.

### Um nafnid Jesús.

Lagid: Konúng Davíd sem kénndi.

Mín sála! merk enn fremur, mætast nafn Lausn-

arans, hvar af øll huggun kémur, hrelldum manni til sanns, minnstu miskunar hans, Frelsari fús hann heitir, frelsun Guds børnum veitir, frá eymdum andar hans.

2. Hugsvølun, heilsa, lífid, hjálp og endurlausn frí, nemur burt nauda kífid, nefnist hann Jesús því, rædir svo ritníng ný, Jesús á jørdu borinn, Jesús særdur, umskorinn, Jesús allt øllum í.

3. Nær sem eg nái ad ræda, um nafnid skírnar mitt, øndu vill ángrid mæda, athæfi þekkir sitt, því rofid hef eg hitt, sem Gudi heitid hafdi, hvørt þó skírnin útkrafdi, géf mér þad, Kriste! kvitt.

4. Nær sem eg nái ad tala, um nafnid, Jesú! þitt, øndunni ord Guds svala, uppljómast hjarta mitt, af því eg hreppti hitt, sem Gud mér heitid hafdi, hvørs þó skyldan ei krafdi, allt géfur Kristur kvitt.

5. Aldrei hér einusinni, uppbyrja, sál mín! þú, verk þitt úti' eda inni, athuga þetta nú, nema í nafni Jesú, um adstod ádur bidjir, vid ord Guds trúna stydjir, bregdist ei breytni sú.

6. A kvøldin, minnst þess, madur! máttu ei sofna fyrr, ei heldur uppvaknadur, útgánga um húsins dyr, ádurenn andvarpir, til Guds med ordi einu. í Jesú nafni hreinu, eg bid þar ad gjætir.

7. Líkamann svo ei sedjir, ad sálin húngrud sé,

né holdið gjálíft gleðjir, með glíslegu sælgjæti, í Jesú náðar nafni, þér eptir þørfum nýtir, það sem Drottinn útbýtir, af sínu ørlæti.

8. Athugaverdt er annað, í þíns lífernis síð, þér er berlega bannað, að brúka Jesú nafnið, hé-góma hjalið við, að þarfleysu síst skal sverja, þó satt mál hafir að verja, það sé þinn máti og mið.

9. Ætíð kann illa skarta, á túngu og vørum þér, nafnið svikarans svarta, slíkt kristnum forðast ber, blót illt og bølvið hér, blíðri Guðs blessan sneiðir, með bølvan sálu deyðir, og áfellis ablar sér.

10. Nær sem mig kvellíng kremur, krøss eður ángurs þrá, Jesú Kristi mér kémur, kjært nafn í huga þá, mig, Guð! þar minntu á, til hans miskunar mæni, mæddur tárast, grátbæni, traust hef eg allt þar á.

11. Miðt á meðlætis stundu, mótgángur þegar dvín, eg bið þig jafnan mundu, Jesú nafn, sála mín! set fyrir sjónir þín, Guðs Son, í fátækt fæddann, fánítum reifum klæddann, hørmúng hlað-inn og pín.

12. Þitt hjartans andvarp eina, með auðmýkt framflytjist, ákalla, óska og kveina, í Jesú nafni best, þess betur bænheyrist, Soninn fyrst Guð þér géfur, géfið með honum hefur, allt sem á-liggur mest.

13. Eg bið í Jesú nafni, játandi synda pín,

géf þú eg glæpum hafni, Guð minn! eg leita þín, nær fallvallt fjörið dvín, í Jesú nafni náða, nær og hugga margþjáða, af sorgum sálu mín! Amen.

## 9. Sálmur.

Um reisu vitríngana til Jerúsalem, og spurníng Heródis til kénnimannanna.

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

Í Bethlehem þá borinn var, blíður Jesús, og dvaldi þar, vitríngar komu úr austurátt, í Jerúsalem furðu brátt, eptirspurðu, hvar er nú sá, úngi Konúngur Júðum hjá?

2. Eina stjörnu í austurheim, sem eignuð verður kóngi þeim, sjálfir berlega sáum vér, síðan reisandi komum hér, hann að tilbiðja hreinann nú, með helgri bæn og réttri trú.

3. Sjá hvað dýrðlegur Drottinn er, þó dyljist undir fátækt hér, fólkinu boða fæðíng hans, fögur himintúngl víst til sanns, sínum skapara svo sem bar, sæmd og lotníngu veittu þar.

4. Þeink um, mín sál! að Son Guðs er, sú sanna Jakobs stjarna hér, hvörs vald og hátign veglegar, vegsama morgun-stjörnurnar, hans dýrðar auglit himnum á, heilagir Englar jafnan sjá.

5. Heiðinna manna hjörtum í, hans náðar birta lýsti því, úr fjarlægum löndum ferðast víst,

fúsir ad líta Jesúm Krist, honum gudlegann heid-
ur tjá, heilagur Andi fræddi þá.

6. A døgum þeim sem Davíds son, dýrdlegur
ríkti Salómon, úr Arabía vitja vann, vegleg drottn-
íng ad skoda hann, háleita speki hlýddi á, hóg-
værd prísadi sælu þá.

7. Davíds son Jesús þegar þar, af þýdri jóm-
frú fæddur var, úr austurvegi á hans fund, aud-
mjúkir komu um sama mund, heimsspekíngar, ad
heyra og sjá, hulda Guddómsins vitsku þá.

8. Heródes vard, þá heyrdi þad, hræddur og
fólkid allt í stad, kénnidóm saman safna réd, svo
og skriftlærdum øllum med, spurdi hvar skyldi
fædast fús, Frelsarinn manna sæll Jesús?

9. En þeir svørudu allir þar: í Davíds borg,
því skrifad var: Bethlehem Júda bygd ertú,
borgunum engum minni nú, af þér mun fædast
frægur vel, forínginn yfir Israel.

10. Illur Heródes óttast vann, af því hann
meinti Frelsarann, jardneskann kóngdóm kunna ad
fá, svo kollsteypast yrdi vøldum frá, spádómanna
ei gjætti greidt, gat sig sjálfann í villu leidt.

11. En med því Jesús ei var þá, opinberadur
jørdu á, til þess hann heimsins tignar skart, tæki
á sig og skraut óþarft, forgéfins hrædslu hjarta í,
Heródes kóngur fékk af því.

12. Þitt var ei ríki af þessum heim, þú girntist ekki veraldar seim, sæti Jesú! en sagdir þó, sakfeldur fyrir Pílató: ad þú kongúngur værir víst, þó virdíng af því hlytir síst.

13. Það sem Heródem hrella vann, huggar mig aumann glæpamann, því Son Guds er minn kóngur kjær, kominn af meyu hreinn og skjær, óhræddur í þér nýt eg nú, nádar og frelsis, minn Jesú!

14. Andlegrar stéttar alla senn, adspyr Heródes forvitinn, hvørninn skriftirnar hljódi þar, um híngadkomu Guds Sonar, svo vita fengi víst til sanns, vissu um fædíng Frelsarans.

15. Illska og flærd þar undirbjó, athuga skaltu, sál mín! þó, ordsins þénarar eru hér, til uppfrædíngar settir þér, hjartans einlægni haf þá vid, hatadu fals og svikrædid.

16. Nær þín skynsemd ei skilur enn, skriftlærda Drottins kénnimenn, ordsins þýdingu eptirspyr, svo opnast megi trúar dyr, likill vitsku þeim lédur er, ljúka þeir gjarnan upp fyrir þér.

17. Hitt er og líka hrópleg synd, ef hrekkjafulla svika mind, med fávitsku skyni fegrar þú, og falsar Kristí þjóna nú, sjálfur Skaparinn sjer og veit, svoddan vondsku í hjarta reit.

18. Unn þú mér fyrir utan prett, ord þín, Jesú! ad grunda rétt! ástgjøf og verkan anda þíns, upp-

frædi skilníng hjarta míns! hvad sem lífs anda hræríng ber, heidri þitt nafn um eilífder! Amen.

## 10. Sálmur.

Um falsrád Heródes vid vitríngana.

Lagid: Nú bid eg Gud þú nádir mig.

Heródes fullur hræsni þá, heimuglega nam kalla á, vitríngana og vildi mest, vita nær stjarnan hefdi siest, til Bethlehem þeim vísa vann, vid þá hafdi skilmála þanu: farid og spyrjid skjótt ad því, fædda barninu stadnum í.

2. Þér skulud segja þetta mér, þegar ad barnid fundid er, svo ásamt ydur ørt í stad, eg megl koma og bidja þad; svik og prettvísi i brjósti brann, bølvud øfundin nísti hann, undir hylmíngu aud-mýktar, úlfur glepsandi fólginn var.

3. Undirferli og ílsku þel, aldrei kann Gudi þókknast vel, fyrir hans sjónum síst er leynt, svik-rædi manns og géd óhreint, Jóab hrekkvísi í hjarta bar, hulda med skini vinsemdar, snøgglegann bana beid af því, blindadur Abner trygdum í.

4. Hreint vill Drottinn þitt hjarta sé, honum þjónandi í elskunne; þú skalt og vita ad hatar hann, hræsni og slærd vid náúnganu, ílla luktandi ertu þá, ef þinum vørum geymir á, hunángid sætt, en innra er, eitur falid í brjósti þér.

5. Jésbabel Drottníng dygda snaud, bjarflega Na-

bot svipti aud, Júdas forréd med kossi Krist, kannadi Jóseph svikalist, Mardochæum vill hengja hátt, Hamans vélrædi og gédid flátt, snøruna sjálfur hreppti hann, hendir þad tídum prettvísann.

6. Sá sem náúnga sínum ill, svik og flárædi brugga vill, sálu viljandi setur hann, í svika nót og kvala bann, hrekkvísra stundum bogi brast, þá búid var ad spenna fast, margur steindaudur dettur hér, í dýki, sem ødrum grafid er.

7. Hafi nú frídur Frelsarinn, med falsi verid umsetinn, í hvørs munni ad íllsku hót, aldrei fundust né svikin ljót, skyldir þú, sál min! þeinkja þá, þú munir klakklaust sneida hjá, veraldar íllum véla síd, sem vís er þér á alla hlid?

8. Kaleikur sá, sem saup hann hér, settur verdur og tídum þér, undanskora sig enginn kann, ádrykkjuskamt ad hreppa þann, margur óvørum verdur því, veiddur svikanna neti í, optlega frómur falla hlaut, falsadur djúpt í pretta laut.

9. Í einum munni túngur tvær, tálid einføldum smída þær, lof í eyrum en last á bak, frá lukku og gjæfu margann rak, opt verdur, þeim sem hurar hátt, hégóma losid næsta flátt, viltur er sá, sem vill med því, vegsamast allra munni í.

10. Heródes vildi hér sem fyrst, í helju færa Jesúm Krist, fróma vitrínga hrekkvís hann, hyggst ad leida í vanda þann, svo þeirra einlægt áform

þar, yrdi Kristó til glötunar, tvøfaldt vondskunnar tálid því, tvøføldu hjarta geymdi í.

11. Rádvanda þánka og hjartad hreint, Herrann gefi mér ljóst og leynt, flárádum heimsins flærdar síd, forda mér, Jesús! þess eg bid, innrættu hjá mér einlægann, elsku-þela vid sérhvørn mann, lát mig framgánga falslaust hér, svo fái eg dýrdar vist hjá þér! Amen!

## 11. Sálmur.

Um bæn og offur vitríngauna.

Lagid: Oss lát þinu anda styrkja.

Vitríngar hlýdt nær høfdu, Heródis rædu á, í þeim stad ekki tøfdu, enn leingra héldu þá, sjá þú ad stjarnan bjørt og blíd, undan þeim gánga gjørdi, greiddi veg heidnum lýd.

2. Stadar svo nema nádi, næst yfir húsi því, sem ádur um eg tjádi, inni var barnid í, glødduft vitríngar þar vid þá, inngaungu ekki fresta, er þeir stjørnuna sjá.

3. Frelsarann finna gjørdu, og fríða meyu þar, féllu flatir á jørdu, fúsir til audmýktar, tilbádu þetta barnid blídt, gull, myrru, gott reykelsi, gáfu í offur nýtt.

4. Láttu Guds leidarstjørnu, lýsa þér, sál mín kjær! frá myrkri glæpa gjørnu, gánga skalt Jesú nær, syndanna slýdu selskapinn, Guds orda byrtan blída, besti er leidtoginn.

5. Þú hefur leid ei lánga, Lausnara ad hitta þinn, veg máttu greidann gánga, Guds í musteri inn, vit þú ad hjarta þitt er þad, sem Jesús sjálfur kjøri, sér fyrir hvílustad.

6. En þú skalt ad því hyggja, ekki vill Jesús þar, hjá óhreinum øsnum liggja, eru þad saurugar, girndir holdsins og glæpa brek, þvílíka íllsku anda, úr þínu hjarta rek.

7. Síst má Ismael erfa, Isaak frjálsum med, Agar skal á burt hverfa, einsog fordum er skéd; blídur Kristur og Belíal, samneyti ekkért eiga, athuga þetta skal.

8. Þessu nærst merkja máttu, mín sál! hvad skyldugt er, Guds Syni andlegt áttu, offur ad fæ ra hér, á hreinu altari hjartaranns, því Drottinn þyggur gjarnan, þakklæti syndugs manns.

9. Guds Syni fórnir færdu, fródir vitríngar þar, þeirra þýdíngu lærdu, þér til uppfrædíngar, allt er skrifad, sem ord Guds tjá, líf og audi þau eru, ætíd minnstu þar á.

10. Sét eg ad gullid þýdi, Guds barna sanna trú, mótlæti margt þó lídi, missir ei kraptinn sú, einsog gullid í ofni reynt, trúin ad vísu verkar, von og þolgjædid hreint.

11. Vill mín trú veikjast tídum, veitstu þad Jesú best, þá ad slær ángurs hrídum, opt hefur

stórann brest, einsog hørkveikur hálfslokkinn, ei lát þó útaf deya, Endurlausnari minn!

12. Myrrunnar merkíng géfur, mótkast og andstreymid, beiskann smekk heilnæm hefur, holdid tregast þar vid, ílla luktandi synda sár, af þessu hreinsun hljóta, heilsubót er þad klár.

13. Beiskann bikar á jørdu, birlar mér hørmúngin, sjálfann hann sætann gjørdu, Sonur Guds, Jesú minn! auktu mér þol og trausta trú, þegar eg kalla og kveina, kross-þjádum hjálpa þú.

14. Reykelsi hreint má heita, hjartanleg bænagjørd, hún megnar hátt ad leita, í hædirnar upp frá jørd, í gégnum skýin sér þreyngir þó, í nád og gjædsku gédi, Gud hana lítur á.

15. Hún er ilmur ágjætur, eilífum Drottni kjær, og reyndar reykur sætur, sem rétt til himins nær, daglega henni offra átt, sál mín! af þeli þýdu, þessu ei gleyma mátt.

16. Svoddan fjársjódu fríða, frambera skaltu hér, fyrir Lausnarann lýda, lætur hann þókknast sér, þetta andlega fórna fé, er þú munt aptur sídan, uppskéra í dýrdinni.

17. Avísan eina fengu, í draumi vitríngar, annann veg á burt gengu, aptur til heimférdar. Heródes ei þad vita vann, hans ad ráð engu urdu, opt svo til bera kann.

18. Vélrædi vondra manna, verdur til skammar

tídt, þad sem Guds bodord banna, blessast íllgjørnum lítt, því Drottins vald og réttvíst ráð, slægd hins hrekkvísa hindrar, hreinlyndum veitir náð.

19. Af hjartans þeli þýðu, þér vil eg hvørt eitt sinn, med elsku og ástar blídu, offra Lausnari minn! sál og líkama svo sem ber, þig bid til þakka taka þann litla skeink af mér! Amen!

## 12. Sálmur.

Um hreinsun Maríu.

Lagid: Til þín, heilagi herra Gud!

Hérnæst þá dagar hreinsunar, hennar uppfyllast nádu, eptir løgmáli Mósis þar, mey og Jóseph þess gádu, til Jerúsalem høsdu hann, á hendur fela nýfæddann, Drottni, sem skriftir skrádu.

2. Allt þad kallkyns, sem útgékk fyrst. af lísi mædra sinna, hædstum Drottni var helgad víst, hérum løgmál réd inna, tvær skyldu offrast til þess þar, turtildúfur, sem skipad var, edur par annad minna.

3. Jesús heilagur fæddist fyrst, af frídri jómfrú Maríu, hvørsvegna stand mitt helgadist, hlaut eg blessun ad nýu, lastanna fjøtrum leystist af, líf nýtt sálunni Drottinn gaf, med nádar frelsi fríu.

4. Heiløg vatns-laugin hreinsa réd, holdlega fæding mína, nýfæddum innra manni med, mæta náð gjørdi sýna, kraptur þess rauda Kristí blóds, kom minni sálu þá til góðs, best kann þad skart ad skína.

5. Barnamædurnar máttu ei fyrr, Musterisgaungu

brúka, hvør skyldi sitja heima kyrr, og hresíng ødl-ast mjúka, sjálfur Guð Drottinn setja réð, sængur-kvinnum það takmarkið, nær offur áttu að lúka.

6. Pær um tiltekið tíma skeið, teljast óhreinar áttu, áminntu løgmáls orðin greið, eðlis saurgunar háttu, fyrir Guði þó vóru víst, velþokkaðar, og brást það síst, sál mín! það merkja máttu.

7. Evu var forðum ávísað, eptir sitt fallið skjæða, sín skyldi børn (og satt er það) með sótt og harmi fæða, athæfis hennar allt þar frá, aðrar gjalda, sem von er á; helg var sú Herrans ræða.

8. Aptur María friðann fann, føgnuð andlegra gjæða, Engill bar henni boðskap þann, barn eitt hún skyldi fæða, afkvæmis hennar allt þar frá, aðrar njóta, sem von er á; góð er sú gleði ræða.

9. Til brennifórnar únglamb eitt, áttu þær fram að bera, ein dúfa, svo sem sagt var greidt, synd-offur skyldi vera, en ef lambið var ekki að fá, annar dúfu-únginn brendist þá; løgmáls orð ljóst það gjøra.

10. Maríu þørf var ekki á, offur hreinsunar gjalda, af því að hennar Son var sá, Son Guðs um aldir alda, sem til hreinsunar holdlegs manns, helti út blóði líkamans, þá hann leið krossinn kalda.

11. En til þess løgmál uppfylltist, eptir løgmáli skéði, helgrar Maríu hreinsun best, af hjartans elsku gédi, svoddan velgjørníngs minntist með, sem miskun Drottins veita réð, í æðstu andans gleði.

12. Fórnar-lamb gjørdist Frelsarinn, fyrir oss dauda seka, afþvodi synda saurindin, setti út borgun freka, þegar hann sælum sigri med, Satans dempadi ofríked, sem vora sál vildi fleka.

13. Hugleid þú dæmin dygda fród, daglega, sál mín kjæra! børnin eru Guds gáfan góð, gott skaltu honum færa, offur fyrir þitt afkvæmed, er þad þakklæti og lofgjørd med, gøfga hans gjædsku skjæra.

14. Barn þitt til Jesúm berdu hér, blessun svo hreppa megi, hann vill ei annad þyggja af þér, þetta lát bregdast eigi, þad sem Gud sjálfur gaf þér nú, géfa skalt honum aptur þú, af hjarta á hvørjum degi.

15. Legg þú á Jesú blessud brjóst, barn þitt í æsku sinni, sannleik Guds orda lát því ljóst, líða aldrei úr minni, heilnæma mun þad hreppa þá, hamíngju og farsæld jørdu á, en allt gott í eilífdinni.

16. O Jesú! guddóms gjædskan trú! gjæt ad andvarpi mínu, bid eg grátandi, børn mín þú, berir í hjarta þínu, ljótann svo fordist lasta keim, til lífsins sídan færist heim, frá daudans dapri pínu! Amen!

## 13. Sálmur.

### Um hinn gudhrædda Simeonem.

Lagid: Jesú Kristi! þig kalla eg á.

Sjá þú í Jerúsalem var, Simeon gamall madur, gudhræddur lifdi þessi þar, þjón Drottins réttskikkadur, eptir Israels huggun hann, hvørn dag

svo vænta nádi, og gjørla gádi, þess, sem Gud heimi heita vann, og heiløg Ritníng um spádi.

2. Af anda Guds var andsvarad, ei skyldi daudann kanna, fyrrenn med sjónum sæi þad, sæta hjálpræd manna, ávísun fékk í anda þar, inní musterid gánga, og føgnud fánga, hvar Jesú frídir foreldrar, frømdu bænagjørd lánga.

3. O! hvørsu Gudi gédfeldt er, gott og loflegt sídferdi, í Herrans ótta hegda sér, helgur Simeon gjørdi, þolinmódur svo þreya vann, þar til hann fékk ad líta, þá nád Guds nýta, sem í Kristó af hædum hann, heiminum út réd býta.

4. Hjarta réttkristins heita má, heilags Anda bústadur, happadrjúgur og sæll er sá, sem hann herbergjar gladur, hvørjum sem gódur Gud er med, gott allt veitist þeim sama, med frægd og frama, ástfólgid Drottins gjædskugéd, geymir sál og líkama.

5. Athæfid frómt og audmjúkt þel, umbun dýrmæta hreppir, lítilátum Gud launar vel, í lægíng dramblátum sleppir, augu trúadra í anda sjá, Endurlausnarann sæta, og miskun mæta, huggun blída í heimi fá, á himnum dýrd ágjæta.

6. Símeon lífsins gøtu gékk, Guds anda leidsøgn fylgdi, med líkamans augum líta fékk, Lausnarans sætu mildi; hvørn dag, sála mín! hlotnast þér, Herrans auglit ad skoda, sem blessud boda, ord Guds trúudum øllum hér, til eilífs lífs þau stoda.

7. Ei kann eg holdsins augum med, ásjónu Drottins líta, fær þó í trúnni sál mín sjed, hans Sonar gjædsku nýta, þessi dýrmætust sálar sjón, sorgandi gledur hjarta, med byrtu bjarta, í augsýn Drottins er mín bón, eg mætti fagurt skarta.

8. Á mínum trúar ørmum hér, eg vil þig Jesú! bera, breid þú þinn fadm á móti mér, mun eg þá hólpinn vera, unn mér ad sjá í anda þig, ádur enn dey eg hédan, og mest á medan, þar til um árin eilífleg, med augum sæ þig sjedann.

9. Sælan má kalla Símeon, þá Son Guds líta nádi, há-aldradur med holdsins sjón, hvar eptir leingi þrádi, réttlátur Jesú, réttlætid, reiknadi í mesta gyldi, og víst sér vildi, í helgri trú þar halda vid, hreinum Guds ordum fylgdi.

10. Miklu sællri má segja þá, sál mín! þess skaltu gjæta, sem med augunum ekki sjá, en Guds hjálprædid mæta, med trúar hendi taka ad sér, treystandi Drottni einum, af huga hreinum, svoddan athæsi sómir og ber, sønnum Krists lærisveinum.

11. Þegar Stephanus stein-kast vid, stødugur uppgaf anda, sá hann Gudi á hægri hlid, Herrann vorn Jesúm standa, gladvær af þeirri sælu sjón, signadann hreppti dauda, med trú ótrauda, leid svo viljugur lífsins] tjón, leystur frá sorgum nauda.

12. Ef þú á Jesú auga-stad, ønd mín! í trúnni hefur, þótt helid komi høndum ad, hrædsla þig

engin kéfur, ókvíðin máttu eflaust þá, í Guði burtu deya, og þolgóð þreya, heimsins aðkast og þúnga þrá, þig láttu aldrei beygja.

13. Þegar eg dauðans ángist í, ørmagna hlýt að kveina, styrk þinn, Jesú! í stríði því, staðfastann lát mig reyna, hjartans augum þig horfi á, himininn opinn standi, svo lífs á landi, hjálpræðis megi eg høfnum ná, hæðstann Guð vegsamandi! Amen!

## 14. Sálmur.

### Um lofsaung Símeonis.

Lagið: Faðir á himna hæð.

Símeon sveininn þann, segir guðspjallamann, á sína arma lagði, einn Guð prísaði og sagði:

2. Nú láttu þjóninn þinn, þýðastl Drottinn minn! héðan í friði fara, frá heimsins glæpa skara.

3. Af því að augum með, eg sá þitt hjálpræðeð, er þú øllum tilreiddir, í augsýn þjóða framleiddir.

4. Lýð heiðnum ljómar þar, ljós til uppbyrtíngar, og Guðs andlegrar hyrðar, Israels þjóð til dýrðar.

5. Saung glaður Simeon, sannreyndur Drottins þjón, fagrann dikt sálu sinni, set það, mín ønd! í minni.

6. Friðland að hafa hér, heimurinn bannar mér, mótkast og óvild eina, optlega hlýt eg reyna.

7. Verøld má reiknast rétt, reisu-tjaldbúð óþétt, á hana hreggin hrynja, hretviðrin yfirdynja.

8. Í hana allir hér, inngánga hljótum vér, strax á ønðverðum aldri, með eymd og þjáníng margfaldri.

9. Vor er ad visu laung, vegferdar-reisan straung, áleidis ódt án tafar, áfram holdum til grafar.

10. Hreppir þar hvíldarstad, holdid vort ørmagnad, á medan sætt þad sefur, sálin víst fridland hefur.

11. A himnum hvíld og ró, henni vor Jesús bjó, í allskyns eptirlæti, unun og dýrdar kjæti.

12. Viljir þú fagra fá, fridar-víst Gudi hjá, sál mín! Simeons dæmi, sér þér med lærdóms næmi.

13. Fridsamann fékk hann deyd, fyrst hann trúadur beid, eptir Frelsarans fundi, fagnandi þarvid undi.

14. Fridsamann afgánginn, allir hljóta þeir menn, sem frid og frómleik stunda, framm til sídustu blunda.

15. O! hvørsu sæll er sá, sem svikulum heimi frá, í fridi fær ad gánga, frjáls vid armædu stránga!

16. Mín sál! þad merkja ber, hvad mætur Simeon tér, kallar hann Guds Son góda, gladt ljós heidinna þjóda.

17. Forfedur vorir vest, verkin myrkranna flest, frømdu á fyrri øldum, af fornum Adams vøldum.

18. Myrkra dal djúpum í, daglega geingu því, um Guds ords blída byrtu, blindadir lítid hyrdtu.

19. Myrkra børn vorum vér, viltir ráfudum hér, dýrkudum stokka og steina, stygdum Skaparann hreina.

20. Blindadir íllsku í, øllu høfnudum því, sem Gud oss sagdi fordum, í sínum løgmáls ordum.

21. Augsýn Guds, áttum frá, í ytstu myrkur þá, kastast um aldir alda, eymd ad lída margfalda.

22. Edla ljós upprann þar, upplýsti sálirnar, af Guds hátignar hædum, himneskum fylltí gjædum.
23. Esajas um það, ádur fékk prédikad, í myrkvum stad mundi skína, med fagra geisla sína.
24. Lausnarinn ljós það er, ljóma guddómsins ber, Födursins ímind eina, ord Postulans það greina.
25. Þessi Guds byrtan blíd, byrti upp heidinn lýd, bjartljós vér ordnir erum, ímind Guds Sonar berum.
26. Andi Guds upptendrar, í oss ljós huggunar, sú guddóms gjædskan bjarta, glansar í voru hjarta.
27. Sá ljómi lýsir mér, þá líkamans sjónin þver, myrkur daudans því dvína, dyrfir það sálu mína.
28. Láttu þá þjóninn þinn, þess bid eg, Jesú minn! øndu sætlega sleppa, en sálina føgnud hreppa! Amen!

## 15. Sálmur.

**Um spádóm Simeonis útaf Kristó.**

Lagid: Skaparinn stjarna, Herra hreinn.

Og hans foreldrar undrast þar, af honum það sem talad var, Simeon bædi blessar nú, blídur sagdi vid María frú:

2. Sjá þú ad þessi settur er, sumum til falls, sem midur fer, en til uppreisnar ødrum senn, Israels fólk það reynir enn.

3. Er hann það teikn sem móti er mælt, margir sér vid hann gjøra dælt, gégnum sál þína sverdid hér, sárlega mun og þreyngja sér.

4. Svo augljós verdi allmargra, innvortis hug-

skot berlega. Gáfdu, mín sála! gaum á ný, grand-varlega ad efni því.

5. Undrunarligur øllum hann, med undrun fæddist Gud og mann, undrast María einninn þar, undarligt rád Guds hátignar.

6. Ett er þad, sál mín! undraverdt, yfir því spámann klagar bert, høfud andligrar hyrníngar, af húss-byggendum forsmád var.

7. Sjá þú ad ritníng segir hrein: sett hefur Gud einn fastann stein, til grundvallar í Zíon senn, svo ad yfir hann byggi menn.

8. Sál mín! ad þessu hygg þú hér, hyrníngarsteinn sá Jesús er, merk ad á honum einum fast, endurlausnin skal grundvallast.

9. Enginn fær grundvøll annann lagt, einsog Postulinn hefur sagt, helðurenn þann, sem eitt sinn er, uppreistur; þetta lesum vér.

10. O! hvørsu grátlegt er þad þá, allmargir honum steita á, yfir hann falla og aldrei meir, apturkomast á fætur þeir.

11. Ollir því tídum vantrú vest, þó veiti Gud hvad hans er best, verdur ad íllu einu þad, ef ógudlega er medhøndlad.

12. Heiminum Soninn sendi Gud, sú miskun var ei forskuldud, svo þeir hann trúa eflaust á, eilífu lífi skyldu ná.

13. Gáfu ei Júdar gaum ad því, geingu

vondskunnar blindleik í, hjálprædis steyttu hellu á, hefur þad fallid skadad þá.

14. Veit eg ad þeirra villan er, til vidvörunar skrifud mér; sjádu vel til, mín sála! nú, á Syni Guds ei hneixlist þú.

15. Sonur Guds Jesús settur var, syndugum mér til uppreisnar, þegar eg flatur fallinn lá, slárádum heimsins stigum á.

16. Medal ræníngja ráfa vann, sem ræntu mig klædum fárádann, særdann létu mig liggja þar, lágt í saurindum veraldar.

17. Heimur, Djöfullinn, hold og blód, held eg væri sú íllsku-þjód, er minni hrösun olli frekt, aldreí gat eg þad fyrri þekkt.

18. En Guds Son Jesús er sá mann, sem upp mig reisa úr saurnum vann, ljóssins arfskipti lét mig fá, lifandi manna jördu á.

19. Ljúfasti heimsins Lausnarinn, leid af syndugum mótmælin, þegar á jördu þoldi pín, og þúnga neyd fyrir brotin mín.

20. Rættist Simeons saga þar, sverdid Maríu hjarta skar, þá alblódugann sorgfull sá, Son Guds krossinum hánga á.

21. Andlega, Jesú! upp mig reis, úr andar háska sálu leys! andlega lofgjörd eg skal hér, med anda og munni sýngja þér! Amen!

## 16. Sálmur.

Um Önnu spákonu.

Lagid: Náttúran øll og edli manns.

Spákona hét þar Anna ein, af Assers barna lidi, Phanúels dóttir dygg og hrein, dýrkadi helga sidi, hafdi sjø ár, í hjarta klár, haldid med ektamanni, meydómi frá, sem frædin tjá, fannst opt í helgum ranni.

2. Vetur um áttrædt fjóra frú, fengid hafdi ad lifa, útúr musteri ei gékk sú, um þad Lúkas réd skrifa, nóttu sem dag, med helgum hag, hædstum Gudi þjónandi, fastadi tídt, og bad møg blídt, blessud í ekkju standi.

3. Þessi ad stundu þángad gékk, þakkadi Drottni einum, med vísdóms anda vitnad fékk, vel af Guds Syni hreinum, til allra þar, sem einshugar, eptir lausninni þrádu, med hugar sorg, í sømu borg; sál mín ad þessu gádu.

4. Skírlífid Gudi gédjast vel, gódri skikkan kann valda, Herrann álítur hjartans þel, hann vill þad endurgjalda, þad hjónaband, er heilagt stand, sem heidarlega er vandad, óflekkad, hreint, ljóst bædi og leynt, med losta girnd ei blandad.

5. Einmana stand og ekkjudóm, opt fá Guds børn ad reyna, en Drottins hjálpar høndin fróm, hugga vill þau alleina, ekkjurnar hann, adstoda

kann, einstædíngs saudum bjarga, hans gjædskan þýd, og blessun blíd, breitt hefur svo vid marga.

6. Ekkjan sú sem í Sarepta, samastad átti fordum, adstod hreppti af Elía, eptir Guds nádar ordum, hennar lífs björg, um málin mörg, mjög svo lítil þó væri, drýgjast svo vann, ad Drottins mann, dvaldí þar í hallæri.

7. Drottinn ránglátum hótar hardt, (sem helgir spámenn greina), upp skuli taka ekkju skart, einmana hrópa og kveina, óbyrjur senn, og ekkjumenn, á einum degi verda, þad harma bøl, og hefndar kvøl, hofmódin kann ad skérda.

8. Ekkja þessi á Júda jörd, Jesú mjög eptir þrádi, med bindindi og bænagjörd, blídan Gud dýrka nádi, skírlíf og klár, sín elli ár, aflifdi í bygdum sønnum, háøldrud þar, þolgjædi bar, þóknadist Gudi og mønnum.

9. Audnadist henni æra sú, med augum sínum skoda, heimsins Lausnara helgann nú, hinum réd føgnud boda, sem væntu þar, Guds vitjunar, vongódir lángar tídir, ad heimi sé, þad hjálpræde, af hædum veitt um sídir.

10. Er þad hjartanleg ósk in mín, Endurlausnarinn kjæri! ástvina þegar adstod dvín, andlega huggun færi, nálægd þín mér, svo nái eg hér, ad njóta gledi samvista, og eignast þig, sem elskar mig, um eilífd hjá þér gista! Amen!

## 17. Sálmur.

Um heimreisu Jósephs og Maríu.

Lagid: Lof saung Gudi mey María.

Og sem þau høfdu allt fullgjørt, eins og løgin útkrøfdu, snéru þau bædi aptur ørt, í Nazareth svo tøfdu, en sveinninn þar, sem vonlegt var, vóx og styrktist í anda, med vísdóms frægd, Guds nádar nægd, nam hjá honum ad standa.

2. Ei skaltu, sál mín! umsvif þín, útrétta í hús-stjórninni, fyrrenn ad Gudi gjøldin sín, greidir af hendi þinni, hans óttinn er, til alls góds hér, upp-haf, fullkomnun líka, af Gudi þá, munt frída fá, farsæld blessunar ríka.

3. Þjónustu Drottins þú skalt fyrst, þýdlega af hendi láta, aptur á móti áttu víst, athvarf í sér-hvørn máta, erfidi þitt, og annad hitt, sem útkref-ur forsjón dýra, hans gjædsku sel, Gud mun því vel, til gódra nota stýra.

4. Hafdu Gud æ fyrir augum þér, allt kann hann gott ad veita, ef þú hans ríkis ætíd hér, ástundar fyrst ad leita, hans blíd og hrein, blessun er ein, betri enn tíu synir, í bøli og þrá, best hjálpa má, þó bregdist allir vinir.

5. Fyrir barninu brín þú fyrst, blessadann Drottins ótta, kénn því ad hata heimsins lyst, med holdlegum girnda þótta, sídan láttu þad læra nú,

loflegt handa erfidi, svo daglegs brauds, og ærlegs auds, abli med kristnum sidi.

6. Pú skalt vita ad þetta tvennt, þénar rétt-kristnum manni dýrkun Guds orda og dagleg ment, dæmin trúi eg þad sanni, sú ydjan best, ef inn-ræteft, ávøxt blessunar færir, aldradur þad, fær ersidad, sem úngur fyrri lærir.

7. Smekkurinn sá sem kémst í kér, kann ei í burtu færast; hvad úngur tamdi í æsku sér, øld-rudum verdur kjærast, eíkan vid Krist, skal allra fyrst, inni í hjarta rótum, grósursetjast, og grund-vallast, med gódum dygdahótum.

8. Jesús í anda vaxa vann, med vísdóms þroska fínum, stødug Guds nád réd styrkja hann, strax í úngdómi sínum, eins líka skér, ef barn þitt ber, í brjósti og hjarta ranni, dygdanna sád, Guds gjædska og nád, géfst hinum únga manni.

9. Andleg vitska Guds óttinn er, sem úngum byrjar læra, tignar ment þessa temdu þér, í trúnni, barn mitt kjæra! Guds kraptur hár, þín úngdóms ár, eblir í dygdum hreinum, hann einann vid, med helgum sid, haldt þér í øllum greinum.

10. Børnin, Jesú! þá láttu lyst, læra af dæmi þínu, ad helgum dygdum veru og vist, veiti í hjarta sínu, skynsemd og rád, Skaparans nád, skjæra svo hreppa megi, í hvørjum stad, þér hall-ist ad, en heiminum sæti eigi! Amen!

## 18. Sálmur.

Um vitrun Jósephs.

Lagid: Sá frjáls vid lögmál fæddur er.

Jóseph byrtist í draumi dýr, Drottins Engill og sagdi: tak þig upp skjótt og haldtú hýr, héd-an ad snöggu bragdi.

2. Þú skalt barnid og mæta mey, med þér í burtu flytja, lengi því fresta áttu ei, til Egypta-lands vitja.

3. Til þess eg aptur tjái þér, tímum skaltu þar eyda, Heródes því ad hyggur sér, heilagann sveininn deyda.

4. Hugleid, mín sál! Guds nýta nád, med ná-kvæmd grunda hana, vill hann ekki ad vondsku rád, veiti réttlátum hana.

5. Opt hefur Drottins andi mig, vid íllum háska varad, og á hrekkvísum heimsins stig, í hætt-um líf mitt sparad.

6. En þó Guds ord mér ávísi, íllt ad fordast í heimi, til vareygdar í velgengni, valla trú eg mig dreymi.

7. Sáleysi holdsins géf eg taum, gjæti lítt skyldu minnar, framleidist svo mín æfin aum, í óminni syndarinnar.

8. Veglega Jóseph vitran hlaut, af vísu Drott-ins rádi, fyrir þad Jesús fridar naut, á fram-andi manna ládi.

9. Reid þú þig, sál mín! ekki á, opinberanir slíkar, vill Gud þér ekki veita ad sjá, vitranir spádóms ríkar.

10. Spádóma tíminn úti er, ord Drottins þetta sanna, varast ad stofni í villu þér, vísindin fals=spámanna.

11. Draum = spekínganna heimskuhót, hégóma skaltu meta, brjóta þeir Drottins bodum mót, blindad sálina géta.

12. Hefur Gud stóra andstygd á, íllum spá=sagnar lýdum, verkum Drottins þeir víkja frá, véla einfalda tídum.

13. Þú mátt vita ad er þad ein, afgudadýrkun líka, af því fordast á alla grein, óvitsku fremja slíka.

14. Vilja Drottins þú merkja mátt, mjøg vel í helgum frædum, þarvid þig halda ætíd átt, ept=ir spámanna rædum.

15. Hálfverk er speki holdsins naum, hálfverk vitsmunir allir, heimsins skynsemd ei géf ad gaum, gjæt þín svo ekki fallir.

16. Englanna sjónir ekki hér, í voru holdi sjáum, sídarmeir þessa vegsemd vér, ad vilja Drottins fáum.

17. Myrkranna Engill, merk þad vel, mønnum kann svika leita, megnar hann opt med íllskuþel, í Engil ljóssins sér breyta.

18. Samúels kyrtli klæddur hann, kom úr jørd=unni fordum, Kongínginn Saul svo kvedja vann, med køldum stygdar ordum.

19. Kónginum var Gud vikinn frá, vildi ei andsvar géfa, drauma fékk ei né sjónir sjá, svo féll í vÿl og efa.

20. Þessvegna Satans svikin ljót, sálu hans blekkja gjørdu, féll hann svo á sitt eigid spjót, andvana datt ad jørdu.

21. Forda mér, Drottinn! Djøfuls slægd, og drauma villum leidum, sál minni veittu hugarhægd, med hjálprædis krapti greidum! Amen!

## 19. Sálmur.

Um reisu Jósephs og Maríu til Egyptalands.

Lagid: Oldúngar Júda annars dags.

Uppstód Jóseph vid ordin téd, ad sér tók frú og barnid med, á náttarþeli þá til sanns, med þeirra fans, áfram héldt til Egyptalands.

2. Til þess Heródes dauda dó, dvøldu þau bædi í Egyptó, ordid Drottins þar uppfylltist, sem ádur víst, Hóseas spámann hafdi lýst.

3. Egyptalandi eg hef frá, ástkjærann Son minn kallad; vid skulum, sál mín! efnid eitt, útmála greidt, einsog nád Drottins þad fær veitt.

4. Utlegdar sokin á mér lá, eilífu dÿrdar landi frá, sárann fordæmdra samastad, og sorgarbad, med syndunum hafda eg forskuldad.

5. Flóttamadur eg heita hlaut, heimsins ráfadi svika braut, Egyptalands eg þrældóm þar, og þrautir bar, yfir mig dundu eymdirnar.

6. Vitjadi Jesús mildur mín, mæddann leysti af slíkri pín, þrældóms húsinu frelsti frá, og fékk mér þá, hjálprædis bústad himnum á.

7. A eg, minn Gud! ad þakka þér, þrældóms okinu af herdum mér, kippt er í burt, en kvittud ønd, vid kvída bønd, frelsadi mig þín hægri hønd.

8. Son þinn í útlegd senda rédst, samvitskan mín og hjartad gledst, af því eg vona eflaust hér, úr augsýn þér, vísir í útlegd aldrei mér.

9. Mér er þad fyrir minnstu þá, mig þó verøldin gjøri hrjá, útlegdar tíminn eitthvørt sinn, mun endast minn, þegar upp-byrjast eilífdin.

10. Israels fólk í Egyptó, vid undra þúnga kosti bjó, útvaldi Gud einn mætann mann, sem múga þann, leiddi brádlega burt þadan.

11. Þessi var Móses hýr og hreinn, Herrans þénari dyggur einn, Guds børnum veglegt frelsi fékk, fyrir þeim gékk, yfir um hafsins breidann bekk.

12. Sonur Guds Móses annar er, med øllum rétti nafn þad ber, þrældóms kvølum oss keypti af, og kvittun gaf, þurkadi rétt hid rauda haf.

13. Undan Guds børnum gánga réd, gégnum reidinnar hafs-flódid, Belíals skélfdu bekkir hann, þá banvænann, krossins afsúpa kalkik vann.

14. Er nú hafs-djúpid uppþurkad, aldrei kann oss ad drekkja þad, fáum vér þurrann farveg þar, sem flódid var, frelstir úr grysju gløtunar.

15. Auglýsti Jesús elsku þá, útlægur gjørdist landi frá, strax á ómála aldrí þar, sem áminnst var, einsamall þrældóms-okid bar.

16. En þú skalt, sál mín! ad því gá, Egyptalands fyrst kvølum frá, af Gudi køllud eittsinn ert, útvaliu vert, forgéfins er þad ekki gjert.

17. Lát þig ei aptur lánga þar, frá landi Drottins gódsemdar, til kjøtkatlanna og kvalabanns, þess kúgarans, yfirherra Egyptalands.

18. Høfdíngi þessa heims er þad, sem hafdi þér búid kvalastad; minnstu einninn hvad merkja hér, kjøtkatlarnir, vellystíng holdsins víst þad er.

19. Kristur moladi høggorms haus, úr hørdu fángelsi slapp eg laus, keypti mér værd og fridar fró, fyrir mig dó, útleiddi svo frá Egyptó.

20. Fyrst ad eg þadan frjáls er nú, fyrir þig Drottinn, minn Jesú! inngángur lífsins opinn stár, mín øndin klár, sýngi þér lof um eilíf ár! Amen!

## 20. Sálmur.

Um barna-mord Heródis.

Lagid: Allfagurt ljós oss byrtist brátt,

Þegar Heródes heyrdi þar, høfdu hann gabbad vitríngar. fylltist af grimd og forsi med, fjølda herlids útsenda réd.

2. Øll sveinbørn lífi svipti hann, sem í Betlehem tíma þann, tvævetur voru og ýngri enn, eins um øll nálæg hérødin.

3. Svo sem hann fordum falsi med, af fróm-um vitríngum merkja réd, um fædingartíma Frels-araus, fordæmanleg var breytni hans.

4. Andstyggilegur er med sann, í augum Drott-ins hvør sá mann, sem ad mordíngja sverdid ber, og saklausu blódi útheller.

5. Blód hins réttláta hrópar hátt, hefndina af Gudi dag og nátt, med ógnarbrædi yfir þann, sem á sig blódskuld safna vann.

6. Kain hyrdti ei um Herrans ord, heiptugur framdi bródurmord, Abels réttláta úthellt blód, uppæsti Drottins hefndarmód.

7. Nær sem þér flýgur brædi í brjóst, bid þú Drottinn þinn stilla þjóst, aptra þér sjálfum allra mest, íllrædid svo ei framkvæmist.

8. Margur í brædi verk þad vann, sem vildi feiginn ógjørt hann, seinn til reidinnar sértu því, svo þér ei steypir vanda í.

9. Þótt ad þér gjøri menn á mót, mundu ad stilla heiptarrót, hefndina Gudi géfa ber, gleym ei hvør Drottins réttur er.

10. Offljótt brádrædi út ef brýst, opt kémur fram hvar skyldi síst, saklausann aldrei erta skalt, annars verdur hans gédid kaldt.

11. Blódgírugir med folka síd, sitt fá ei hálfn-ad lífsins mid, reidin afskræmir sinni og sál, sár-heitt upptendrar vítisbál.

12. Heródes framdi vondsku verk, var hans íllgirnin hcldur sterk, sáklaus børn lífi svipta réd, svall af reidinni hrekkvíst géd.

13. Saklaus, minn Jesú! varstú víst, vélrædi hjá þér fundust síst, en þér Heródes ætlar pín, úngbørnin lætur gjalda þín.

14. Eg veit ad þú ert einn med sann, Endurlausnari Gud og mann, fyrir þíns úngdóms eymd og pín, úngbørnin láttu njóta þín.

15. Þóttist Heródes vita vel, med valdi ef léti slá í hel, børnin nálægum áttum í, ei mundi Jesús sleppa frí.

16. Urdu hans rád ad aungvu þar, ónýtti Gud þad heimskupar, Endurlausnarinn um þad skeid, á Egyptalandi saklaus beid.

17. Sá sem á Drottinn setur traust, sæll og hólpinn er eflalaust, Herrans vardveita høndin kann, frá hættu og slísum gudhræddann.

18. Ekki var komin enn sú tíd, á hvørri Jesús fyrir lýd, útfosša lét sitt blessad blód, bidlund hérvistar yfirstód.

19. Gud hefur vegi ótal enn, ógudlega ad hindra menn, øll sinna barna høfudhár, Herrann fær talid síd og ár.

20. Móti honum ei megnar par, makt og styrkleiki veraldar, hans vilja einginn hindra kann, hvørki Engill né nokkur mann.

21. Eg veit að sképnan ekki neiu, áreitir mig né gjørir mein, þegar að hjálpar-høndin þín, hlífir mér, Guð! með krapti sín.

22. Ahyggju minni eg vil því, uppá þig varpa trúnni í, græðarinn Jesú gjæðsku ør! géfðu mér sæla burtu før! Ameu!

## 21. Sálmur.

Um sorgar-ópið í Rama.

Lagið: Jesús Kristur á krossi var.

Heyrst hefur kall á hæðum þar, harma raust óps og kveinunar, sem Spámenn segja náði, Rachel sorg mikla í sinni bar, sona missirinn þráði.

2. Huggast vill ekki í hørmum sín, hjartað fyllist með ángurs pín, af því hún útgjørt heldur, um burtudáin børnin sin, bøl það sorginni veldur.

3. Við skulum, sál mín! um það eitt, okkur til lærdóms þeinkja greidt, hvørsu að Herrann sæti, við sín elskuleg børn fær breytt, bæði í sorg og medlæti.

4. Víst er holdinu þént með því, þegar það nýtur sorga frí, gleði og góðra daga, harmkvæli rata ei vill í, sem øndinni best þó haga.

5. Margur þá hreppir medlætið, miskun Drottins ei kannast við, sem øllum allt gott veitir, heldur með vondum synda síð, sjálfann Guð títt áreitir.

6. Medlæti þegar géfur Guð, gleymir náttúran forblinduð, þakklæti gott að greiða, sem hjartans elska hreintrúuð, honum á fram að greiða.

7. Oftraust velgeingnin upptendrar, áfýsir hold til metnadar, svo gjafarans gjætir eigi, Drottins velgjørníng vanbrúkar, sem vitnast á hefndar degi.

8. Optlega Gud sín børnin blíd, bera lætur því sorgarstríd, med ángist, eymd og trega, trúudum jafnan líknar lýd, þó lýist marga vega.

9. Af því skalt, sál mín! þekkja þú, þig hefur Drottinn kjæra nú, og hýrt í hósi agar, þolgód umber, med þýdri trú, þótt komi hrigdardagar.

10. Sorgadi Rachel sona deyd, sína klagandi ángurs neyd, hún vill ei huggast láta, ef sømu hittir harma leid, hóflega skaltu gráta.

11. Børn og ástvini Gud þér gaf, gjøra má hann því sjálfur af, sem honum ljúfast líkar, þolinmædina helga haf, hún bætir raunir slíkar.

12. Svo var Jobs fordum sinni vart, þó sitt afkvæmi og annad margt, med sorgum missa nædi, sem Drottins barna er til art, allt leid í þolinmædi.

13. Ei skaltu þeinkja ad útgjørt sé, um ástmenni þín, þó burt deyi, frá heimsins vistarveru, signad hreppa þeir sælgjæti, hjá sjálfum Drottni eru.

14. Von hins rángláta úti er, þá æfin vesøl þverra fer, en réttlátra í blessun blífur, Herrann til lífs þá heimfærir, og hørmúngar burtu drífur.

15. Syrg því ekki, þó sannhelgum, sé kyppt í burt frá eymdunum, Drottinn þeim gladværd géfur, med øllum sínum útvøldum, í andlegu skarti vefur.

16. Ei hefur nokkurt auga sjed, enginn fyrri þad heyra réd, né þeinkja þarum kunni, hvílík vegsemd þeim verdur léd, þá vakna í upprisunni.

17. Endast þá hrygd og harma kvein, heyrist ei sorgar raustin nein, á hædum himna ranna, útvalda hendir ekkért mein, ord Drottins þetta sanna.

18. O Jesú! géf mér gledi þá, nær gánga verd eg heimi frá, á sídsta æfikvøldi, ad mætti eg sælann finna og fá, føgnud í himnaveldi! Amen!

## 22. Sálmur.

Um dauda Heródis.

Lagid: Gjædsku Guds ver prísum.

En þá Heródes hafdi, hardrádur kannad deyd, Eugill Guds ei vidtafdi, aptur um sama skeid, í draumi byrtist brátt, Jóseph, og sagdi sídan: svein med sér taka frídann, og módur hans einuinn átt.

2. J Jsraels land skalt leita, lýdnum Egyptska frá, hédan til heljar reita, horfinn er óvin sá, sem eptir sækja vann, lífinu svein ad svipta, svo gjørdi Drottinn typta, arganu íllrædismann.

3. Sál mín! hér merkja máttu, makt Guds og réttlæte, er hann á ýmsa háttu, augljósa lætur ské, med hørdum hefndar síd, á þeim sem ílla breyta, og eptir straffinu leita, en kannast ei verk sín vid.

4. Dauda Heródes hreppti, hersilegann um síd, ríkisins rádum sleppti, sem rómverskum fékk af lýd,

ádur til umbœmis, en stjórnadi allt of illa, opt gjørdi fridnum spilli, med hrekkvísi hardsinnis.

5. Drottins óvinum øllum, eins líka gánga kann, ólukkunnar áføllum, yfir þá steypir hann, þegar þeir þeinkja síst, en gudhrœddir gledi hljóta, gódrar umbunar njóta, til huggunar hrygdin snýst.

6. Ef þér er illt í sinni, athugaverdt er þad, hefnd Drottins hafdu í minni, huxandi um kvalastad, hvar þú úttaka átt, laun fyrir ljóta hrekki, láttu þig villa ekki, svikulann Satans mátt.

7. Fýsi þig gott ad gjøra, Gudi til þægdar nú, lát þér uppvakníng vera, verdlaun sem hreppir þú, af Drottins dýrri nád, sem kaupid gódum greidir, og gudhrœddra sorgum eydir, þau bid eg rækir rád.

8. Allar athafnir þínar, álítur Gud og sjer, hardar hótanir sínar, hrína lætur á þér, ef þú hans gjœdsku géd, misbrúkar vísvitandi, med vondu glœpastandi, þad hefur þrávallt skéd.

9. Þótt ad Guds þolinmœdi, þyrmi um stund og tíd, seinna hans brennur brœdi, ef bót finnst ei hjá lýd, mín sál! þad mundu rétt, dvøxt ef engann géfur, øxina Drottinn hefur, til róta trénu sett.

10. Eikin sem á sér hafdi, ei nema blødin tóm, þá Frelsarinn fœdu krafdi, fékk þann réttlœtis dóm, aldrei skal ávøxtur, útaf þér optar spretta; eptir hans talid þetta, vard hún visnud og þur.

11. Hætt er vid margur megi, minn Drottinn!

eikur sjá, er á uppskéru degi, úrskurdinn sama fá, af því ad offein var, ydrun og umbót sanna, en ydkun sífeld glæpanna, allt til endalyktar.

12. Eins og þá øxin snídur, eikur og skógartré, hefnd Drottíns hardt ad rídur, honum, sem frestadi, líffernis lagfæríng, þá einn Gud eptir þetta, med ógn og reidi þétta, sídasta setur þíng.

13. Margur vill lifa lengi, vid lystir veraldar, og þótt hann frekann fengi, frest sem Ninivítar, aldrei samt ydrast vann, þángadtil dapur daudi, dró hann heimsins frá audi, nær því sem naudugann.

14. Vel þó í fyrstu falli, fyrir þeim íllgjørnu, enginn þad audnu kalli, því opt ad bendíngu, yfir þá ógjæfan, snøgglega í hasti hrapar, og hrekkvís-um aldur skapar, hendir þad margann mann.

15. Valt er, mín sál! ad sofna, í syndum og ugg-leysi, þvílíkann daudans dofa, Djøfulsins hrekkvísi, setur í sinnis reit, hjá þeim, sem þekkir hreina, þjónustu Drottins eina, gjørir þó verr enn veit.

16. Sá lifir best í blóma, sem býst vid ár og síd, hrekkvísum heims ósóma, hafna, svo daudans tíd, ó-vørum, ekki hann, grípi í gjørdum syndum, og gal-skap holdsins blindum, sál mín! haf setníng þann.

17. Géf mér, ljúfi Lausnari! ad lifa sparliga hér, svo burt í fridi fari, nær fjørid loksins þver, Guds barna gridarstad, ønd minni untu ad finna, innleid til bygda þinna, Amen! mín ósk er þad! Amen!

## 23. Sálmur.

### Um heimreisu Jósephs úr Egyptalandi.

Lagid: Lof saung Gudi mey María.

Jóseph tók med sér barnid brádt, og brúdur dygda-gjarna, heimleidis aptur héldt í átt, til héradsIsraels barna, þær fregnir hann, heyrdi med sann, ad Heródes arfi réttur, Archelaus, á íllsku fús, yfir Júda var settur.

2. Þessvegna ekki þordi hann, þángad hælis ad leita, Drottinn honum í draumi vann, dýra rádstøfun veita, snéri því ørt, eptir þad gjørt, í Galilæa sveitir, sér fékk med hrad, þann sama stad, sem ad Nazareth heitir.

3. Þaunig framkom hin forna spá, sem finnst í helgum greinum, Nazaræus hann nefnast á, Nú í manndómi hreinum, heiløgum þó, honum í bjó, háleitur guddóms kraptur, því skal. mín sál! þánkinn og mál, til þessa hverfa aptur.

4. Nazaræus Guds Son er sá, sannur Herra og Drottinn, blómligur kvistur kallast má, af kyni Jesse sprottinn, ber ávørt hrein, sú blessud grein, betri enn aldin-vidur, hunáng drap af, þeim hjálparstaf, huggun og andar fridur.

5. Ádur Gud lýd sinn Ísrael, af Egyptó kallandi, plantadi hann sem víntré vel, vænu í Canaanslandi, eins Jesús hér, heim aptur fer, (Hóse-

as þarum sagdi), það víntréð mætt, sem bøl fær bætt, og blessan oss til lagdi.

6. Þú hefur, sál mín! þessu tré, hveigin med skírnar badi, innplantast fast í elskunni, einn Gud svo tilskikkadi, þessvegna nú, nefnast áttú, Nozaræus med sóma, ávexti ber, audsýn á þér, andlegann dygda blóma.

7. Efad kvisturinn eingann ber, ávøxt med gróda fljótum, verdur hann skjótt, sem vonlegt er, vidar høggvinn frá rótum, í eldi þá, uppbrennast má, engin bót finnst vid slíku, Guds hjálprædid, mér varni vid, voda straffi þvílíku.

8. Þú skalt og vita ad þyrmt var sízt, þeim náttúrligu kvislum, þegar Júdar med vondsku víst, viltir fordæmdu Kristum, hardlega þá, hefndin féll á, heidnir lýdir það gjørdu, rupludu torg, en breida borg, brutu nidur ad jørdu.

9. Ei kann hid rotna aldin-tré, ávøxt gódann ad færa, sértu daudur í syndinni, síst máttú Gudi tæra, frumgróda þeim, og frídum seim, sem fagrir kvistir bera, gródurlaus eik, gømul og veik, gagnlaus hlýtur ad vera.

10. Eins bid eg, Drottinn! af þér nú, med audmýkt vesæll madur, géf ad eg sé í sannri trú, sjálfum þér innplantadur, og beri klár, um æfi ár, ávexti gudrækninnar, þartil med prís, mér veitast vís, verdlaunin trúarinnar! Amen!

## 24. Sálmur.

Um árlega reisu foreldranna Jesú til Jerúsalem.

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

Árlega Jóseph meyu með, til musterisins gánga réð, þegar að Páska hátíð hrein, haldin var eptir laga grein; Guðs dýrðar jafnan gjættu mest, gjørðu hvað honum þókknaðist.

2. Á settum tíma til svo bar, tólf ára þegar Jesús var, helgidags gaungu hófu þá, heimili sinn burtu frá, til Jerúsalem vissann veg, var það siðvenja hátíðleg.

3. Mín sála! þarum þeinkjum við, þegar Guð útgaf løgmálið, um Sabbatsdag og helgi-høld, hørð álýktaði hann sekta-gjøld, sem koma áttu yfir þá, er orði Guðs sér kasta frá.

4. Sá sem er herra hvíldardags, hefur þér lént til vinnulags, sex vikudaga virka hér, en valdi einn til dýrðar sér, þennann vanhelga ekki átt, annars mætir þú hefndum brádt.

5. Hátíðisdaga ræktu rétt, sem ráðsmenn kristninnar hafa sett, Drottinn útheimtir af þér þá, ástargéð sitt að minnast á, láttu því ekki liggja í hlé, lofgjørð, þakklæti og guðrækne.

6. Gleðelig Jóla hátíð hér, Herrans fæðingu kunngjørir, er því skyldugt að offrir þú, andligri lofgjørð, sál mín! nú, fyrir gjæðskunnar góðsemd þá, Guðs Sonur manndóm tók sig á.

7. Önnur stórhátíd er sú víst, sem upprisinn bodar Jesúm Krist, sigurhøfdíngja sønnum þá, sigurhrós andligt færa má, vann hann Djøful og vítisneyd, valdinu svipti bitrann deyd.

8. Mundu og hátíd þridju þá, þegar Guds Sonur himnum frá, heilagann Anda sendi sinn, sanntrúadra í hjørtun inn, stærstu hátídir þessar þrjár, þér ber ad halda sérhvørt ár.

9. Adrar smærri, sem árliga, innfalla medal kristinna, med jøfnum heidri akta átt, andliga í Drottni gjør þér kátt, ordi Guds hlýd, og heyr þú vel, helga sidvenju þetta tel.

10. Minnstu á Davíd, Drottins mann, dagliga þar vid gladdist hann, ad mega gánga Guds i hús, gjørandi þakkir dygdafús; allteins þú líka sinnud sért, sál mín! og þessa minnug vert.

11. En þú skalt géfa gaum ad því, þó gángir viljug kyrkju í, synd er mikil ad sitja þar, ef sálin ekki þeinkir par, eptir Guds dýrd og ordum hans, sem útgánga af munni kénnimanns.

12. Gángir þú fram í gáleysi, sem gleymanlegur heyrari, áttu skilid ad ord Guds þad, er ádur numdir í helgum stad, dæmi þig loks á degi þeim, nær Drottins reidi straffar heim.

13. Lifir af braudi sálin síst, sína hefur hún næríng víst, af ordi Guds og anda hans, sem ávartast í hjarta manns, ef svoddan vøkva sjúga má, sadníngu nóga fær hún þá.

14. Opt og tíðum með munni mann, margur Drottinn nálægjast kann, en hjartað þó og hugurinn, hvarflar ei til Guðs nokkurt sinn, slíkum hálfvolgum hræsnurum, Herrann vill skirpa af vörunum.

15. Þennann varastu, sál mín! síð, sé bæði mál og hugskotið, í sannri dýrkun samfara, svoddan rótgróin alvara, Guði þríeinum geðjast best, gagnar sálunni allra mest.

16. Flapur munnsins og fláráðt geð, forsmáír Guð og hatar með, hann vill að þú sért hreinn og klár, honum þjónandi síð og ár, einskjæra miskun öllum hann, af einlægu hjarta veita kann.

17. Játa má eg það, Jesú minn! Jeg er stórliga vangjætinn, því verr, að hjartað ofkaldt er, opt þegar raustin hreifir sér, vona eg Drottinn! þó á þig, þinn anda láttú verma mig! Amen!

## 25. Sálmur.

Um það, þegar foreldrarnir söknuðu barnsins á leiðinni.

Lagið; Skaparinn stjarna Herra hreinn.

En sem þeir dagar enda fá, aptur heimleiðis gengu þá, í Jerúsalem eptir var, úngur Jesús og dvaldi þar.

2. Hans foreldrar þar hugðu ei að, heldur fulltrúa meintu það, hann mundi selskaps hópnum hjá, honum þó lítið bæri á.

3. Mætur Jóseph og María, meðal frænda og

kunníngja, leitudu hans, sem líklegt var, lundin beggja því hryggdist þar.

4. Aflokid høfdu eins dags ferd, ádurenn sú var leitin gjørd, þegar hann fundu ekki enn, aptur til borgar héldu senn.

5. Heidurligt dæmi hafa þar, hvørjir gudhræddir foreldrar, afkvæmi sín ad annast rétt, útheimtir svoddan hjóna stétt.

6. Yfir veraldar fagurt frón, fyrstú setti Gud ektahjón, mælti fyrir hans mildin há, ad margfaldast skyldu jørdu á.

7. Afkvæmis rækt og elsku því, inngaf hann þeirra hjørtun í, adgjætslu, vakt og varatekt, víst heimtir Drottinn af þeim frekt.

8. Hinar skinlausu sképnurnar, med skikkun sinnar tegundar, leggja ei stóra vanrækt vid, vakta heldur sitt afkvæmid.

9. Miklu ædri er madurinn, mentadur vel med skilnínginn, honum ei ætla minna má, mikid vardar um skyldu þá.

10. Gódum foreldrum ángur er, nær illa børnin hegda sér, gódri skikkan ef gjæta ad, gledi tvøfaldrar ablar þad.

11. Fadirinn tárum flýtur í, fordjørfun barnsins veldur því, módurin sárann grætur gód, gengur þad svo hjá hvørri þjód.

12. David harmar sinn báinn son, deya vill

fyrir Absalon; Jakob særist af sorgar pín, ef sinn skal missa Benjamín.

13. Súnamítis med sárann móð, sútir bar fyrir einka jóð, lagdi í kjøltu sjúkann svein, syrgja gjørdi hans dauda mein.

14. Skédi hér eins og áminnst var, ástríkir Jesú foreldrar, søknudu barnsíns sorgbitin, af sútum fylltist hugurinn.

15. Mikil var sorg ad missa þann, sem missir allann bæta kann, harmar þvílíkir heimsóktu, helgann Jósęph og Maríu.

16. Hendi þig sama, sál mín! nú, sorgfull ad Jesú leita þú, sá sem hann missir, missir allt, manna fulltíngid reyníst vallt.

17. Þegar ad lokfíns þú skalt hér, þrælbóms skilinn vid tjaldbúdir, gánga veg allrar veraldar, veldu Jesúm til samferdar.

18. Sú er hin mesta sálar neyd, ad sakna hans á þeirri leid, og óvíst hvørt þinn andinn kann, aptur snúa og finna hann.

19. Á þeirri stundu eg þig bid, ei mína sálu skiljir vid, Drottinn Jesús! sem dóst á tré, daudinn er þá minn ábati! Amen.

## 26. Sálmur.

Um leitina eptir Jesú.

Med sama lagi.

Minnumst vid, sál mín! enn þar á, sem ádur

fyrri hvarf eg frá, ljúfir foreldrar Lausnarans, leitudu strax þá sakna hans.

2. Peinktu hann væri á veginum, hjá vinafólki og náfrændum, gódum selskap því vanur var, vissu þad og hans foreldrar.

3. Láttu ei barn þitt venjast vid, vondann selskap og hrekkja sid, af því spillist hinn úngi mann, ódygd og glæpi nema kann.

4. Gudhræddra sid og samfélag, sjá til hann stundi nótt og dag, mikid gott hann þar ødlast af, athugasemd á þessu haf.

5. Þótt hann med gódum gódur sé, gudlausra manna hrekkvísi, til vondsku tídum venur þann, sem velur sér selskap þvílíkann.

6. Sidaspillir er samtal íllt, son minn! ef þetta fordast vilt, gódann munnsøfnud ven þig vid, varastu last og baktalid.

7. Hid vonda tídum audnæmt er, inní hjartad þad smeigir sér, þeir eldri gánga girndum í, glæpist barnid á agni því.

8. Náttúran holds er næsta treg, ad nema sannann lífsins veg, gódur vani þó gjørla kann, ad gjøra úngdóminn sidprúdaun.

9. Undan ad gánga ættu þeir, sem árum hafa safnad meir, af þeim lærir hinn úngi þá, allmikid þetta stoda má.

10. Sidferdi gott ef barn þitt ber, blessunar Drottins ablar sér, gódrar skikkunar Gud er hann; gjæta skyldi þess sérhvør mann.

11. Lángtum betur enn lærdómsment, ljós eptirdæmin géta kénnt, hvad augun líta optastnær, inngáng í barnsins hjarta fær.

12. Hafist þú lastligt eitthvad ad, ei láttu barnid horfa á þad, gott þegar nokkud ydja á, adferdina þad láttu sjá.

13. Ei veitstú nema eitthvørt sinn, ávøxt færi sá sidvaninn, og barnid eptirbreyti því, sem best er þinu fari í.

14. Nær Drottins ord er haft um hønd, helst séu børnin til þess vønd, ad hlýda lestur helgann á, hyxa kunna þau um þad þá.

15. Andi Drottins sem ordinu, ásamt byggir í hjartanu, þó enginn þetta merki mann, menta hid innra barnid kann.

16. Af því spretta þeir ávextir, sem ytra gjarnan hreifa sér, andinn smámsaman eykur vid, inn til þess barn er fullordid.

17. Í þeirra hóp, sem þennann sid, þrávallt kostgjæfnir halda vid, viljandi barn þitt vera lát, vandliga haf á þessu gát.

18. Barnid ef tídum venst þar vid, verdur þad loks ad hvørsdags sid, gudhræddra selskap sídan í, sannliga máttu leita ad því.

19. Bid eg, Jesú! ad börnin mín, barnæsku mættu njóta þín, sannra Guds barna samneyti, sé þeim til reidu, í dýrdinni! Amen.

## 27. Sálmur.

Um samtal Kristí vid hina skriftlærdu í musterinu.

Lagid: Hærsti Gud Herra mildi!

Eptir þrjá daga dýrann, Drottinn í musteri, fundu med huga hýrann, hans blessud ástmenni, fedranna midt á milli, mál þeirra hlýddi a, vondra þó flokk ei fylli, fróda spurdi med snilli, hvörr mann þad heyrdi og sá.

2. Undrudust allir þetta, addádust svörum hans; aungvir þó eptir frétta, alvitsku Frelsarans, meintu hann mundi vera, madur enn ekki Gud, spurníngum skírt úr skéra, skilníng ekki tilbera, því vitskan var vantrúud.

3. Frelsarinn fræddist eigi, þó fróda spyrdi hann; held eg víst meina meigi, muni hann tíma þann, spurt hafa ad spádómsgreinum, sem spjalla ritníngar, Messía útaf einum, og hans guddómi hreinum, hvörn fólk ei þekkti þar.

4. Til þessa lítid lögdu, lærifedurnir þá, timburmanns son hann sögdu, seinna ef minnst var á, lasta hans guddóm gjördu, gáfu þad lýdnum inn, med þrjótsku hjarta hördu, hann væri einn á jördu, falsmanna forínginn.

5. Skriftirnar þótt þeir þekki, það var samt undraverdt, ofmjøg þá blindnin blekti, blídum Guds Syni þvert, jafnan afneita nádu, næsta tregir í lund, síns andar gagns ei gádu, góda kénníng forsmádu, nýttu ei nádarstund.

6. Af því að ekki hafdi, á bækur Jesús lært, alþýdan andsvars krafdi, í spursmál gat það fært, honum hvadan ad kjæmi, hyggindi vitskunnar, uppá hans ágjætt næmi, ei þóktust finna dæmi, hjá ødrum einshattar.

7. Optar enn einusinni, uppfrædði Jesús þá, lagdi æ minni og minni, múgurinn trú þar á, hneixluðust hryggilega, á Herranum Kristó þar, med hjartans heimsku trega, hæddu hann marga vega, og áreittu allstadar.

8. Jóhannes fyrst þá frædði, um Frelsarann Jesúm Krist, útaf ritníngum rædði, rødd hans mjøg vidfrægdist; réttlætis veg nam vísa, vildu ei Júdar þó, eptir hans ordum hnýsa, uppá móti þeim rísa, þrjótskan í þánka bjó.

9. Hér trúi' eg Herrann gengi, á hólm vid Júda fyrst, stríð þó ei stædi leingi, strax af því vitnadist, hann mundi hina vinna, ef herdti nokkud á, móti þeim forsvar finna, slættskap þeirra ei sinna, sem gudspjøll greina frá.

10. Trúa vil eg ótregur, tign þinni, Jesú klár! eingétinn, elskulegur, ertú Guds Sonur hár, Fød-

ursins fagur ljómi, frídasti mønnum hjá, þinn prís á hædum hljómi, í heiminum lof þitt rómi, allt það sem anda má! Amen.

## 28. Sálmur.

Um samtal Kristi og Maríu.

Lagid: Seldi Pílatus saklausann.

Þá hjónin Son Guðs sáu rétt, sitja í kyrkju inni, hnikkti þeim við, en lund varð létt, því lærdóms stétt, æfði með ydkuninni.

2. María sagdi svo til hans: Son minn! því gjørdir þetta? við høfum leitad lángt til sanns, með daprann dans, til þín ei fengum frétta.

3. Helgum Jóseph og hýrri frú, Herrann réð andsvar veita; hvørju gégnir þið hafið nú, með holla trú, harmandi gjørt mín leita?

4. Vissu þið ei mér vera bar, í verki opinberu, þeim hlutum frekt til fyllíngar, og framkvæmdar, fødur míns sem að eru?

5. Ádur María ángur hlaut, úngann Jesúm þreyandi, en nú gladværdar yndis naut, unnin var þraut, aptur sá hann lifandi.

6. Guðs barna kjør það eru enn, optlega í verøldinni, eina stund mædir ángistin, og adra senn, aptur er gladt í sinni.

7. Deyda og lífga Drottinn kann, daglega

þanninn breytir, um lítinn tíma hryggir hann, og hrellir mann, huggun eptirá veitir.

8. Réttlát María reyndi þad, raunamód á- vítadi, ástkjærann Son í sogdum stad, fyrir sinn verknad, sig Jesús forsvaradi.

9. Hans var ad sønnu módir mey, módurrétt hafa vildi, hlýdninnar gjætti, og hérvid nei, hann sagdi ei, hitt kvad í meira gildi.

10. Mønnunum Drottinn meiri er, í makt og krapti hreinum, honum því framar hlýda ber, þad høfum vér, heyrt í ritníngargreinum.

11. Af sínum Fødur sendur var, Son Guds í ást og mildi, fyrir því einu allstadar, umsorgun bar, erindid rekast skyldi.

12. Pad var ad leggja lýdnum braut, til lífs og dýrdar vista, þessvegna Kristur hørmúng hlaut og harda þraut, í heiminum vard ad gista.

13. Fødursins vilja framkvæmdi, frelsadi menn á jørdu, yfirvann deyd og eilíft spé, andvana' á tré, aflauk því strídi hørdu.

14. Ekki María undirstód, ordin er Jesús sagdi, heldur þau svørin greina gód, sem geimslu sjód, gullvæg í hjarta lagdi.

15. Peinkt hefur eptir þessu fyrst, í þeli vitsku- ríku, þartil ritníng, sem ræddi um Krist, vel vitnadist, og verda tók raun á slíku.

16. Spádómar allir uppá hann, opinberudust

sídar, svo hreina þýding heyra vann, hvørr kristinn mann, um heimsins bygdir vídar.

17. Fyrst þú, minn Jesú! fullkominn, Føðursins gjørdir vilja, aldrei lát holdi inngróinn, íllviljann minn, okkar á millum skilja! Amen.

## 29. Sálmur.

Um hlýdni og undirgéfni Jesú vid sína foreldra.

Lagid: Sá frjáls vid løgmál fæddur er.

Ferdadist Jesús þá med þeim, þadan á samri stundu, øll til Nazareth héldu heim, holla nágranna fundu.

2. Foreldrum hlýdinn Frelsarinn, fannst þar í øllum greinum, auglýsti sig hans audsveipnin, med ástar þela hreinum.

3. Lærid af Jesú børnin blíd, blessunar er þad merki, heidrid foreldra þæg og þýd, þad í ordi sem verki.

4. Hann sem ad allra ydar er, einn Gud og fadir líka, foreldrum gjørdist hlýdinn hér, huxid um audmýkt slíka.

5. Gud í manndómi mønnum var, med mannliga skikkun besta, undirgéfinn, svo ekkért þar, uppá kunni ad bresta.

6. Sínum Fødur á himnum hann, hlýdugur gjørast nádi, viljugur kom, og viljugann, viljandi fólkid hrjádi.

7. Fyrir þig gjørdist blessad barn, barn Guds svo verda mættir, sýndi med hlýdni, hlýdnisgjarn, ad hlýdinn vera ættir.

8. O! hvørsu fékk þig audmýktin, ó Jesú! nidurlækkad, svo niðurlægdann þrælinn þinn, þú fengir aptur hækkad.

9. Fyrir hans skuld þig, barn mitt! bid, bid þú mér einninn medur, ad hlýdid lærir svoddan sid, sidur sá Drottinn gledur.

10. Allt svo leingi sem Gud er Gud, gódum hlutum rádandi, æ verdur hlýdnin umbunud, øllum Drottni þjónandi.

11. Allt svo leingi þú, barn! ert barn, í barns minni skal þér vera, ad hann vill láta þig hjálpargjarn, hlýdninnar laun uppskéra.

12. Þínum foreldrum um þú ert, elsku' og hlýdni skyldugur, allt sem þau hafa gott þér gjørt, gjarnan sértú minnugur.

13. Jarðneskum manni engum átt, ødrum betur ad unna, í øllu því, sem megna mátt, minnstu þeim þakkir kunna.

14. Hafa þau þig í fyrstu fædt, fæddann daglíga alid, alinn á hollum kosti klædt, klæddann til menta valid.

15. Af þeirra holdi hold ertú, med heyrn og sjón lifandi, þín sál af sálu þeirra nú, þrávallt er fast h.ngandi.

16. Ahánga því í elskunni, áttu fødur og módur, lidsemd og styrk þeim láta' í té, ljúfur og vidmóts gódur.

17. Í minni jafnan þér sé því, sú þúnga hefndar pína, sem óhlýdnir rata eiga í, ef afrækja skyldu sína.

18. Vanblessunar þad orsøk er, eptirkøst mun og veita, ef vid foreldra þína, þér, þú gjørir ílla breyta.

19. Lát þér Absalons óhlýdni, aldrei úr minni lída, þegar hann rænti fridi og fé, fødur sinn Davíd blída.

20. Pá gángvaranum geysi hast, gjørdi til st.íds ad hleypa, hans í trénu vard hárid fast, hendti hann daudans sneipa.

21. Tobíæ dæmin dygda fród, dagliga í þánka festu, hreppti hann laun af Gudi gód, gjæfu og lukku bestu.

22. Fadir ljósanna eins mun enn, af elsku vid þig gjøra, ef þú vid Gud og yfirmenn, ástundar hlýdinn vera.

23. Géf þú í allra barna brjóst, blídi Jesú! þinn anda, svo vid foreldra leynt og ljóst, læri í hlýdni standa! Amen.

# 30. Sálmur.

Um daglegann þroska og framför barnsins Jesú.

Lagid: Til þín, heilagi Herra Gud!

Eins dásamlega og upphaf tókst, á hans manndómi sønnum, aldur og viska Jesú jókst, jafnt því hjá Gudi' og mønnum, nádar-hylli; sem gudspjalls grein, gløgglega vottar skír og hrein, leid ad embættis ønnum.

2. Andstygd er þad, ef aldurinn, eykst med löstanna greinum, frekast og verdur fullordinn, í flærd og glæpum einum, ángrast Drottinn og hatar hann, sem hefir lifnad þvílíkann, elskast hann ekki af neinum.

3. Agjætt er hitt, ef aldurinn, eykst í dygdunum hreinum, frægur verdur og fullkominn, med fremd í øllum greinum, einn Gud fagnar og elskar þann, sem æfir lifnad þvílíkann; þó hatist af íllum einum.

4. Aldur og vitska á einum senn, allvel til samans skarta, ó Jesú! láttú úngdóminn, ødlast þitt ljósíd bjarta, svo vit med árum vari þeim, sem vanvitugir komu í heim, og ødlist hyggid hjarta.

5. Vegna þess æskan afræker, opt og tídum ad læra, og hégómliga hegdar sér, hatar uppfræding skjæra, ellin í bernsku áfram dregst, ó-

vyrdíng á þann gamla leggst, sem heimskuna hef-
ir kjæra.

6. Skuli hærurnar heidur fá, og haldast í
miklu gildi, æskan hlýtur ad audgast þá, af því
sem seinna vildi, prýda med dofin elli-ár, ef ald-
urinn kann ad verda hár, úngur þad skynja
skyldi.

7. Opt er gømlum til yndis þad, sem ádur læra
gádi, hinu er honum ángur ad, sem úngur forsóma
nádi, aldradur heimskur ei fær prís, er þeim grá-
hærdu sneipan vís, ef fer ad rasandi rádi.

8. En sá hyggni, þó úngur sé, æru tvøfaldrar
nýtur, vegsemd, hylli og vinfengi, af vitrum mønn-
um hlýtur, sinna foreldra sæmd er hann, sjálfur
kallast einn gjæfu-mann, ef þad ei af sér brýtur.

9. Er þó hin mesta audna sú, æsku-mannsins
í heimi, ástar Drottins ad njóta nú, svo nádin ad
honum streymi, eins og rennandi uppspretta, sem
afþvær kámid bernskliga, betra' er þad brendum
seimi.

10. Oss sá þad gudspjalls ordin kénnt, sem
ádur géta nádi, ad prýdt hafi Jesúm þetta þrennt,
þroski med vísdóms rádi, hjá Gudi og mønnum
nádin neyt, þó nyti þess lítt ad Júda sveit, þá
hann var hér áládi.

11. Uppvøxtur hans og æskan klár, med ádur-
søgdum hætti, þanninn framleid um þrjátíu ár,

þar til hann sitt embætti, berliga á jørdu byrjad fékk, og blessadur hérød kríngum gékk, sýnandi sitt almætti.

12. Hefir þú Jesú, barnid blídt! barnæsku þannig mína, med blessudum dygda blóma prýdt, bid eg nú gjædsku þína, úngdóms verdugleik allann þinn, audmýkt, hlýdni og blódskraptinn, ætíd lát á mér hrína.

13. Fyrir þín úngdóms árin blíd, úngdóms brestunum mínum, gleymdu nú, hjartans gjædskan þýd! gódvilja eptir þínum, sú nýa fæding, nýa hér, nád og styrkleika veitti mér, af klarum krapti sínum.

14. Þóknist Gudi ad gjøra mig, gráann af ellihárum, til þín, elskan mín ástúdlig! andvarpa' eg heitt med tárum: Drottinn aldradi daganna, sem dálítill komst á jørdina, styrk mig á alders árum!

15. Framar vil eg þig bidja bert, barnid Jesú ástkjæra! barna minna þú bródir sért, blessun virdist þeim færa, bernsku sáfrædid frá þeim tak, sús yfir þeirra sálum vak, Guds ótta lát þau læra.

16. Hef eg um stundir sinni' og sál, svalad ad vilja sínum, hljómi mitt búid barna=mál, blídt fyrir eyrum þínum, þennann skatt=peníng skyldugann, skoda, Jesú! og medtak hann, goldinn af munni mínum.

17. Veldi, kraptur, lof, vegsemd, prís, virdíng hátignarinnar, æra og makt þér æ sé vís, unnustinn sálar minnar! um vøtn og grundir veraldar, vídfrægist nafn þitt allstadar, í kóngstjórn kristni þinnar! Amen!

# Sálmur.

## Ut af fædíngunni Kristí.

(Síra M. E. S.)

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Undarlegur fridar fursti, sem fødur-nafn frá eilífd ber, undarlega æ þig þyrsti, til eilífs lífs ad hjálpa mér, lífsins Gud og ljómi klár, ljóssins út frá fødur gár, einninn guddóms sæti sínu, svo ad klæddist holdi mínu.

2. Hvørju sætir, hvørju veldur? hvílík mundi orsøkin, ad þú gjørdist sorgum seldur, sannur madur? Jesú minn! aumkandi þitt auga sá, í fángelsi þúngu' eg lá, hvad um eilífd hefdi bundid, ef hjálparrád ei væri fundid.

3. Vídt helvítis ginid gapti, Guds eilífa reidi brann, eíngra bæna unnt var krapti, ekkért hróp því megna vann, ad semja dýra sáttargjørd, svo var Drottins brædi hørd, einginn leyst gat annann bródir, út þó sínu hellti blódi.

4. Gud uppspretta allrar mildi, og kjærleikans

botnlaust haf, sinni sképnu vægja vildi, vegsamlegt því frelsi gaf, en það kunni aldrei ské, utan hann af meyunne, sjálfur fæddist sannur maður, syndlaus, hreinn og óflekkaður.

5. Rís upp maður af svefni synda, sjá þig betur nú um kríng, þú með gjætni þér íminda, þinna glæpa svívirdíng, móti vondum synda síð, sjá Guðs strånga réttlætið; svo að feingist sátt og friður, Son Guðs sté á jørðu niður.

6. O! vors Jesú elsku mæti, ó! það kjærleiks djúp frábært, hærstur Drottinn, hvørs réttlæti, heitast brennur loga-skjært, syndum móti' og synda dáð, svoddan vísdóms hitti ráð, að sig ei spara sjálfann vildi, svo maðurinn frelsast skyldi.

7. O! þú kvinnu sæla sæði, sjálfur høggormsins trodarinn. hvørrar sálar harma flæði, hjádnar þar af, Jesú minn! að oss vildir aumum hjá, eiga dvøl og því mun sá, vondi Satan verðkaup hljóta, vill hans høfuð Jesús brjóta.

8. Guð vor sjálfur gjørdist bróðir, Guð þá klæddist holdi manns, syndugri af sinni móður, syndlaus fæddur er til sanns, helgra Engla fylkíng fróm, þann fær ei skoðað leyndar-dóm, en hann lét síst oss hulið vera, það hold og blóð ei opinberar.

9. O! mín sála holds í hreisi, hrind þú kvíða þaunkum úr, Jesú hjálpar hønd þig reisir, hann

þinn skjøldur er og múr, þó að Satan sæki að þér, sínum broddi firrtur er, Guð fyrir Jesúm gjæðsku sætur, glæpi og syndir nú forlætur.

10. Ef þú þorir ei andvarpandi, inn fyrir Guð í fullri von, þeinktú Jesús þér unnandi, þinn er bróðir og Guðs Son, trygdafasta hjartað hans, á hørmum þínum gjørir skans, huggun veitir, hjálpar, stiður, hér að auki fyrir þér bidur.

11. Nær mitt hjarta fárt ásaka, Satan vill og hørmum slá, eg skal víkja ei til baka, øllu heldur minnast þá: á jørðu niður Jesús sté, jafnan soo að meðtaki, særdra hróp við sorga-kifið, og syndararnir hefðu lífið.

12. Ydrunar mér unn þú tára, ó minn Guð! svo líki þér, einninn Jesú kjærleik klára, kénn þú rétt að þekkja hér, holds skinsemi helst er myrk, þinn helgi Andi veiti styrk, þá hjartað mitt er haldið trega, að hrópa á Jesúm réttilega.

13. Þín mér náðin þar til bendi, það eg Jesum álíti, líka að hans vøggu vendi, vafinn reifum þar hann sé, um heimsins skraut ei hyrdti par, í hørdum stalli fæddur var, sanna auðmýkt sóma-skjæra, svo eg mætti, af honum læra.

14. Andi Guðs mitt hneigi hjarta, og helgi það til dýrðar sér, svo Jesús lífsins ljósið bjarta, lifa mætti og búa í mér, við hvørt eitt spor í harma-

dal, til himinsins sem gánga skal, unn þú mér þó eymdin þjái, eg í trúnni Jesúm sjái.

15. Við minn trúar stólpa sterka, standa mun eg glaður þá, kraptur Satans kann ei verka, kippa mér þar burtu frá; um minn Jesúm, lýkn sem lér, í lífi og dauða held eg mér, svo eg verði sviptur trega, sáluhólpinn eilíflega, Amen!

Fimmtíu

# Passíu Sálmar,

kvednir

af

Hallgrími Péturssyni,

Sóknar-presti til Saurbæar á Hvalfjardarstrønd,

frá 1651 til 1674.

---

# 1. Sálmur.

## Um Krists útgaungu í Grasgardinn.

Med Himna = Lag:

Upp, upp, mín sál! og allt mitt géd, upp mitt hjarta og rómur med, hugur og túnga hjálpi til, Herrans pínu eg minnast vil.

2. Sáncti Páll skipar skyldu þá: ad skulum vér allir jördu á, kunngjöra þá kvøl og dapran deyd, sem Drottinn fyrir oss auma leid.

3. Ljúfann Jesúm til lausnar mér, lángadi þó ad deya hér; mig skyldi' og lysta' ad minnast þess, mínum Drottni til þakklætes.

4. Innra mig lokfins ángrid skér, æ hvad er lítil rækt í mér; Jesús er kvalinn í minn stad, offjaldan hef' eg minnst á þad.

5. Sál mín! skodum þá sætu fórn, sem hefir oss vid Gud Drottinn vorn, fordæmda aptur forlíkad, føgnudur er ad hugsa' um þad.

6. Hvad stillir betur hjartans bøl, enn heiløg Drottins pína' og kvøl? hvad heptir framar hneixli' og synd, enn Herrans Jesú blódug mind?

7. Hvar fær þú betur, sál mín! sjed, sánna

Guds hjartans ástar = geð, sem Fadir gæðskunnar fékk til þín, framar enn hér í Jesú pín?

8. O Jesú! gef þinn Anda mér, allt svo verdi til dýrdar þér, uppteiknad, súngid, sagt og tjed, sídan þess adrir njóti med.

## Textinn.

9. *Ad lidinni máltíd loffaunginn, las sínum Fødur, Jesús minn, sídasta kvøldid, seint þad var, súngu med hans Lærisveinar.*

10. Guds Sonur sá, sem sannleiks rád, sjálfur átti á himni' og lád, þádi sitt braud med þakkargjørd, þegar hann umgékkst hér á jørd.

11. Þurfamadur ert þú, mín sál! þiggur af Drottni sérhvert mál, fædu þína og fóstrid allt, fyrir þad honum þakka skalt.

12. Illum þræl' er þad eilíf smán, ef hann svo þiggur Herrans lán, drambsamlega og dreysbar sig; Drottinn geymi frá slíku mig!

13. *Eptir þann saung, en ekki fyrr, útgékk Jesús um húsins dyr, ad hans sidvenju er þad skéd, til Olíu = fjallsins gánga réd.*

14. Lausnarans venju lær og haldt, lofa þinn Gud og dýrka skalt, bænarlaus aldrei byrjud sé, burtfør af þínu heimile.

15. *Yfirum Kédrons breidann bekk, blessadur þá med sveinum gékk.* Sá lækur nafn af sorta ber; sýnir þad gódann lærdóm mér.

16. Yfir hørmúngar er mín leid, æ medan varir lífsins skeid; undan gékk Jesús, eptir eg, á þann ad feta rauna = veg.

17. Horsi eg nú í huga mér, Herra minn Jesú! eptir þér; dásamleg eru dæmin þín, dreg eg þau gjarnan heim til mín.

18. Þú vildir ekki upphlaup hart, yrdi þegar þú fánginn varst; út í grasgardinn gékkstú því, gafst þig í manna hendur frí.

19. Af því læri eg ad elska ei frekt, egid gagn mitt, svo fridur og spekt, þess vegna raskist, þér er kjært, þolinmædi og géd hógvært.

20. Sorgandi gékkstú sagda leid, særdi þinn huga kvøl og neyd; hlæendi glæpa hljóp eg stig, hefir þú kvittad fyrir mig.

21. Vort líf er grasgards = gánga rétt, grøfin er øllum fyrirsett. Syndugra leid ei leik þér ad, lendir hún víst í kvala = stad.

22. Ydrunar = tárin ættu vor, øll hér ad væta lífsins spor, gégnum daudann med gledi' og lyst, gaungum vér þá í himna = vist.

23. Þá Jesús nú á veginum var, vid Postulana' hann ræddi þar: henda mundi þá hrøsun fljót, hardlega Pétur þrætti á mót.

24. Frelsarinn Jesús fyrirsjer, þá fall og hrøsun er búin mér, hann veit og líka lækníng þá, sem leysa kann mig sorgum frá.

25. Aldrei, kvad Pétur: ælta eg, á þér hneixlast á nokkurn veg, þó allir frá þér falli nú: fullkomin var hans lofan sú.

26. Sú von er bædi vølt og myrk, ad voga freklega á holdsíns styrk, án Guds nádar er allt vort traust, óstødugt, veikt og hjálparlaust.

27. Géf mér, Jesú! ad gá ad því, glaskéri ber eg minn fjesjód í, vidvørun þína vyrdi' eg mest, veikleika holdsíns sjer þú best.

## 2. Sálmur.

### Um Kristi kvøl í Grasgardinum.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Jesús gékk inn í grasgard þann, Gethsemane var nefndur hann. Af olíu þrúgum þad auknafn bar, olíu-tréd rétta Herrann var, oleum hjálp-rædis allra fyrst, af hans lífi þar pressadist.

2. Í aldingardi fyrst Adam braut, aptur Jesús þad bæta hlaut, aldingards eikin ávøxt gaf, eymd, synd og daudi kom þar af; í aldingardi ljúft lífsíns tréd, lífgunar frjófgun veita réd.

3. Júdas þekkti vel þenna stad, þar hafdi' hann lengi umhugsad, helst mundi pláts þad hent-ugast, Herrann mætti þar forrádast, svo fæstir hefdu' ad segja' af því, svik hans lægju svo hylm-ing í.

4. Satan hefir og sama lag, situr hann um

mig nótt og dag, hyggjandi' ad gløggt hvar hæg-ast er, í hættu og synd ad koma mér; en þó í þeim stad allra mest, sem á eg Gudi' ad þjóna best.

5. Heims børnin hafa lyst þá lært, lygd og svik-rædi er þeim kjært, fótsporum djøfuls fylgjande, falsrádin draga þó í hlé. Frá hans og þeirra hrekkja-stig, Herra Jesú! bevara mig!

6. Opt hafdi Jesús í þann stad, ádur gengid, því veit eg þad, hefir sannlega Herrann minn, hugsad um pínu' og dauda sinn, fulltíngis bedid fødurinn þar, svo fengi hann stadist píslirnar.

7. Jurtagardur er Herrans hér, helgra Guds barna legstader, þegar þú gengur um þennann reit, þín sé til reidu bænin heit, andláts þíns gæt og einnig þá, upprisu daginn minnstú á.

8. Lærisveinana Lausnarinn kjær, lét suma bída nokkud fjær, þrjá tók þó med sér hjarta hreinn, hann girntist ekki' ad vera einn; sála mín! þar um þenkja skalt, þér til lærdóms þad skédi allt.

9. Guds kristni er grasgardur hreinn, Guds Sonar ertú lærisveinn; sit þú hvar sem hann segir þér, sønn hlýdni besta offur er, til krossins ef hann þig kallar þar, kom þú gladvær án møglunar.

10. Freistíng þúng ef þig fellur á, fordastú einn ad vera þá, gudhræddra selskap girnstú mest, géfa þeir jafnan rádin best; huggun er manni mønnum ad, miskun Guds hefir svo tilskikkad.

11. Hjartanlega varð harm-þrúnginn, Herrann Jesús í þetta sinn, hoidið skalf við það feikna fár, flutu í vatni augun klár, sagði grátandi: sál mín er, svo allt í dauðann hrigg í mér.

12. Hartnær stein-snari frá þeim fór, féll strax til jarðar Drottinn vor, flatur sitt blessað andlit á; ógnarleg kvøl hann mæddi þá; hjartað bardist í brjósti heitt, bæði var líf og sálin þreytt.

13. Samvitskan mig nú sjálfann slær, sje eg það gjørla, Jesú kjær! mín synd, mín synd, hún þjáði þig, þetta allt leidstu fyrir mig, aví! hvað hef' eg aumur þræll, aukið þér mæðu Drottinn sæll!

14. Mér virdist svo sem mín misgjørð, sé meiri að þýngd, enn himin og jørð, því Jesús það Fødursins orðið er, sem allt með sínum krapti ber, flatur hlaut þó að falla þar, þá fyrir mig bar hann syndirnar.

15. Hjartans gleði og huggun traust, hér géfst þér, sál mín, efalaust, það gjald fyrir mína misgjørð, er meira verdt enn himin og jørð, hans sorg, skjálfti og hjartans pín, hjá Guði er eilíf kvittan mín.

16. Fram þegar Jesús fallinn var, fegurstu bæn hann gjørði þar: abba, Faðir! ástkjæri minn, af mér tak þennann kaleikinn, þó svo sem helst þú sjálfur vilt, sagði Jesús, með géðið stilt.

17. Urræðin best er auðmjúkt géð, ángrað hjarta og bænin með, hvenær sem kémur hørmúng að,

hugsa þú, sál mín! vel um það, óþolinmæði' og møglan þver, meiri refsíngar ablar sér.

18. Obljúgur skaltú aldrei neitt, útheimta hvað þú girnist veitt, til holdsins muna hentugt þér, hugsa jafnan: að Drottinn sjer, hvað lífi og sál til lids er nú, lángtum betur enn sjálfur þú.

19. Eins líkaminn og sálin sé, sann-auðmjúkleg í bæninne, álítur Drottinn innra hitt, ei að síður skal holdið þitt, fyrir Gud með blygðun gánga fram, gjørdi svo forðum Abraham.

20. Jesú! þín grátleg gras-garðs pín, gleður ørþjáða sálu mín, þitt hjartans ángur hjartað mitt, frá hrigð og mæðu gjørði kvitt; því skal míns hjartans hjarta-þel, heiðra þig, minn Immanúel.

## 3. Sálmur.

### Um Herrans Kristí dauða-stríð.

Með sama lag.

Enn vil eg, sál mín! uppá ný, upphaf taka á máli því: uppstóð Jesús, þó þreyttur sé, þrisvarsinnum frá bæninne, lærisveinarnir sváfu fast, Sáncti Pétur því ávítast.

2. Til og frá gékk hann þrisvar þó, þar fékkst ei minnsta hvíld né ró; undansæri því ekkért fann, allstaðar Drottins reiði brann, gégnum hold, æðar, blóð og bein, blossi guðlegrar heiptar skein.

3. Himna-ljósið var honum byrgt, helst því af nótt var orðið myrkt, ástvina huggun enga fann;

allir sváfu um tíma þann; jörðin var honum óhæg eins; enginn fékkst bót til þessa meins.

4. Í þessum spegli það sje eg: þeim sem Drottinn er reiður mjög, hverki verður til huggunar, himin, ljós, jörð né skepnurnar, án Guðs náðar er allt um kríng, eymd, mæða, kvöl og fordæmíng.

5. Framar sjest hér hvað fárleg sé, fordæmdra kvöl í helvíte; frá einni plágu til annarar, í ytstu myrkrum þeir rása þar; ó! hvað! syndin afskapleg er, allt þetta færir hún með sér.

6. Í þriðja máta' af þessu sjest, það lærðu sál mín! allra best, Guðs reiði-eld og eilíft fár, útslökktu' og lægðu Herrans tár, allt honum því til ama var, svo allt verði þér til huggunar.

7. Hrigðar sporin þín, Herra minn! í himnaríki mig leiða inn: í nætur myrkrum lá neyð á þér, náðar- og dýrðar-ljós gafst mér; vinir þér enga veittu stoð, svo vinskap feng' eg við sannann Guð.

8. Þar kom loksins á þeirri tíð, þreytti Jesús við dauðann stríð. Andlát mitt bæði' og banasétt, blessaðist mér þá sömu nótt; dauðinn tapaði, Drottinn vann, dýrðlegann sigur gaf mér hann.

9. Agékk svo dauðans ablið ríkt, ekkért dæmi má finna slíkt: allur líkami Lausnarans, laugaðist þá í blóði hans, sá dreyra-sveitinn dundi á jörð, Drottins pína því mjög var hörð.

10. Í Adams broti var blótskuld gjörð, bölvun

leiddi það yfir jørð; Jesú blóð hér til jarðar hné, jørðin aptur svo blessuð sé, ávøxtur, gróði' og aldin klár, oss verði að notum sérhvert ár.

11. Sárkalda dauðans sveita-bað, um síðir þá mér kémur að; sárheiti dreyra sveiti þinn, sefi og mýki, Jesú minn! ángistar sveita eilíft bál, aldrei lát snerta mína sál.

12. Mér er svo kvøl þín minnileg, á morgni hverjum þá uppstend eg, fyrst eg stíg niður fæti' á jørð, færi' eg þér hjartans þakkargjørð, blóð-sveitinn þinn eg bið mér sé, blessan og vernd á jørðunne.

13. Hørmúng þá særir huga minn, hef eg mig strax í grasgarð þinn, dropana tíni' eg dreyra þíns, Drottinn! í sjóðinn hjarta míns, það gjald alleina gyldir mest, hjá Guði fyrir mín afbrot verst.

14. Upphaf alls mesta óføgnuðs, ákløgun straung og reiði Guðs, bætt er, friðstillt og forlíkað, Faðirinn lét sér lynda það, Sonurinn bar hans bræði frí, borgadist þræll inn út með því.

15. Þess meir, sem pínan þreyngdi að, því innilegar Jesús bað, heilagur Engill himnum frá, Herra sinn kom að styrkja þá. Enn hefir þú hér einn lærdóm, ydka og lær hann, sál mín fróm!

16. Ef hér verður, sem opt kann ské, undandráttur á hjálpinne, bið, styn, andvarpa æ því meir, sem aukast vilja harmar þeir, føðurlegt hjarta hefir Guð, við hvern, sem líður kross og nauð.

17. Sjá þú, ad Engill sendur var, Syni Guds hér til huggunar, þeir gódu Andar oss eru nær, alla tíma þá bidjum vær, helst þá lífs enda líd-ur ad, Lazarí dæmi sýnir þad.

18. Heidur, lof, dýrd á himni' og jørd, hjart-anleg ástar þakkargjørd, Drottinn Jesú! þér sæt-ust sé, súngin af allri kristninne, fyrir strídid þig þjádi frekt, þad er vort frelsi æfinlegt.

## 4. Sálmur.

Samtal Kristi vid Lærisveinana.

Lagid: Einn Gud Skapari allra sá.

Postula kjøri Kristur þrjá, í kvølinni sér ad vera hjá, baud þeim: vakid og bidjid víst, brád-leg freistni svo grandi síst.

2. Strax sem Jesús um stein-snar nær, sté fram lengra (þess gjætum vær) allir sofnudu sætt med ró, sjálfur Herrann einn vakti þó.

3. Adur var svoddan um þig spád, ásett fram-kom nú Herrans rád, þú hlautst Guds reidiþrúgu einn, þreyttur ad troda, Jesús hreinn!

4. Ef eg skal ekki sofa' í synd, svo er náttúran veik og blind, um steinsnar máttu eitt mér þá, aldrei, minn Jesú! víkja frá.

5. Nætur-hvíldin mín náttúrlig, nóg er mér trygg þá veit eg þig, hjá mér vaka til hjálpræd-es, hvert kvøld vil eg mér óska þess.

6. Þrisvar Jesús til þeirra fór, þó að hann mæddi pína stór; hann bað Pétur með hriggri lund, hjá sér vaka um eina stund.

7. En hann sofnaði æ því meir, ei heldur vissu sjálfir þeir, hverju svørudu honum þá. Herrans pínu mjøg jók það á.

8. Mig hefir ljúfur Lausnarinn, leidt inn í náðar grasgarð sinn, vakandi svo eg væri hér, vitni skírnin mín um það ber.

9. Ungdóms bernskan, sem vonlegt var, vildi mig ofmjøg svæfa þar; foreldra hirtíng hógværlig, hans vegna kom og vakti mig.

10. Aldurinn þá mér øldaðist, áfell gjálífis svefninn mest; Kénnimenn Drottins komu þrátt, køllodu mig að vakna brátt.

11. Fullvaxin gleymsku svefninn sár, sókti mig heim og varð mjøg dár, dymman heims elsku dróst að með, dapurt varð mitt til bænar géð.

12. Þá kom Guðs Anda hræríng hrein, í hjarta mitt inn sá ljóminn skein, en í heimskunni svo eg svaf, sjaldan mig neitt að slíku gaf.

13. Fárlega var mín fíblskan blind, forlát mér, Jesú! þessa synd, hvar með að jók eg hørmúng þér, en hefnd og refsíng sjálfum mér.

14. Láttú þó aldrei leiðast þér, ljúfi Jesú! að benda mér, hugsi til mín þitt hjarta mildt, hirtú mig líka sem þú vilt.

15. Vil eg nú hjartans feginn fá, Frelsari minn! ad vaka þér hjá, andinn til reidu er í stad, ofmjøg holdid forhindrar þad.

16. Jesús unnti med ljúfri lund, Lærisveinum ad hvíla' um stund; því hann vorkénnti þeim og mér, þad eitt mín blessud huggan er.

17. Sídast allra þá sá hann þar, svikara lid fyrir hendi var, baud þeim: vakid og bidjid best, burt er nú værdar tídin mest.

18. Svoddan áminníng, sála mín! sannlega skyldi ná til þín, svo þig ei skadi svefninn vær, svikarinn er þér ekki fjær.

19. Daudinn forrædur fjørid þó, fyrr enn vardi því margur dó; hann er í nánd þó sjáist síst, sérhvern dag er hans áhlaup víst.

20. Daudinn þá mætir dapur þér, dóminn hefir hann eptir sér, andskotinn bídur búinn þar, í bálid vill draga sálirnar.

21. Sjá þú vel til, ad svoddan hér, sofandi komi ekki' ad þér, í hreinni ydrun þú hvern dag vak, herskrúda Drottins á þig tak.

22. Bænin má aldrei bresta þig, búin er freistíng ýmislig, þá líf og sál er lúid og þjád, lykill er hún ad Drottins nád.

23. Andvana lík til einkis neytt, er ad sjón, heyrn og máli sneydt; svo er án bænar sálin snaud, sjónlaus, køld, dauf og rétt steindaud.

24. Vaktú, minn Jesú! vaktu' í mér, vaka láttú mig eins í þér, sálin vaki þá sofnar líf, sé hún ætíð í þinni hlíf.

## 5. Sálmur.

Um Gydínganna komu í grasgardinn.'

Lagið: Heidrum vér Gud af hug' og sál.

Medan Jesús þad mæla var, mannfjøldi kom í gardinn þar, Júdas, (sá Herra sinn forréd), sveinar Prestanna' og stridsfólk med, skridbyttur báru, blis og sverd, búnir mjøg út í þessa ferd, um þad eg framar þenkja verd.

2. Verdur þad opt, þá varir minnst, voveifleg hætta búin finnst, ein nótt er ei til enda trygg, ad því á kvøldin, sál mín! hygg, hvad helst sem kann ad koma' uppá, kjós Jesúm þér ad vera hjá, skélfíng engin þig skadar þá.

3. En Júdas hafdi ádur sagt, audkénni þeim og svo vid lagt: hvørn eg kyssi, handtakid þann, høndlid med gjætni og bindid hann. Varastú, sál mín! svik og prett, þó sýnast megi' í hylming sett, Drottinn augljóst þad dæmir rétt.

4. En Jesús ádur allt fornam, hvad átti vid hann ad koma fram, þó gékk hann sjálfur þeim á mót, þannig ræddi med kjærleiks hót: ad hversum leitid híngad þér? hópur íllmennis þannig tér: Jesúm nadverska nefnum vér.

5. Jeg er hann! sagdi Jesús þá, Júdas

sjálfur stóð flokknum hjá; öblugt var Drottins orðið það, allir til jarðar féllu' í stað. Hvað hans óvini hrelldi mest, huggar nú mínu sálu best, í allri neyð það auglýsest.

6. Þá eg fell eður hrasa hér, hærstur Drottinn vill reiðast mér, þá segir Jesús: eg em hann, sem endurleysti þann syndarann, með mínu blóði og beiskri pín, bræði, Faðir kjær! stilltú þín, eflaust er það afsökun mín.

7. Djöfull, synd og samvitska íll, sálu mína þá kvelja vill, eins segir Jesús: eg er hann, sem afmá þína misgjörð vann, líka sem vindur léttfær ský, lángt feykir' burt og sjást ei því; á mig trú þú, svo ertú frí.

8. Þegar mig særir sótt eða kvöl, sorgleg fátækt og heimsins böl, jeg veit þú segir: jeg er hann, Jesús, sem lækna vill og kann, auðlegð á himnum áttú víst, eymd þín og hrygð í gleði snýst, heiminn sigraði' eg, hræðstú síst.

9. Á dauðastund og dómsins tíð, Drottinn! það skal mín huggun blíð, orð þitt er sama: eg er hann, sem inn þig leiði' í himna-rann, þjón minn skal vera þar eg er, því hefir þú, Jesús! lofað mér, glaður eg þá í friði fer.

10. Jeg segi' á móti: jeg er hann, Jesú! sem þér af hjarta ann, orð þitt lát vera eins við mig, elska eg, seigðú, líka þig, eilíft það samtal

okkar sé, uppbyrjad hér á jørdunne, Amen! eg bid: svo skuli ské!

## 6. Sálmur.

Um Júda koss, og Kristi fángelsi.

Lagid: Einn Herra eg best ætti.

Frelsarinn hvergi flýdi, fjandmenn þá láu senn, Herrann beid þeirra hinn þýdi, þeim leysdi' á fætur enn, hvern helst þeir hugsi' ad finna, hann spyr (sem ljóst eg gét) jafnt sem fyrr, Júdar inna: Jesúm af Nazareth.

2. Eg em hann, aptur sagdi, annad sinn Jesús hátt. Lærisveinunum lagdi, líknarord þetta brádt: ef mín ydur lystir leita, þá látid þessa frí. Búinn var hann ad heita, hjálprædis ordi því.

3. Hér af má heyra' og skilja, Herrans vors Jesú makt, ekki gat án hans vilja, á hann neinn hendur lagt. Vid mig þó hatri hreisi, heiptarmenn íllgjarner; einginn kann utan hann leysi, eitt skérda hár á mér.

4. Fødurnum hjarta hlýdinn, hann gafst á þeirra vald, sál mín! því sért ókvídin, sjá þitt óhlýdnis gjald, viljugur vild' hann bæta, víst er þín skylda' audsjen, ást og audsveipni mæta, áttú ad leggja ígén.

5. Júdas kom fljótt sem kunni, kyssandi Jesúm nú, mælti fláráđum munni: Meistari! sæll vert þú! Herrann hógværdar ríkur, hann sagdi:

þú, minn vin! með kossi Son Mannsins svíkur! Síst mun því hefndin lin.

6. Svo munn eplið eina, aumlega gjörði' um sinn, fals-koss því fékk að reyna, Frelsari! munnur þinn; blíðmælum Djöfuls bægðu, svo blekkist eg ekki af þeim, heims hrekki líka lægðu, líf mitt og æru geym.

7. Andsjen eru' augum þínum, öll vél og launsvik hér, hritt þeim úr huga mínum, hreint skapa géð i mér, virðstú mig vin þinn kalla, verða lát raun þar á, holds brest og hræsni alla, hindra og reð mér frá.

8. Í hættu' og háska mikinn, hefir mig Satan leidt; ó! hvað opt eg verð svikinn! ei gét eg hjá því sneydt, Son Mannsins svikum mætti, sannlega uppá það, svikanna háskinn hætti, hjá mér ei finni stað.

9. Munnur þinn (að eg meina), minnist við Jesúm bert, þá hold og blóð hans hreina, hér fær þú, sál mín! snert. Í Guðs nafni að þér gáðú, géf honum ei koss með vél; í trú og ydrun þig tjáðu, tilbú þitt hjarta vel.

10. Þángað þegar að stundu, þusti illrædis lið, ljúfasta lamb Guðs bundu; lokið var öllum frið, harðsnúnum reipum reirðu, ránglætis míns hann galdt, Drottinn í dróma keirðu, dofnaði holdið allt.

11. Júdar þig, Jesú! strengdu, eg gaf þar efni til, syndir mínar þér þreyngdu, þess nú eg ydrast vil, glæpa-bønd af mér greidir, og géf mér frelsi þitt, andlegum dofa eydir, sem áféll hjartad mitt.

12. Guds Son var gripinn høndum, gétum svo ydi' eg frí, hann reirdist hordum bøndum, hlaut eg miskun af því, fjotur þúng og fángélsi, frekt lá, minn Herra! á þér, daudans og djøfuls helsi, duttu því laus af mér.

13. Bid eg þín bøndin hordu, bindi nú hvern minn lid, frá alls-kins glæpa gjørdum, og gøðsum heimsins síd, laus og lidugur andi, iífs medan dvelst eg hér, þér sé jafnan þjónandi; þessa bón veittú mér.

## 7. Sálmur.

**Um vørn Sancti Péturs, og Malchusar eyrasár.**

Lagid: Gjædsku Guds vér prísum.

Lausnarans lærisveinar, þá litu atburd þann, og Júda athafnir einar, allir senn spurdu hann: egum vér ekki' ad slá, óvina sveit med sverdi? svo hér ei þýngra verdi. Sál mín! hér gjør ad gá.

2. Ef þú áforma vildir, eitthvad, sem vardi er á, þarfleg ráð ígyggja skyldir, og þig vel fyrir sjá, af því optlega skér, sá, sem eí einn í rádum, einn mætir skada brádum, seint fá ad ydrast er.

3. En með því mannleg vitska, í mørgu náir skamt, á allt kann ekki' að gitska, sem er þó vanda=samt; kost þann hinn besta kjós; Guðs orð fær sýnt og sannað, hvað sé þér leyft eða bannað, það skal þitt leiðar ljós.

4. Pétur með svellu sinni, sverð úr slíðrum dró, hans trúi' eg bræðin brinni, og beint í flokkinn sló, Malchus hlaut hér af tjón, hann misti hið hægra eyra, høggið tók ekki meira, þessi var Biskups þjón.

5. Lausnarinn ljóst nam svara, lærisveinunum fyrst: látið þessa framfara, frekast að sinni lyst, Pétri svo sagði nú: sverðs dauða sá skal sekur, sem sverð án leyfis tekur, sverð slíðra, Símon þú!

6. Meinar þú Faðirinn mildi, mundi ei senda hér, ef eg þess óska vildi, Engla til fylgdar mér, fleiri enn tólf fylkingar? eða mun skildt eg ekki, áskenktann kaleik drekki, sem mér þó settur var?

7. Svo mun uppfyllast ega, hvað er í Ritn=íng tjáð, og síðan sannast mega, hvað sjest fyrir laungu spáð. Svo eptir sermon þann: eyra þjóns=ins áhrærði, sem áður Pétur særði, læknaði' að heilu hann.

8. Sál mín! lærum og sjáum, með sannri hjartans lyst, tvennslags sverðs gløggt við gáum, greina skal þar um fyrst; sverð Drottins Dómar=

inn ber, sverð egin hefndar annað, sem øllum verður bannað; það kénnir Kristur hér.

9. Bið eg: hér gløggt adgjætir, góð Valdstjórn heiðurlig! saklausann síst þú grætir, né sjálfa meiðir þig, við sverð Guðs vandlætis, blóð skaltú því ei banna, burtsníð þú grein lastanna; merk dæmi Móisis!

10. Þitt sverð, sem þitt er egið, fyrir þína egin søk, skal ei úr skeiðum dregið, skír eru þar til røk, Jesús það bannar bert, honum er skyldt þú hlýðir, hógvær umberir, líðir, það móti þér er gért.

11. Ræn ei Guð sínum rétti, því reiknast hefndin hans, Valdstjórn til verndar setti, víða um bygðir lands, ellegar að því gá: sverð Drottins, sem hér nefnist, sannlega á þér hefnist, tjón þitt tvøfaldast þá.

12. Malkus, sem misti eyra, merkir þá alla frí, sem orð Guðs ekki heyra, ega þó kost á því, heyrn er þeim hægri sljó, vinstri hlust heilli halda, háð og spélni margfalda, nóg géta numið þó.

13. Skálka-mark mátti kalla, Malkus hér fengi rétt; á Guðs óvini alla, einkénni slíkt er sett, orð hans ei akta hér; eg bið og jafnan segi: Jesú minn! láttu eigi, það merki sjást á mér!

14. Enn finnur þú hér framar, Frelsarans dæmi best: hørmúngar hættusamar, á honum láu mest,

sitt traust þó setti hann, á Guds Födurs gjædsku ríka, gjør þú þad sál mín líka, nær kross þig henda skal.

15. Kvöl sína Jesús kallar: kaleik áskeinktann sér. Kross þinn og eymdir allar, eins máttu nefna hér; því Drottinn drakk þér til, fyrir þig þá hann píndist, svo þú, mín sál! ei tíndist, gjør honum gjarnan sál.

16. Þú mátt þig þar vid hugga, hann þekkir veikleik manns, um þarftu ekki' ad ugga, ádrykkju skamtinn hans, vel þín vankvædi sjer; hid súrasta drakk hann sjálfur, sætari' og minni enn hálfur, skérfur er skenktur þér.

17. Heipt mína' og hefndarsemi, herr, þú Jesú bætt, mér gafst manngjædsku dæmi, þá Malkum fékkstu grædt; eg þarf og einnig vid, eyrad mitt lækuad irdi, svo ord þitt heyri og virdi. Þýdlega þess eg bid!

18. Hjálpa mér Herra sæli! ad halda krossbikar minn, svo mig ei undan mæli, né mögli' um vilja þinn. Eg bid almætti þitt, vorkénni minni veiki, ef verda kann eg skeiki, hrestú þá hjartad mitt!

## 8. Sálmur.

### Prédikun Kristí fyrir Gydíngum.

Lagid: Sá frjáls vid lögmál fæddur er.

Taladi Jesús tíma þann, til vid óvini sína, sem

kómnir vóru að høndla hann: heyrum þá kénníng fína.

2. Sem til illvirkja eruð þér, útgengnir mig að fánga; áður gat enginn meinað mér, í musterinu' að gánga.

3. Daglega hefi' eg sýnt og sagt, sannleiksins kénníng mæta; engin gat hendur á mig lagt; ættuð nú þess að gjæta.

4. Yfir stendur nú yðar tíð, uppfyllt svo ritníng verði, mirkranna geysar maktin stríð. Mæla svo Jesús gérði.

5. Ljúflyndi blessað Lausnarans, líttú hér, sál mín kjæra! sá vill ei dauða syndugs manns, svoddan mátt ú nú læra.

6. Jesús þeim sýndi' í sannri raun, sálar-heill, náð og frelsi, Guðs Syni Júdar guldu' í laun, grimd, hatur og fángelsi.

7. Furða því, sál mín! engin er, ei skalt því dæmi týna, þó veröldin launi vondu þér, velgjörð mjög litla þína.

8. Gyðínga dæmi skynja skalt, skil þig við ódygð slíka, pakklæti fyrir góðgjörð gjaldt, Guði og mønnum líka.

9. Eg læt mér þessu jafnframt sagt, Jesú! af orðum þínum, engin gat hendur á þig lagt, að eginn vilja sínum.

10. Þann tafmarkaða tímans púnkt, tilsetti

Fadirinn mildi, nær þad ánaudar okid þúngt, yfir þig gánga skyldi.

11. Eins upphaf líka' og endíng med, allrar hørmúngar minnar, Fadir himneski'! er fyrirsjed, í forsjón miskunar þinnar.

12. Þessi nú tíminn ydar er, óvinum Jesús sagdi; Herrans eg þetta máltak mér, í minni og hjarta lagdi.

13. Nú stendur yfir nádar-tíd, naudsyn er þess eg gjætti, lídur mig Drottins bidlund blíd, brot mín svo kvittast mætti.

14. Ef eg þá tíd, sem Gud mér gaf, gálaus forsóma nædi, Drottins tími þá tekur af, tvímæl-in øll í brædi.

15. Því lengur, sem hans bidlund blíd, bedid forgéfins hefur, þess hardari mun heiptin stríd, hefndar þá Drottinn krefur.

16. Guds vegna ad þér gjæt, mín sál! glæp-um ei lengur safna, gjørum ydrun, því meir enn mál, mun vera synd ad hafna.

17. Í dag vid skulum skipta um skjótt, skal synd á flótta rekin; hverr veit nema sé nú í nótt, nádin í burtu tekin?

18. Talar Jesús um mirkra makt, merkid þad Valdstjórnendur! ydur skal nú í eyra sagt: um-dæmid heims tæpt stendur.

19. Ljósid mirkrin burt leidir frí, med ljóma

birtu sinnar, varast' ad skýla skálkum því, í skugga maktar þinnar.

20. Minnstú ad mirkra maktin þver, þá mirkur daudans skalt kanna, í ytstu mirkrum enginn sjer, adgreiníng høfdíngjanna.

21. Mirkri léttari' er maktin þín, minnst þess fyrir þinn dauda, þá Drottins hátignar dýrdin skín, hún dæmir eins ríka og snauda.

22. Fyrst makt heims er vid mirkur líkt, mín sál! haldt þér í stilli, varastu þig ad reida ríkt, á ríkis-manna hylli.

23. Drottinn Jesú! þú lífsins ljós, lýstú valdstjórnar-mønnum, svo þeir, sem ráda yfir oss, eblist ad dygdum sønnum.

24. Jesú! þín kalda kvala-stund, kvalatíd af mér svipti, Guds barna gafst mér gledi fund, góð vóru þau umskipti.

25. Mirkranna þreyngdi maktin þér, mig svo leystir úr vanda; kvalanna ytstu mirkur mér, meiga því aldrei granda.

## 9. Sálmur.

Um flótta Lærisveinanna.

Lagid: Jesú Kristi! þig kalla' eg á.

Þá Lærisveinarnir sá þar, sinn Herra gripinn høndum, og hann af fólki verstu var, vægdarlaust reirdur bøndum, allir senn honum flýdu frá, forlétu Drottinn hreinann, í háska einann. Ad svoddan

skulum vid, sál mín! gá, sjáum hér lærdóm hreinann.

2. Án Drottins ráda er ádstod manns, í engu minnsta gyldi, fánýtt reyníst opt fylgid hans, er frekast hjálpa skyldi; hverr einn vill forda sjálfum sér, ef sýnist háski búinn, ad hendi snúinn, far því varlega' ad fallvalt er, frænda og vina trúin.

3. Í sama máta sjer þú hér, sál mín! í speigli einum, ad hrieggilegar sé háttad þér, enn Herrans Lærisvein m, þeir hofdu leyst Lausnarans, lífi ad forda sínu, frá sárri pínu, naudugir mistu návist hans; nú gjæt ad rádi þínu.

4. Hvad opt, Jesú! þér flúdi eg frá, frekt á mót vilja þínum, þá glæpa veginn gékk eg á, girndum fylgjandi mínum? forskuldad hafd' eg fyrir þad, flóttamadur ad heita, til heljar reita, en þú virdtist mér aumum ad, aptur í miskun leita.

5. Einn varstu, Jesú! eptir því, í óvina látinn höndum, einn svo eg væri aldrei í, eymd og freistingum vondum, allir frá létu einann þig, allt svo mig hugga kynni, í mannraun minni. Eg bid: Drottinn! lát ekki mig, einsamann voldu finni.

6. Lærisvein, sál mín! sjádu þann, sem Jesú eptirfylgdi, ránglát úngmenni ræntu hann, rétt nakinn vid þau skildi. Betra og betri flótti betri er, enn brend ... ó... vid se... synd... ávinning lát þig engann hér, í þeirra flokki binda.

7. Burt þaðan Jesúm færði fljótt, flokkur ill-ræðis-manna. Lamb Guðs saklaust, þá leið að nótt, leiddu þeir til kvalanna, miskunarlaus sú með-ferð bráð, mér virðist eptir vonum, í nátt-mirkrunum, þeir hafa bæði hrakt og hrjáð, hrundið og þjáð honum.

8. Í dauðans mirkrum eg dæmdur þræll, drag-ast átti til pínu, en þá tókst, Jesú Son Guðs sæll! saklaus við straffi mínu, þannig tilbjóstú lífsins leið, ljómandi sálu minni, þó líf hér linni, andláts kvalum og kaldri neyð, kvíði' eg því engu sinni.

9. Hrektu því svo og hrjáðu þig, Herra minn! illsku þjóðir, að hér nú bæri' á höndum mig, heilagir englar góðir, mæðusöm urðu mirkrin þér, mæta létu þig hörðu, og hindrun gjörðu, Guðs dýrðar-ljós svo lýsi mér, á lifandi manna jörðu.

10. Kvalaför, Jesú! þessi þín, sem þá gékkstú einusinni, veri kraptur og verndin mín, svo veginn lífsins eg finni! Lát ekki djöful draga mig, í dofinleik holdsins blinda, til sekta' og synda; eg bið af ást og alúð þig: ákéfð hans burt' að hrinda.

## 10. Sálmur.

### Um fyrsta ransak fyrir Caípha.

Lagið: Guðs Son kallar: komið til mín.

Til Hannas húsa Herrann Krist, harðráðir Júðar leiddu fyrst; beisk frá eg bönd hann særi, honum

strax þadan vísad var, vidtekt fékk ei né hvíldir þar, mjøg svo þó mæddur væri.

2. Burtsendi því med beiskri pín, bundinn Caíphæ mági sín, Hannas' vorn Herrann sæta: Høfud-kénnimanns hærstu stétt, hafdi sá þetta árid rétt, Guds løgmáls átti' ad gjæta.

3. Ur himnaríkis hvíldarstad, høfdum vid, sál mín! forskuldad, útrekin víst ad vera, en Jesús tók nú uppá sig, ónádun þessa fyrir þig; lof sé þeim ljúfa Herra!

4. Hjartad bædi og húsid mitt, herbergi veri, Jesú! þitt, hjá mér þygg hvíld hentuga, þótt þú komir med krossinn þinn, kom þú blessadur til mín inn, fagna' eg þér fegins huga.

5. Caíphas hafdi hér um spád, hentugast mundi þetta rád, ad dæi' einn fyrir alla. Embættis mælti andinn þar, af því hjartad ei vissi par, sannleik Guds sinnti valla.

6. Balaams dæmi eins var eitt, andagift slík var honum veitt, spaklega túngan spádi, hann hafd' í sinni hrekkja-rád, hjartad fékk ekki sannleiks gád, því hann fégirndin þjádi.

7. O Jesú! lát þinn anda hér, aldrei víkja í burt frá mér, leid mig veg lífsins orda, sem hjartad bædi' og málid mitt, mikli samhuga nafnid þitt, holds girnd og hræsni forda.

8. Til Caíphas vóru komnir senn, Kénni-valdid

og Stjórnar-menn; Biskupinn þegar að bragdi, leitar andsvars til Lausnarans, um lærisveina og kénning hans; en Jesús aptur sagdi:

9. Opinberlega, en ekki leynt, í musterinu kénnd' eg beint, hvað spyr þú mig um þetta? kunngjøra mega þar um þér, þeir, sem lærdóminn heyrðu' af mér, þá láttú þig leidrétta.

10. Gjæt ad, mín sál! og sjádu þar, Sonur Guds undir ransak var, krafdur þad kvøldid eina; á kvøldi hvørju þú koma skalt, kvøldreikníng vid þig sjálfa haldt, med kvøldoffurs ydrun hreina.

11. Þú, Guds Kénnimann! þenk um þad: þar mun' um sídir grenslast ad, hverninn og hvad hér kénndir; ad lærisveinum mun líka spurt, sem lét þitt gáleysi villast burt; hugsa gløggt hvar vid lendir!

12. Jesús vill, ad þín kénníng klár, krøptug sé, hrein og opinskár, lík hvellum lúdurs hljómi, laun-smjadran øll og hræsnin hál,' hindrar Guds dýrd en villir sál, straffast med straungum dómi.

13. Vangjætslan mín er margvísleg, mildasti Jesú! beidi' eg þig, vægdú veikleika mínum! for-sóman engin fannst hjá þér, fullnadar bót þad tel eg mér, styrk veit þú þjóni þínum.

14. Eins er hér einnig øllum rétt, alvarleg kénn-íng fyrirsett, ord Guds elski og læri: trúin inn-vortis ebli géd, einardleg játníng líka med, ávøxt hid ytra færi.

15. Biskups þjóu einn í brædi þó, blessadann Jesúm púftur sló, svo það Ritníngin segir, hógværlegt andsvar Herrann gaf, honum, sál mín! það lær þú af, um sakleysi þitt ei þegir.

16. Ovart samvitskan Adam sló, íllann kinnroda fékk hann þó, í fyrsta falli sínu: þess vegna Jesús høggid hast, hlaut ad lída og rodna fast, allra fyrst í hans pínu.

17. Drottinn Jesú! eg þakka þér, þetta leidst þú til frelsis mér; eg bid ástsemi þína: samvitsku sløgin svida skjæd, á sálu minni þú mýk og græd, burt-tak þú blygdun mína.

## 11. Sálmur.

### Um afneitun Péturs.

Lagid: Dagur í austri øllu.

Gudspjalls historían gétur, grípinn þá Jesús var, allir senn utan Pétur, yfirgáfu hann þar, og lærisveinn einn annar, álengdar geingu hljódt, Herrans braut hrigdar sanna, harla dymmt var af nótt.

2. Caíphas Kénnimanni, kunnugur lærisveinn, inngeingur ørt med sanni, úti stód Pétur einn, ambátt upplúka beidir, ókénndann Pétur þá, í forsal til lýdsins leidir. Lærdóm hér finna má.

3. Kross-ferli' ad fylgja þínum, fýsir mig, Jesú kjær! vorkénntú veikleik mínum, þó verdi' eg álengdar fjær, þá trú og þol vill þrotna, þreyngir ad neydin vønd, reis þú vid reirinn brotna, og rétt mér þína hønd.

4. Kol=eld, því kaldt var næsta, kveikt hafdi þræla lid, Pétur med sturlun stærsta, stód hjá þeim logann vid, ambátt hann ein sprogsetti, af sér þad heyra lét: mun þessi mann, hún frétti, med Jesú af Nazareth?

5. Hann neitar hradt ad bragdi, hræddur vid ordin bist, þann sig ei þekkja sagdi: þá gól nú haninn fyrst; ætlar sér út ad rýma, önnur þerna hann sá, talar í annann tíma, til þeirra er stódu hjá.

6. Af Nazareth nú er þessi, nýkominn Jesú med, hinnar géd trú' eg þad hressi, hverr madur spytja réd: ert þú einn af hans sveinum? en Pétur neita vann; sagdi med eidi einum: aldrei þekkta eg hann.

7. Þridja sinn þar til lögdu, þjónar Caíphas bert, málfærid sumir sögdu, segir til hverr þú ert: frændi Malchuss' réd mæla: mundi' eg þig ekki sjá, (gét eg síst grun mig tæla) í gardinum Jesú hjá.

8. Pétur med bljúgu bragdi, brádlega sagdi: neil fór sig og sárt vid lagdi, svoddann mann þekkt' hann ei. Glaggt þegar gjördist þetta, gól haninn annad sinn. Síst mátti sorgum létta, sút flaug í brjóstid inn.

9. Sál mín! þér fári forda, freklega voga síst, án leyfis Drottins orda, óstirkt er holdid víst, þykist þú stödug standa, stilla þinn metnad þarft, hverr sér vogar í vanda, von er sá falli snart.

10. Ádur í aldingardi, óhræddur Pétur var,

kallmennsku hugvrinn hardi, hans sig auglýsti þar; audvirð ambátt hann hrelldi, ofmjøg því skélfast vann, frá sannleik sídan feldi, sama þig henda kann.

11. Koleldi kveiktum jafnast, kitlandi veraldar prjál, þrælar syndanna safnast, saman vid loska bál, fullir med fals og villu, fordastú þeirra glis, ætíð er med þeim íllu, einføldum búið slis.

12. Ambátt med ýlgdu bragdi, er þessi verøld leið, mørgum meinsnørur lagdi, mjøg á spottyrdin greið, þýið med þrælum sínum, þjóna Guds lastad fær; styrk mig med mætti þínum, móti henni, Drottinn kjær!

13. Eptir afneitun eina, út vildi Pétur gá, hugdi hann braut sér beina, búna þeim solli frá. Þá kom eitt ødru verra: umkríngdu þrælar hann, afsór sinn sæla Herra, sér og formæla vann.

14. Hægt er hverjum ad stofna, í hættu' og vanda-spil, forvitnis dælskan dofna, dregur þar margann til, ógjæfu, gildran þraunga, greip skjótt þann kunni' ad ná, útkomu von fékk aunga; ad því í tíma gá.

15. Opt má af máli þekkja, manninn, hverr helst hann er, sig mun fyrst sjálfann blekkja, sá med lastmælgi fer, gódur af gédi hreinu, gódordur reinist víst, fullur af íllu einu, íllyrdin sparar síst.

16. Hriggileg hrøsun hendti, heilagann Drottins þjón, syndin mjøg sárt hann spennti, sálar var búið tjón; hvad mun eg máttar-naumur, mega

þá standast vid, vangjætinn, vesæll og aumur, vélum og hrekkja-snid?

17. Í veraldar vondsku solli, velkist eg, Jesú! hér, falli þad opt mér olli, óstødugt holdid er, megnar ei mót' ad standa, mín hreysti náttúrlig, láttú þitt ljós og anda, leida og styrkja mig!

## 12. Sálmur.

Um ydran Péturs.

Lagid: Kom Andi heilagi.

Pétur þar sat í sal, hjá sveinum inni, tvennt hafdi hana-gal, heyrt ad því sinni.

2. Búinn var þrisvar þá, þvert hann ad neita, sér Jesúm sælann frá. Sorg má þad heita.

3. Drottinn vor veik sér vid, (víst um þad gétur), ljúfur med líknar sid, og leit á Pétur.

4. Strax flaug í huga hans, (hvad þó síst vardi), Lausnarans ord og ans, í aldingardi.

5. Blygdadist brádt vid þad, brjóst fullt af trega, gékk út úr greindum stad, og grét beisklega.

6. Sjá þú med sannri trú, sál mín ástkjæra! hvad framar hefir þú, hér af ad læra.

7. Hátt galar haninn hér, í hvers manns gédi, drýgdar þá syndir sjer, sem Pétur skédi.

8. Sárlega samvitskan, sekann áklagar, innvortis aumann mann, ángrar og nagar.

9. Fær hann sig frjálsann síst, þó finnist hreld-

ur, sem fugl við snúníng snýst, þeim snar-
an heldur.

10. Vikja þó vilji hann, frá vondsku hætti,
orka því ekki kann, af eginn mætti.

11. Upp þó sér ætli brátt, aptur að standa,
fellur hann þegar þrátt, í þýngri vanda.

12. Lögmál Guðs hrópar hátt, hanagal annað,
segir og sýnir þrátt, hvað sé þér bannað.

13. Það þvíngar, þrúgar með, það slær og
lemur, sorgandi syndugt géð, særir og kremur.

14. Það verkar sorg og sút, þeim seka manni,
hjálpar þó engum út, úr synda banni.

15. Holdið þar þrjótskast við, og þykir ílla, eykst
á þann synda sið, svik, hræsni' og villa.

16. En Jesú álit skírt, Anda Guðs þýðir, sá
gjörir hægt og hýrt, hjartað um síðir.

17. Lætur hann lögmál bist, lemja og hræða,
eptir það fer hann fyrst, að friða' og græða.

18. Orð Jesú edla sætt, er hans verkfæri, helst
fær það hugann kjætt, þó hreldur væri.

19. Hann géfur hreina trú, hann fallinn reisir,
hann veikann hressir nú, hann bundinn leysir.

20. Ei er í sjálfs vald sett, (sem nokkrir meina),
yfirbót, ydran rétt, og trúin hreina.

21. Hendi þig hrösun bráð, sem helgann Pétur,
undir Guðs áttu náð, hvert ydrast gétur.

22. Heimska er vesta víst, við það að dyljast, þú munir þá þér lítst, við þrautir skiljast.

23. Ef Jesús að þér snýr, með ástar hóti, líttú þá huga hýr, honum á móti.

24. Gráta skalt glæpi sárt, en Guði trúa, elska hans orðið klárt, frá íllu snúa.

25. Dnýt er ydran tæp, að því skalt hyggja, ef þú í gjørdum glæp, girnist að liggja.

26. Pétur þá formerkt fékk, fall-hrøsun slíka, úr synda-salnum gékk, svo gjørdú líka.

27. O Jesú! að mér snú, ásjónu þinni; sjá þú mig særdann nú, á sálu minni.

28. Þegar eg hrasa hér, hvað mjøg opt sannast, bend þú í miskun mér, svo megi' eg viðkannast.

29. Opt lít eg upp til þín, augum grátandi, líttú því ljúft til mín, svo leysist vandi!

## 13. Sálmur.

### Um Caiphas dóm.

Lagið: Jesús Guðs Son eingétinn.

Foríngar Presta fengu, fals-vitni wørg tilsett, fúslega fram að gengu, fullir með svik og prett, samhljóða urðu eigi, uppdiktað margt þó segi, Jesús þá þagði slétt.

2. Lær þú, ef lygum mætir, lífs-reglu, sál mín! hér, með forsi og þjóst ei þrætir! þrálega svo til ber, hógvær þøgn heiptir stillir, heimskordur sannleik spillir, opt fyrir sjálfum sér.

3. Hirdt' aldrei, hvad sem gyldir, ad hætta' á ósatt mál, hvert verja' edur sækja vildir, verdur þad mørgum tál; munnur sá laungum lýgur, frá lukku' og blessun hnígur, hann deydir sína sál.

4. Sannleiks vitni þó segi, sekann mig Gudi hjá, óttast þarf eg nú eigi, afsøkun hef' eg þá: ljúgvotta lýgi megna, leid Jesús minna vegna, kløgun mig keypti frá.

5. Caíphas frétti fyrstur, falsklega Herrann ad: sjálfur hvert sé hann Kristur? og svo enn framar kvad: vid sannann Gud eg þig særi, ef Sonur hans ert' hinn kjæri, seigdú oss satt um þad.

6. Jesús játar ad stundu, jafnframt því svo nam tjá: Son mannsins sjá þeir mundu, sitja þadan í frá, til Kraptarins hægri handar, og hér eptir komanda, skjærasta skýi á.

7. Kénnimann reif sin klædi, kvad: slíkt gudlastan er! adspyr med ógna brædi: um þad hvad haldid þér? allt Rádid undirtekur: er hann víst dauda sekur, svoddan samþykkjum vér.

8. Jesús ei ansa hirdti, ádur þá logid var, Guds Nafn þó gjarnan virdti, gaf því Kaípha svar; lygd heims þó lítid sætir, Lausnarans dæmis gætir, leita Guds lof-dýrdar.

9. Hygg ad og herm hid sanna, hvenær, sem til er reynt, hrædst ei hótanir manna haldt þinni

játníng beint, gæt vel ad geymir þetta, Guds ord og trúna rétta, medkénndú ljóst og leynt.

10. Kaíphas' løgsøgn leida, lært hafa margir enn, hvad sem høfdíngjar beida, hinir alykta senn, vinskap sig villa láta, viljandi raungu játa; fordist þad, frómir menn!

11. Sú er mín huggun sama, sem þín var, Jesú minn! krossinn þá ad vill ama, offókn og hørmúng stinn, hjá þinni hægri hendi, hér þó ad lífid endi, fagnadar nægd eg finn.

12. Þér til gudløstun lagdi, ljúgandi Kénnimann, dauda sekann þig sagdi, sannlega úrskurd þann, átt' eg ad heyra heldur, hardt med réttu sakfeldur, víst eg nóg til þess vann.

13. Andlegt vald einum rómi, úrskurdar daudann þér; Drottinn í náda-dómi, dæmir því lífid mér. Þakka eg elsku þinni, þú keyptir sálu minni, fríun og frelsi hér.

## 14. Sálmur.

### Um Þjónanna spott vid Kristum.

Lagid: Allfagurt ljós oss birtist brátt.

Eptir þann dóm, sem allra fyrst, andlegir dæmdu um Herrann Krist, hafa þeir, því ad þá var nótt, þegar til hvíldar gengid skjótt.

2. Drottinn vor eptir þreyttur þar, þrælum til gætslu fenginn var; gjørdi ad honum gis og dár, gudlausra manna flokkur þrár.

3. Háðúng, spottyrði, hróp og brígl, hverr lét með øðrum gánga' á vígl, hræktu og slóu Herrann þar; hann þó á meðan bundinn var.

4. Sjá þú og skoða, sála mín! saklausa lambsins beiska pín, hugsa vandlega um það allt, af þessu hvað þú læra skalt.

5. Hann, sem að nætur-hvíld og ró, hverri sképnu af miskun bjó, í sinni ógna eymda stærð, engann kost fékk á neinni værð.

6. Hvíldar-nótt marga hef' eg þáð, Herra Jesú! af þinni náð; kvøl þín eymdum mig keypti frá, kannast eg nú við gjæðsku þá.

7. Nær sem eg reyni sorg og sótt, seinast aðkémur dauðans nótt, næturkvala, sem neyddu þig, njóta láttu þá, Jesú! mig.

8. Samvitsku sløg og Satans háð, sefi, Jesú! þín blessuð náð, ofboð dauðans og andláts pín, aftaki' og mýki gjæðskan þín!

9. Margur (og víst það maklegt er) mjøg þessum skálkum formæler, þó finnast nokkrir hér í heim, að hegðun allri líkir þeim.

10. Hvað gjøra þeir, sem hér á jørð, hafa að spotti Drottins orð, lifa í glæpum ljóst til sanns, lasta og forsmá þjóna hans?

11. Sá, sem Guðs náð og sannleikann, sjer, þekkir, veit og skynja kann, kukl og fjølkíngi kynnir sér, Caiphas's þrælum verri er.

12. Soninn Guds ekki þekktu þeir, því syndga hinir lángtum meir, sem kallast vilja kristnir best, Kristium þó lasta allra mest.

13. Hræsnarar þeir, sem hrekki' og synd, hylja þó undir frómleiks mind, líkjast þessum, sem Lausnarann, lømdu blindandi' og spjødu hann.

14. Hverjum, sem spott og hædni' er kjær, hann gengur þessum selskap nær, forsmán guðrækins fátæks manns, fyrirlitning er Skaparans.

15. O! vesæll madur! ad því gá: eptir mun koma tími sá, sama hvad nidur sádir hér, sjálfur án efa upp þú skér.

16. Ef hér á jørd' er hróp og hád, hædni og gudlast nidursád, uppskorid verdur eilíft spé, agg og forsmán í helvíte.

17. Ætla þú ekki, aumur mann! afkomast muni strafflaust hann, sem Soninn hefir hér hædt og spjád, horfi Fadirinn uppá þad.

18. Hvad Jesús nú um nætur-skeid, naudstaddur hér af mønnum leid, ógudlegur um eilífd þá, af íllum djøflum lída má.

19. Okénndum þér, þó aumur sé, aldrei tillegg þú hád né spé, þú veitst ei hvern þú hittir þar, heldur enn þessir Gydíngar.

20. Sjálfann slær mig nú hjartad hardt, hef' eg án efa mikinn part, af svoddan íllsku ástundad, audmjúklega eg medgeng þad.

21. Sád hefi eg nidur synda rót, svívirding mín er mørg og ljót; uppskérutímann óttast eg, ángrast því sálin nærsta mjøg.

22. Herra minn Jesú! hørmúng þín, huggun er bædi' og lækníng mín, sakleysi víst þú sádir hér, sælunnar ávøxt gafstu mér.

23. Blód-dropar þínir, blessad sád, ber þann ávøxt, sem heitir nád, þann sama Gud mér sjálfur gaf, sáluhjálp mín þar sprettur af.

24. Hæddur varstú til heidurs mér, høgg þín og sløg mín lækníng er, aldrei mun djøfull eiga vald, á mig ad leggja synda gjald.

25. En þér til heidurs aptur á mót, ydrast vil eg og gjøra bót, holds vilja gjarnan hepta minn, hjálpi mér, Jesú! kraptur þinn.

## 15. Sálmur.

Um rádstefnu Prestanna yfir Kristó.

Lagid: Krists er koma fyrir høndum.

Mjøg árla uppi vóru, Øldúngar Júda senn, svo til samfundar fóru, fyrstir þó Kénnimenn, í ráðslag létu leidast, (líkar þad øllum vel), hvørnig þeir gjæti greidast, Guds Syni komid í hel.

2. Heimtu med heiptar-lundu, Herrann vorn til sín brádt, orsøk því enga fundu, allir senn mæltu hátt: seig oss, ef ert þú Kristur, einasti Son Guds sá? Grædarinn gjædsku lystur, gaf andsvar þar uppá.

3. Þó ydur eg það segi, ekki samt trúið þér, andsvarið mér og eigi, ef eg spyr nokkurs hér; Mannsins Son sjáið sitja, senn hjá Guds hægri hlid, í skýi mun einninn vitja, aptur med dýrdar sid.

4. Ertú Guds Son, þeir sögdu? svaradi Drottinn: já! djarfir þann dóm álögdu: daudamadur er sá. Uppstódu strax ad stundu, stríd þeim í hjarta brann. Frelsarann fjötrum bundu, færdu Pílató hann.

5. Hér máttú, sál mín! sanna, svo gengur það til víst, ástundun íllvirkjanna, umhyggju vantar síst, árla þeir blundi bregda, binda fast öll sín rád, klóklega hrekkjum hegda, hverr, sem þess fengi gád.

6. En þú, sem átt ad vera, útvalinn Drottins þjón, verk hans og vilja gjöra, og varast þitt sálar-tjón, andvara engann hefir, umhyggjulítill sjest, vid glis heims gálaus sefur. Gud nádi svoddan brest.

7. Margir upp árla rísa, ei géta sofid værl, eptir aud heimsíns hnýsa, holds gagnid er þeim kjært; sálin í brjósti sofnud, sýnist ad mestu daud, til allra dygda dofnud, sem Drottinn helst þó baud.

8. Forsjónar verk-menn vísir, vingardi Drottins í, fyrst þá dags-ljóminn lýsir; ljúft bid eg

gjæti' að því, úm sitt embætti hyggi, árla gjørð bænin sé, ýðjulausir ei liggi, í líkamans gjálífe.

9. Haturs-menn Herrans vaka, hugsandi' að gjøra tjón; eptir því áttu' að taka, ef ertú hans trygða þjón: viljir þú við þeim sporna, og varast þeirra háð, árla dags alla morgna, við orð Guðs haldtú ráð.

10. Þenk nú í þínu hjarta, þar nærst í annann stað, hvarum Herrann réð kvarta, hyggja máttú þar að: orðum hans ekki treystu, íllgjarnir Júðar þeir, úr spurníng engri leystu, æ því vestnuðu meir.

11. Hver trúir nú hardt þó hóti, Herrann syndugum lýð! all-færstir inna' á móti, ýdrunar svørin blíð; hyrtíngar hjálpa ekki, heímur vestnandi fer, blindleikiun trúi' eg oss blekki, búið straff nálægt er.

12. Víst er eg veikur að trúa, veitstú það Jesú! best, frá syndum seinn að snúa, svoddan mig ángrar mest; þó framast það eg megna, þínum orðum eg vil, treysta og gjarnan gegna; géf þú mér náð þar til!

13. Þar nærst að þessu gætir, það er og lærdóms grein: ef þú órétti mætir, afsøkun dugir ei nein, hafðu þá bidlund híra, Herrann mun til þín sjá, lát þolgéðs dæmið dýra, Drottins þig hugga þá.

14. Mér er, sem í eyrum hljómi, úrskurður

Drottins sá, árla á efsta dómi, upp þegar baudir stá, affsökun ei mun stoda, andsvör né spurníngar, sá stendur víst í voda, sem verdur sekur þar.

15. Hér er nú kostur ad heyra, Herrann talandi' í nád, opni Jesús mitt eyra, svo ad því fengi gád; hógvær vors bata bídur, blessadur þessa tíd, annars heims er hann strídur, öllum forherdkum lýd.

16. Árla úrskurdinn lögdu, á þig Gydíngar þó, Jesú! og sekann sögdu, seldu þig Pílató: árla á efsta degi, affsökun gyldir sú, til daud' eg dæmist eigi, Drottinn, þess minnist þú!

17. Árla dags uppvaknadur, ætíd eg minnist þín, Jesú minn! hjálpar = hradur, hugsa þú æ til mín! árla á efsta dómi, affsökun vert þú mér, minnstú þá Frelsarinn frómi, hvad fyrir mig leidstú hér!

## 16. Sálmur.

Um Júdasar ydran.

Lagid: Konúng Davíd, sem kénndi.

Júdas í girndar grádi, af Gydíngunum fyrst, þrjátíu peninga þádi, því sveik hann Herrann Krist; ljóst þegar líta vann, Drottinn var nú til dauda, dæmdur og þúngra nauda, ydradist eptir hann.

2. Greidt í musterid gengur, (greinir svo Ritníng frá), um silfrid sinnti' ei lengur, senn vill þad Prestum fá, sagdi med sárum mód: ó! hvad eg

gjørdi illa. Þá yfir mig kom sú villa, ad sveik eg saklaust blód!

3. Lidsemd Prestarnir løgdu, litla, sem von var ad, hardlyndir houum søgdu: hvad egum vér med þad? Þú mátt einn sjá um þig. Silfrinu á gólfid grýtti, gékk þadan, mjøg sér flýtti, og hengdi sjálfann sig.

4. Rádstefnu Herrar héldu, hættu þar seinast vid, fyrir akur sjálfir seldu, silfrid Leirkéra smid. Adur sagt um þad var, í spádóms søgum sønnum: sá var vegferdar=mønnum, géfinn til greftrunar.

5. Sjá hér, hvad íllann enda, ótrygd og svikin fá; Júdasar líkar lenda, leiksbródur sínum hjá, andskotinn íllsku slár, enn hefir snøru snúna, snøgglega þeim tilbúna, sem fara med fals og dár.

6. Otrú sinn eginn Herra, ætíd um hálsinn sló, enginn fékk af því verra, enn sá meinlausum bjó, forrædi, fals og vél, Júdas því heingíng hendti, hann følskum til sín bendti, eins og Achitóphel.

7. Fégirndin Júdas feldi, fyrst var hans adtekt sú, Guds Son Gydíngum seldi, gleymdi því æru' og trú, svo til um sídir gékk, kastadi keyptum audi, þá kvaldi sorg og daudi, huggun alls enga fékk.

8. Undir=rót allra lasta, ágirndin kollud er, frómleika frá sér kasta, fjárplógsmenn ágjarner, sem freklega elska féd, audi med okri safna, andlegri blessun hafna, en setja sál' í ved.

9. Annadhvert er í vonum, audurinn fagur nú, hafnar þér, ellegar honum, hriggur burtkastar þú, þá daudinn þreyngir ad, ágirndin ótæpt svelgir, af því sálina velgir, í køldum kvala = stad.

10. Falsi og fégirnd rángri, forda þér, sál mín! blíd, svo mætir ei ógn né ángri, þá adfer daudans tíd, vird lítils veraldar plóg, hverr,'sá sér lynda lætur, þad lénar Drottinn mætur, sá hefir alls nægta nóg.

11. Opt Jesús ádur hafdi, áminníng Júdas gjørt, hrekkvísin hjartad vafdi, hann héldt þad einkis verdt, nú kom þar einnig ad, tilsøgn hatadi hreina, huggun fékk því ei neina, varastú víti þad.

12. En hvad framleiddi hann ílla, ádur líferni sitt, þessi þó var hans villa, verri' enn allt annad hitt, ad hann ørvæntíng med, sál og líf sett' í vanda, synd á mót' heiløgum Anda, held eg hér hafi skéd.

13. J Drottni' ef villtú deya, Drottni þá lifdú hér, til ílls lát ei þig teygja, ord Guds sé kjær= ast þér; sæll er sá svo vidbýst; en ef þig ófall hendir, aptur í tíma vendir, undandrag ydrun síst.

14. Brot þín skalt bljúgur játa, en bid þó Gud um nád, af hjarta hriggur gráta, en heilnæm þyggja rád; umfram allt þenktú þó: Son Guds bar þínar syndir, og svo þú miskun finndir, saklaus fyrir sek= ann dó.

15. Drottinn! lát mig ei dyljast, djarflega synd= ir vid, þó hér um stund megi hyljast; Herra trúr! þess

eg bið: nær heimi fer eg frá, ørvænting ei mér grandi, orð þitt og sannleiks Andi, hjarta mitt huggi þá!

## 17. Sálmur.

Um Leir-kéra-smiðs akurinn.

Lagið: Faðir! á himna hæð.

Svo sem fyrr sagt er frá, silfurpeninga þá, hverjir loks Júdas hreldu, Höfuð-prestarnir seldu.

2. Og keyptu einn (til sanns), akur Pottmakar-ans, þar má fullt frelsi hafa, framandi menn að grafa.

3. Þar finnst ein þýðing fín, þess gjættú, sála mín! af Guðs ásettu ráði, um það Zacharías spáði.

4. Líkist Leir-kéra-smið, líknsamur Drottinn við, sem fyrr Esajas sagði, sjálfur það rétt útlagði.

5. Af leir með lífsins krapt, lét hann mannkynið skapt, hrein kér til heiðurs setur, hin ønnur lægra metur.

6. Drottinn einn akur á, er honum falur sá, minnstú, hann miskun heitir, mæddum lýð hugg-un veitir.

7. Jesús einn er sá mann, sem akurinn keypti þann, en hans blóð-dropar blíðir, borgunar-gjaldið þýðir.

8. Framandi fólkið það, sem fékk ei neinn hvíldar-stað, erum vér sorgum setnir, af syndugu' eðli gétnir.

9. Illskunnar eðlið vort, útlenda hefir gjört, oss frá eilífri gleði, í Adams falli það skéði.

10. Sálin í útlegð er, æ meðan dvelst hún hér, í holdsins hreysi naumu, haldin fángelsi aumu.

11. Daudinn med dapri sút, dregur um sídir út, hana þá hreysid brotnar, holdid í jørdu rotnar.

12. Eins og útkastad hræ, (ef eg rétt skynjad fæ), hjálparlaus sál má heita, hvíldar kann sér ei leita.

13. Hættu og hørmúng þá, Herra minn Jesús sá, ønd vora' af ást og mildi, úr útlegd kaupa vildi.

14. Fadirinn falt þad lét, fridar = stad sálum hét, ef Sonurinn gjald þad greiddi, sem Guds réttlætid beiddi.

15. Opnadi sjódinn sinn, Sonur Guds, Jesú minn! húdstrýktur, kvalinn, krýndur, á krossi til dauda píndur.

16. Blód = dropar dundu þar, dýrasta gjald þad var; keyptann akur því egum, óhræddir deya megum.

17. Hér þegar verdur hold, hulid í jardar mold, sálin hrigdarlaust hvílir, henni Guds miskun skýlir.

18. En þú skalt ad því gá: akursins greftrun þá, engir utan þeir fengu, í Jerúsalem gengu.

19. Kristnin Guds hér um heim, heitir Jerúsalem, í hana innkomast hlýtur, hverr, sem miskunar nýtur.

20. Í henni hverr einn sá er, á Jesúm trúir hér, skírdur og alla vega, ydrun gjøra daglega.

21. Okvídinn er eg nú, af því eg hef' þá trú: miskun Guds sálu mína, mun taka í vøktun sína.

22. Hvernig sem holdid fer, hér þegar lísid þver, Jesú! í umsjón þinni, óhætt er sálu minni.

23. Eg lofa, Lausnari! þig, sem leystir úr útlegd mig, hvíld nú eg nádar-spakri, nú í miskunar akri.

24. Þú gafst mér akurinn þinn, þér géf eg aptur minn, ást þína á eg ríka, eigdú mitt hjartad líka.

25. Eg gaf og allann þér, æ medan tóri' eg hér, ávoxtinn ydju minnar, í akri kristni þinnar.

26. Eins bid eg aumur þræll: ad unnir þú, Jesú sæll! lidnum líkama mínum, legstad í akri þínum.

27. Hveiti-korn þekktú þitt, þá upprís holdid mitt, í bindini barna þinna, blessun lát þú mig finna!

## 18. Sálmur.

*Um áklögun Gydínganna fyrir Pílató.*

Lagid: Sælir ern, þeim sjálfur Gud.

Árla, sem gløggt eg greina vann, med Guds Son bundinn fara, Prestarnir, svo ad píndist hann, til Pílatum Landsdómara; í þíng-hús inn, þad sama sinn, sagt er þó enginn kjæmi, svo ekki meir, saurgudust þeir. Sjá hér hræsninnar dæmi.

2. Inngáng um húss-dyr Heidíngjans, héldu þeir synd bannada, en saurgast á blódi saklauss manns, sýndist þeim engann skada. Heims børnum hér, óvirdíng er, aumstøddum hjálp ad veita, Guds ords forakt, ágirnd og prakt, engin misgjørd skal heita.

3. Pílatus, sem þad formerkt fékk, fyrst ei þeim

metnad sætti, án dvalar sjálfur út því gékk, embættis skyldu gætti, sakargift þá, vill fulla fá, framborna' af þeirra munni, dár-yrdin sljót, drambsemi mót, Dómariun finna kunni.

4. Lát þér ei vera afmán ad, ef þú vilt frómur heita, af Pilató ljóst ad læra þad, sem lofslegt er eptir ad breyta, ránglætid hans, þess heidna manns, haldt þér minkun tvøfalda; þeim midur fer, enn honum hér, hverr vill þann kristinn halda?

5. Alitid stórt og hefdar-hátt, hrædast skyldir þú ekki, sannleikans gæta ætíd átt, engin kjassmál þig blekki. Wrugirnd ljót, hofmódug hót, hæfir síst Yfirmønnum, dramblátum þar, þú géf andsvar, þó byggt á røkum sønnum.

6. Oldúngar Júda allra fyrst, uppbáru søk þrefalda: fólkinu þessu frásnýr víst, fyrirbýdur ad gjalda, Keisarans skatt, þad segjum vér satt; sjálfur vill Kóngur heita; og Kristur sá, sem koma á, kvittun og frid ad veita.

7. Hér koma fram þau réttu røk, rædu og þánka minna! þér, Jesú! géfin var þreføld søk, þad kann eg gløggt ad finna; þrefaldleg sekt, mig þjádi frekt, þar um eg klagast mætti; þrefalda stygd, og þúnga lygd, þú leidst med søgdum hætti.

8. Fráþnlid Gudi allt mitt er, edlid og líf fáneyta, ødrum því géf eg opt af mér, ill dæmi

svo ad breyta; en hérámót, med elsku hót, øll Guds børn rétt því trúa, frá bølvun, deyd, djøsli og neyd, Drottinn réd lýdnum snúa.

9. Gudi átt' eg ad greida frí, gjald, hlýdni' og þakkar-skyldur, ránglega hefi' eg haldid því, høndlad sem þræll ógyldur: audsveipnin þín, fyrir øllum skín, ástsemdar Herrann kjæri! þú baudst: gésid, (gafst sjálfur med), hvad Guds og Keisarans væri.

10. Sannlega hefi' eg hrokad mér, hærra enn vera skyldi, bod og skipun míns Herra hér, haldid í minnsta gyldi; Kóngdóm í heim, og heidri þeim, hafnadir þú og slýdir; hátignin þín, á himnum skín, hún mun birtast um sídir.

11. Rægdur varstú fyrir ránga sók, réttláti Jesú mildi! uppá þad øll mín íllsku røk, afplánud verda skyldi; áklagan sú, sem þoldir þú, þess bid eg Herrann frómi, sé mitt forsvar, þá finnst eg þar, fyrir þeim stránga dómi.

## 19. Sálmur.

### Játníng Kristi fyrir Pílató.

Lagid: Mitt hjarta! hvar til hrigglst þú.

Gydíngar høfdu' af hatri fyrst, hardlega klagad Jesúm Krist, sem ádur sagt er frá, Landsdómarinn gjørdi' ad gá, gløggt hvad þýddi framburdur sá.

2. Ákløgun fyrsta andleg var, um það Pílatus sinnti' ei par, ønnur um skylduskatt; hann vissi vel þeir søgðu ei satt, svoddan málum þegjandi hratt.

3. En sem þeir nefndu Kónginn Krist, kom honum þá til hugar fyrst, hvað áður heyrði' og nam, af Júðum mælt um Messíam, ef mætti ské það kjæmi nú fram.

4. Pílatí sinni í sumum finnst, sem um Guðs dýrkun hugsa minnst, Høfðíngjum hræsna tídt, undirsáta frelsið frídt, fjárplógs gjarnir rækja nú lítt.

5. Hirðstjórinn spurði Herrann þá, hvert hann sé Júða Kóngur sá? en Jesús aptur tér: talar þú svo af sjálfúm þér, eða søgðu aðrir þvílíkt af mér?

6. Þá varð Pílatí þelið kaldt, þig hatar, sagði' hann, fólkið allt, hvað íllt hefir þú gjørt? aptur Jesús ansar bert: er það nærsta þeinkíngar verdt.

7. Mitt ríki' er ekki af þessum heim, hardt mundi annars móti þeim, strída minn maktar her, sem nú mig seldu í nauðir þér, svo nædu ekki Gydíngar mér.

8. Pílatus aptur ansa vann: ertú þá Kóngur? sagði hann: játaði Jesús því, híngað barst eg heiminn í, að herma skyldi' eg sannleikann frí.

9. Hverr af sannleiknum sjálfur er, sá mína røddu heyrir hér. Hædnisvar hinn tilfann: Hvad er sannleikur? sagdi hann; svo gékk burt med úrskurdinn þann.

10. Hér máttu, sál mín! heyra fyrst, Herrann Jesús er Kóngur víst, þó ekki' ad heimsins hátt, svoddan vel þú athuga átt, þad eykur gledi hjartanu þrátt.

11. Kóngs-tign þín, Jesú! eilíf er, allir þyggja sín vøld af þér, høfdíngjar hér um heim, þú lénar, géfur, lánar þeim, løndin, ríki, metord og seim.

12. Fyrir þinn krapt og frelsis hønd, forsvara Kóngar ríki' og lønd, sem er þeim undirlagt, en móti djøfli' ad daudans makt, dugir engin høfdíngja prakt.

13. Þú hefir sigrad synd og deyd, sjálfann djøful og vítis neyd, hádir eitt herlegt stríd, allann svo þinn leystir lýd. Lof sé þér um eilífa tíd!

14. Andlegt þitt ríki og eilíft er, ord sannleiks því rétt stjórnar hér, þinn veldisvøndur sá, óvini slær mér alla frá, í þeim krapti sigra eg þá.

15. En fyrst þitt ríki andlegt var, um þad heimurinn sinnti' ei par, hann fann ei hofmód sinn, hjá þér, Jesú Herra minn! hatadi allann gódvilja þinn.

16. Undrast því, sál mín! ekki þarft, þó adkast veraldar lídir margt, þar um þér þenkja ber, ertú nú í útlegd hér, annars heims þitt føðurland er.

17. Sannleika-Kóngsins sannleiks-raust, sá þarf ad elska hræsnislaust, sem er hans undirmann, því slægd og lýgi hatar hann, hreinhjørtudum miskunar ann.

18. Ef þú, mín sál! í Gudi glødd, girnist ad heyra Kóngsins rødd, gættú þá gjørla hér; hvad boda Drottins þjónar þér, þeirra kénníng raustin hans er.

19. Ransaka, sál mín! ord þad ørt, ad verdur spurt: hvad hefir þú gjørt? þá Herrann heldur dóm, hjálpar engum hræsnin tóm, hrein sé trú í verkunum fróm.

20. En søkum þess þú ei saklaus ert, sjálfa spyr þig: hvad hefir þú gjørt? um hvern umlidinn dag; ydrun gjør og grát þinn hag. Guds Son bid þad færa í lag.

21. Allt hef' eg, Jesú! illa gjørt; allt þad ad bæta þú kominn ert, um allt því eg kvittur er; allt mitt líf skal þjóna þér, þar til, bid eg hjálpa þú mér!

## 20. Sálmur.

Ønnur ákløgun Gydínga fyrir Pílató.

Lagid: Ovinnanleg borg er vor Gud.

Pílatus hafdi prófad nú, píslar-søk Jesú géfna,

klén virdtíst honum Kóngs-tign sú, þá Kristur sannleik réð nefna, heims sannleik heidra létst, hæddi Guðs sannleik mest; sannindin elska ber, orð Drottins láttu þér, kjærast þó allra efna.

2. Jafnódt þá gánga Jarlinn réð, til Júda út að bragði: enga søk þessum manni með, má eg finna, hann sagði; Gydíngar heldur hardt, Herrann kløgudu' um margt, með ædi, ógn og dramb, eins rétt sem meinlaust lamb, Lausnarinn ljúfur þagdi.

3. Hann hefir uppæst lýdinn lands, lengi mjøg víða kénndi, frá Galílæa' og svo til sanns, um sídir allt híngað vendi. Pílatus hugdi hér, hrinda' þeim vanda' af sér, Heródes hafði því, hirdstjórn þeim parti í, til hans því Herrann sendi.

4. Fyrir mig, Jesú! þoldir þú, þjáníng og beiska pínu, hjartað gledst, því eg heyri nú, hróssað sakleysi þínu; syndin lá sárt á mér, søk fannst engin hjá þér, svo er sakleysi þitt, sannlega ordið mitt, við málefni tókst þú mínu.

5. Løgmál Drottins þá hefndum hardt, hótar mér eptir vonum, aptur minn Jesús ansar snart: engin søk finnst með honum, sakleysi mitt til sanns, segi' eg nú orðið hans, engin ákløgun fljót, orka skal neitt á mót, mínum þol-lyndis þjónum.

6. Onitju-hjal og mælgin mín, mér til falls koma ætti; en, Jesú! blessuð þøgnin þín, það allt

fyrir mig bætti; skylda mín aptur er, eptir ad breyta þér, þeigjandi' í þýdri trú, þola, nær líd eg nú; þørf væri þess eg gætti.

7. Pílatus meinti mannvits slægd, mundi ó- brigdul standa, koma vill því med kjænsku nægd, Kóng Heródi í vanda. Kunna þá adferd enn, all- margir veraldar menn; bid Gud og gæt þín vel, gjarn er heimur á vél, gálausum svikin granda.

8. Kross-gángan, Jesú! þessi þín, þar fyrir eflaust skédi, svo hvílast mætti sálin mín, sætt í ei- lífri gledi. Embættis ómak lángt, opt þó mér finnist stránt, til lofs og þóknunar þér, þad vil eg gjarnan hér, lída med ljúfu gédi.

## 21. Sálmur.

Um Heródes forvitni og hvíta klædid.

Lagid: Jesú Kristi! þig kalla' eg á.

Þegar Heródes Herrann sá, hann vard mjøg gladur nærsta, af honum heyrt hafdi og helst vill fá, hans ásýnd lita glæsta: forvitinn mørgu frétti ad; sýsn holdsins kapp á lagdi, med bistu bragdi. Jesús tók ekki undir þad, vid øllum spurníngum þagdi.

2. Margir finnast enn hér um heim, Heródis líkar réttir, Guds ord er skémt og gaman þeim, sem glens edur nýjar fréttir, forvitnin holdsins hnýsir þrátt, í Herrans leyndardóma, med sýsn ei fróma, aum- ri skynsemi ætla' ofhátt, aldrei til skilníngs koma.

3. Mannvits djúpfindni og menta glis, margir þá vilja reyna, ad ordi Drottins þeir gjøra gis, gaman loflegt þad meina. Varastu, sál mín! vítin reynd, vird þú í hærsta gyldi, þá miklu mildi, alvarlega med gódri greind, Gud vid þig tala vildi.

4. Gud gjørir ekki' ad gamni sér, glæpamønnum ad hóta, kals-mælgi honum og engin er, ad þú megir miskun hljóta; audmjúklega med allri gát, áttu um slíkt ad ræda, og fleiri fræda; en af þér heyrast aldrei lát, ord Drottins skulir þú hæda.

5. Heyri' eg um þig, minn Herra! rædt, í hjálprædis ordi þínu, allt sýnist mér þá búid og bætt, bølid í hjarta mínu, í Sakramentinu sje eg þig, svo sem í líkíng skjærri, med nád mér nærri; ó! hvad gledur sú ásýnd mig, engin finnst huggun stærri.

6. Heródes fýsn var holdleg sú, hann réd forvitni ginna; en mín sála af ást og trú, andvarpar þig ad finna, lofsamleg er sú lukku-stund, þá lít eg þig, Herra þýdi! í þinni prýdi, géf mér lofsins þann fagnadar-fund, þó fyrst um sinn hér bídi.

7. Þad kénnir Herrans þøgnin fróm, þar nærst í annan máta: hann vill ei sínum helgidóm, fyrir hunda kasta láta, Drottinn forsmáir drambsamt géd, djarflega margs þó freisti, og frekt sér treysti, hugstoltum nidur hrinda réd, hógværa sál vidreisti.

8. Heródes og hans hoffólk litt, um Herrann akta vildi, færdi hann í eitt fatid hvítt, forsmán

það heita skyldi, til Pílatus's síðan sendur var; svo komst í friðar stilli, sá ofsinn illi, drambsöm øfundin áður bar, óvinskap þeirra milli.

9. Hvítt klæðið gjørði háðúng þér, Herra minn Jesú sæti! dýrðar skrúða svo skenktir mér, skínandi Guðs réttlæti, sakleysis merkið þetta þitt, þíns Føðurs gæðskan hreina, þá þekkti' alleina; hann sjer og prófar hjartað mitt, hvað sem íllgjarnir meina.

10. Heilagra sálna hópur skjær, á himnum með skikkun fríða, til heiðurs þér, Jesú Herra kjær! hvítum klæðum sig skrýða; eins hér á jørðu upp frá því, eflaust í minníng slíka, með røksemd ríka, birtust snjóhvítum búníng' í, blessaðir Englar líka.

11. Veittu, Jesú! þá miskun mér, meinleysis skrýddur klæði, þjóni' eg tállaust með trygðum þér, í trú, von og þolinmæði, réttlætis skrúða skartið þitt, skíni á sálu minni, þó líf hér linni, eins láttu holdið einninn mitt, af-klæðast þrjótsku sinni.

12. Forlíkast gjørðu fjandmenn tveir, þá fórstu þar, Jesú! milli; eg veit, mér gafstu miklu meir, miskun og friðarstilli, hjá Guði Føður, svo (til sanns), sjest enginn reiði lengur, né stygðar strengur, dag-lega milli mín og hans, minn trúr Frelsari gengur.

13. Hvar sem ófriður hreyfir sér, af holdsins veik-leik' bráðum, milli kristinna manna hér, móti Guðs vilja' og ráðum, gakktú þar, Jesú! milli mest, með

þínum friðar anda, og varna vanda, hjálpa þú, svo vér hugsum best, í hreinum kjærleik að standa!

## 22. Sálmur.

Um krossfestíngar hróp yfir Kristó.

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

Frá Heróde þá Kristur kom, kallar Pílatus' snjöllum róm, Gyðíngalýð, og ljós gaf rök, Lausnarinn hefði enga sök, samþykkur væri og sér til þess, sjálfur Kóngurinn Heródes.

2. Sannlega Drottinn sakleysið, sjer, elskar bæði' og styrkir með, hjarta og munnur hvers eins manns, hlýtur að þjóna vilja hans. Málefnið gott fær góðan róm, gæt þess, mín sál! og vertú fróm.

3. Siður Gyðínga sá var þá, sakamann einn þeir skyldu fá, um Páska tímann frá píslum frí. Pílatus átti' að gegna því. Í frelsis minníng úr Egyptó, aldrei bauð Drottinn svoddan þó.

4. Sjá til, mín sál! að síðvaninn, síst megi villa huga þinn, forðaðstú honum að fylgja hér, framar enn Guðs orð leysir þér. Góð meiníng enga gjörir stoð, gylda skal meira Drottins boð.

5. Pílatus Júdum sagði svo: sjáið nú gløggt um kosti tvo, eg býð hér Jesúm yður fram, eða morðíngjann Barrabam. Hann meinti' að yrði helst með því, Herrann frá dauða gefinn frí.

6. Pú fær nú gløggt af þessu sjeð, þar, sem Drottinn er ekki með, í verki', áformi' og vilja manns,

verda til einkis ráðin hans; sérvitska holdsins svikul er, svo sem Pílatus skéði hér.

7. Yfirmennirnir allra fyrst, óskuðu' að Drottinn krossfestist, almúgann svo í annann stað, eggjudu mest að biðja um það, Barrabas's útlausn skyldi ské, skilinn Jesús frá lífi sé.

8. Veraldar dæmin varast skalt, vogaðú ekki að gjøra það allt, sem Høfðíngjarnir nú hafast að, þó heimurinn kalli loflegt það; ef blindur leiðir blindaun hér, báðum þeim hætt við falli er.

9. Hverr þig eggjar á íllverk bráð, aldrei gakk þú með þeim í ráð, vinn þú það ei fyrir metorð manns, að missa Guðs náð og vinskap hans; hverugur annars bætir bøl, þó báðir rati' í straff og kvøl.

10. Yfir-mønnunum er því vandt, undirsátarnir hnýsa grant, eptir því, sem fyrir augun ber, aðnæmast þó hið vonda er; hvað Høfðíngjarnir hafast að, hinir ætla sér leyfist það.

11. Ill eptirdæmi á alla grein, eru samlíkt við milnustein, viljir þú vera' af færi frjáls, festú hann aldrei þér við háls, í Guðs ótta frá þér glæpum hrind, góð vertú ødrum fyrirmind.

12. Húsfrú Pílatí holl gaf ráð, hefði hann betur að því gáð; góðar kvinnur þess gæti mest, gjarnan ástundi dæmin best. Abígael fær æru' og sæmd, ílla Jesabel verður ræmd.

13. Set eg það nú í sinni mér, sæti Jesú! að

gæta' ad þér: allir hrópudu allt um kríng, yfir þig dauda og krossfestíng, sem lamb meinlausast þagdir þú, þar af stendur mér huggun trú.

14. Løgmálsins bølvan bitur og sterk, banvænn djøfull og øll mín verk, þó hrópa vilji nú hvert fyrir sig, hefnd og fordæmíng yfir mig, nýt eg, minn Jesú! þín í því, frá þeirra kløgun verd eg frí.

15. Afellis dómsins ógna hróp, ytstu mirkranna vein og óp, aldrei mun koma' ad eyrum mín, eyrun blessud fyrst heyrdu þín, káll og háreysti kríngum sig, frá kvøl og ángist þad frelsar mig.

16. Hrópar nú yfir mér himin og jørd, helgun, frid, nád og sáttargjørd, hvert heldur eg geng út eda inn, í þínu nafni, Jesú minn! bænar hróp mitt í hreinni trú, himneskum Gudi þóknast nú.

17. En þér ti! heidurs alla tíd, Englar Drottins og kristnin fríd, hrópar nú bædi' á himni og jørd: Hósanna, lof og þakkargjørd! Amen segir og uppá þad, ønd mín gladvær í hverjum stad!

## 23. Sálmur.

### Um Kristí Húdstrýkíng.

Lagid: Oss lát þinn anda styrkja.

Pílatús Herrann hærsta, húdstrýkja lætur þar. Nakinn vid stólpann stærsta, strengdur þá Jesús var, strídsmenn med svipum hrøktu hann; sál mín! hér sjá og skoda, hvad Sonur Guds fyrir þig vann.

2. Helgasta holdid fríða, frá hvirfli iljum ad,

Drottni varð sárt að svíða, svall allt af benjum það, hverr hans líkama limur og æð, af sárum sund-urflakti, sú hyrting mjøg var skjæð.

3. Blessaður dreyrinn dundi, Drottinn lífsæð-um úr, sem regn það hraðast hrundi, himins í dymmu skúr, blánaði hold enn bólgnaði und, Son-ur Guðs sárt var kvalinn, saklaus á þeirri stund.

4. Eg var, sem fjøtrum færdur, fángelsi þúngu í, á ønd og samvitsku særdur, syndin mín olli því, sú daudleg sálar sóttin hér, um hverja æð út sér dreifði, ekkért fannst heilt á mér.

5. Svipan løgmálsins lamdi, líf og sál heldur frekt, óttinn kvalanna kramdi, kominn var eg í sekt, banvænlegt orðið mitt var mein, hjartað af hrigð-um stundi, hvergi fékst lækníng nein.

6. Sástú þá, Jesú sæli! sár mín óbærilig, til lausnar þínum þræli, því létstú binda þig, gékkst svo undir þá grimdar kvøl, að eg kvittaður yrði, við eilíft hrigðar bøl.

7. Sjúkdóm minn sjálfur barstú, svo varð eg heill með því, hørmúngum hlaðinn varstú, frá hrigðum er eg nú frí, hegníng þú fékkst svo hefði' eg frið, benjar þínar mér bættu, bót sú þar átti við.

8. Hjartað vill hræðslan krenkja, með hørðum sorgar stíng, þegar eg gjøri að þenkja, um þína húð-strýkíng, ví! eg gaf þar efni til, þú einn galdst þrjótsku minnar, þess nú eg ýdrast vil.

9. Því fell eg nú til fóta, Frelsarinn Jesú! þér, láttú mig nafns þíns njóta, náð og vægð sýn þú mér, eg skal með hlýðni heidra þig, nú og um eilífð alla, þá huggar þú, Herra! mig.

10. Gleðstú, mín sál! þig græddi, Guðs Sonar heilagt blóð, þó synd og sorgin mæddi, sjá! hér er lækníng góð, náð fyrir reiði nú er vís, brot þrælsins Herrann bætti, bar því síns Föðurs hrís.

11. Skoda þú skyldu þína, skírlega, sál mín! nú: Sonurinn sig lét píua, svo læknuð yrðir þú: heilbrigð þjóna þú honum rétt, með trú, hollustu' og hlýðni, haf gát á þinni stétt.

12. Þóknist honum að þjaka, þitt hold örkumslum með, þýðlega þú skalt taka, þolinmóðt hjartagéð, ásjer Drottinn og elskar best; Lausnara líkjast þínum, lof er þér allra mest.

13. Ekkért má sóma sídur, sí-kátur þrællinn er, þá Herrann harmkvæli líður, haf slíkt í minni þér; hrigðar-mind hans er heidur þinn. Lát þig það læra' og halda, ljúfasti Jesú minn!

## 24. Sálmur.

Um purpurann og þyrni-kórónuna.

Lagið: Til þín, heilagi Herra Guð!

Illvirkjar Jesúm eptir það, inn í þínghúsið leiddu, afklæddu fyrst, og fljótt þángað, fólkið allt koma beiddu, purpura-klæðis forna flík, (fást mátti valla hádúng slík), yfir hans benjar breiddu.

2. Helgunar klædið hafð' eg mist, hlaut því nakinn að standa; Adam olli því allra fyrst, arf lét mér þann til handa; syndanna slík eg færðist í, forsmán og mínkun hlautst af því, með hverskyns hafka' og vanda.

3. Burt-tók Jesús þá blygðun hér, berann því lét sig pína, réttlætis klæðnað keypti mér, kann sá fagurt að skína; athvarf mitt jafnan er til sanns, undir purpura kápu hans, þar hyl eg misgjörð mína.

4. Þyrni-kórónu þúnga þeir, þreyngðu að Herrans enni, bál-eldi heitum brenndu meir, broddar svíðandi' í henni, augun hans bæði og andlit með, allt af blóðinu syllast réð, slíkt trúi' eg kvala kénni.

5. Fyrir óhlýðni Adams var, öll jörðin lýst í banni, ávöxt því slíkann af sér bar, orð Guðs trú' eg það sanni; þessum bölvunar þyrni-krans, þreyngt var að höfði Lausnarans, til huggunar hreldum manni.

6. En Jesú hlýðni aptur hér, allri jörð blessun færir, heilnæmann ávöxt hún því ber, hverja skepnu vel nærir. Fyrir gæðskunnar gjörníng þann, gøfgi, lofi og prísi hann, hvað sig um heiminn hrærir!

7. Bølvan mér yfir høfði hékk, hótuð í løgmáls bræði; enn Jesús hana undir gékk, svo aptur eg blessun næði; Guð minn kórónu gaf mér þar, gæðsku og dýrðar eilífrar, hér og á himnum bæði.

8. Reyr-staf honum í hønd með spé, Hyrðstjórans þrælar fengu. Heilsuðu Kóngi og krupu á kné, kals-orð á víxl þá gengu, reyrnum hroktu um høfuð hans, hræktu í andlit Lausnarans, með kvala-kappi strangu.

9. Þá þú gengur í Guðs hús inn, gæt þess vel, sál mín fróma! hæð þú þar ekki Herra þinn, með hegðun líkamans tóma, beygðu holdsins og hjartans kné, heit bæn þín ástar-kveðja sé, hræsnin mun síst þér sóma.

10. Sjálfs míns verðskuldun sje eg hér, svoddan átti' eg að líða, um eilífð þá, sem aldrei þver, með ógn og sárum kvíða, hefði mér ekki hørmúng þín, hjálpað, Jesú! frá þeirri pín. Blessað sé nafn þitt blíða!

11. Øll þín læging er upphefð mín! ástkjærí Jesú mildi! heiður er mér að háðúng þín, hvert sem mér niðra vildi, høggin, sem leiðstú, hressa mig, á himnum verð eg nú fyrir þig, metinn í mesta gyldi.

12. Meðan lífs æð er í mér heit, eg skal þig, Drottinn! prísa, af hjartans grunn' í hverjum reit, heiður þíns nafns auglýsa, feginn vil eg í heimi hér, hlýða og fylgja í øllu þér; lát mér þína líðsemd vísa!

## 25. Sálmur.

Um útleidslu Kristí úr þínghúsinu.

Lagid: Konúng Davíd, sem kénndi.

Lands-dómarinn þá leiddi, Lausnarann út med sér, Gydíngum andsvør greiddi, gløgglega og svo tér: þér sjáid þennann hér! sannlega ydur eg segi, søk finnst med honum eigi, sú dauda-dóms verd er.

2. Þá gékk Jesús út þanninn, þyrni og purpura bar, sagdi: sjáid hér manninn! sjálfur dómarinn þar; Gydíngar gáfu svar: burt med hann, svo þeir segja, sá skal á krossi deya; ósk þeirra ein sú var.

3. Ord og afsøkun gyldti, engin í þessum stad, heiptin svo hugann fyllti, hjartad vard forblindad; sídast þeir søgdu þad: ljóslega lífs-straffs krefdi, løgmálid, því hann hefdi, gjørt sig Guds Syni ad.

4. Rétt løg, sem ritud finnast, rángfærdu Júdar hér, oss ber því á ad minnast, íll dæmi fordumst vér, dómurinn Drottins er, hinn þó med heiptum klagi, og hreinann sannleik afslagi; sjái Valdsmenn ad sér.

5. Þá eg heyri, minn Herra! hversu þú kvalinn varst, gjørvøll vill gledin þverra, galdstú mín nærsta hardt, því eg breut mikid og margt; en þá mér Gudspjøll greyna, gløggt þitt sakleysi hreina, hjartad fær huggun snart.

6. Athuga, sál mín! ættum, útgaungu Drottins hér, svo vid rétt minnast mættum, hvad miskun

hans veitti þér; hyggjum ad, hann út ber, þyrni-kórónu þétta, þar med purpurann létta, blár og blódugur er.

7. Med blód-skuld og bølvun stránga, beiskum reird kvala-hnút, áttum vid greidt ad gánga, frá Guds nád rekin út, hrakin í heljar sút, íklædd for-smánar slíkum, fráskúfud Drottni ríkum, nakin og nidurlút.

8. O synd! ó syndin arga! hvad íllt kémur af þér? ó hversu meinsemd marga, má Drottinn lída hér! þitt gjald allt þetta er, blindad hold þig ei þekkti, þegar þín slærd mig blekkti. Jesús miskuni mér!

9. En med því út var leiddur, alsærdur Lausnar-inn, gjørdist mér vegur greiddur, í Guds nádar-ríki inn, og eilíft líf annad sinn, blódskuld og bølvun mína, burt-tók Guds Sonar pína. Dyrd sé þér, Drottinn minn!

10. Utgeng eg ætíd sídan, í trausti Frelsarans, undir blæ himins blídann, blessadur víst til sanns, nú fyrir nafnid hans, útborid lík mitt lidid, legst og hvílist í fridi, sál fer til sælu-ranns.

11. Dýrdar Kórónu dýra, Drottinn géfur mér þá, réttlætis skrúdann skíra, skal eg og einnig fá, upprisu-deginum á, hærstum heidri tilreiddur, af heiløgum Englum leiddur, í sælu þeim sjálfum hjá.

12. Svo munu Guds Englar segja: sjáid nú

þennann mann! hvern allskyns eymd réd beygja, ádur í heimsins rann, opt var þá hreldur hann, fyrir blód Lambsins blída, búinn er nú ad strída, og sælann sigur vann.

13. Þá muntú, sál mín! svara, sýngjandi fögrum tón: lof sé mínum Lausnara! lamb Guds á hærsta trón, sigur gaf sínum þjón, um blessadar himnahallir, honum segjum vér allir, heidur, med sætum són!

14. Son Guds ertú med sanni, Sonur Guds, Jesú minn! Son Guds, syndugum manni, sonararf skenktir þinn, Son Guds einn eingétinn; Syni Guds sýngi gladur, sérhverr lifandi madur, heidur í hvert eitt sinn!

## 26. Sálmur.

Samtal Pílatí vid Kristum.

Lagid: Hærsti Gud Herra mildi!

Hér þá um Guds Son heyrdi, heidinn Landsdómari, hann spyr (því hrædast gjørdi): hvadan vor Drottinn sé? en Jesús þýdur þagdi, (þad og vel maklegt var); Pílatus brádt ad bragdi, bistist og aptur sagdi: vilt þú ei veita svar?

2. Mín er, þad mátt þú játa, maktin svo tignarlig, eg má vel lausann láta, líka krossfesta þig. Jesús svarar og segir; síst átt þú vald á mér, ef þér væri þad eigi, ad ofan gésid, svo megir, heidri þeim halda hér.

3. Sá hefir synd enn meiri, er seldi mig þér á hønd. Pílatus hygg eg það heyri, hann grundar málin vønd. Gjørði strax grida leita, gáfu Prestarnir ans: vægð ef þessum vilt veita, víst mátt þú ekki heita, kjær vinur Keisarans.

4. Heidíngjar halda gjørdu, hjá = gudir þeirra senn, børn ættu alsn á jørdu, eins og holdlegir menn; hann óttast hér ef væri, Herrann Godanna kyns, hugdi því helst ad bæri, hyggilega framfæri, ransókn réttdæmisins.

5. Skurdgod sín heidnir héldu, hafandi í mestu akt, forgéfins hug sinn hreldu, hræddir vid þeirra makt; ó! hversu framar ætti, einn sérhverr kristinn mann, óttast Drottins almætti, med ást og blygdunarhætti, sem stoltum steypa kann.

6. Af stórri makt sig réd stæra, stoltur Pílatus hér, rétt mál til rángs ad færa, reiknadi leyfilegt sér: kann vera margann megi, meiníng sú villa þrátt, þó løgin brjóti og beygi, bannad sé þeim það eigi, fyrst vald þeir hafa hátt.

7. Gud er sá vøldin géfur, gæti þess ædri stétt, sitt léni hverr einn hefur, hér af Drottni tilsett, hann lét þig heidur hljóta, heidrast því af þér vill, virdíngar vel mátt njóta, en varast drambsemi ljóta, róg og rángindin ill.

8. Yfirvald einn Gud sendi, undirmenn gæti þar ad, sverd Drottins hefir í hendi, heidra skulum vér

það, hlýðugir friði halda, hlífð og forsvari ná, hverlyndis hrjótskan kalda, þúnglegri hefndargjalda, að vísu sér vænta má.

9. Eins sem hverr einn misbrýtur, eptir því straffast hann, harðari hefndir hlýtur, hinn sá meira tilvann; þeim mun ei plágan þverra, sem þrjótskast í synda-rót, sá þjón á von hins verra, sem vilja þekkir síns Herra, þó gjörir þvert á mót.

10. Varðveiti Valdsmenn alla, vor Guð í sinni stétt, svo varist í vondsku' að falla, vel stundi løg og rétt; hinir í hlýðni standi, hverr svo, sem skyldugt er, hrein trú og helgur vandi, haldist í voru landi, Amen, þess óskum vér!

## 27. Sálmur.

Pílati samtal við Gyðínga á dómstólnum.

Lagið: Skaparinn stjarna Herra hreinn!

Pílatus heyrði hótað var, honum Keisarans reiði þar, útleiddi Jesúm annað sinn, uppsetst þegar á dómstólinn.

2. Gyðíngum síðan sagði hér: sjáið þar yðar Kóngur er. Þeir báðu: tak þennann burt frá oss, bráðlega lát hann deyja á kross.

3. Skal eg krossfesta Kóng yðvarn? kallar Pílatus hæðnis-gjarn; engann Kóng seigja þeir aptur hér, utann Keisarann høfum vér.

4. Guðspjalls historían hermir frá, heiti sá

stadur Gabbatha, háa steinstræti þýdir það. Þar mátt þú, sál mín! gæta ad.

5. Vei þeim dómara' er veit og sjer, víst hvad um málid réttast er, vinnur það þó fyrir vinskap manns, ad víkja' af gøtu sannleikans.

6. Pílatus Keisarans hræddist heipt, ef honum yrdi' úr vøldum steypt, þetta sem helst nú varast vann, vard þó ad koma yfir hann.

7. O vei! þeim sem ad órétt løg, umgángast og þau tídka mjøg, sannleiknum meta sitt gagn meir, svívirdíng Drottni gjøra þeir.

8. Huga sný eg og máli mín, minn gódi Jesús! enn til þín; Pílatus Kóng þig kallar hér, krossfestíng Júdar óska þér.

9. Víst ertú, Jesús! Kóngur klár, Kóngur dýrdar um eilíf ár, Kóngur Englanna, Kóngur vor, Kóngur almættis tignar-stór.

10. Þó stódstú bundin þar fyrir dóm, þó leidstú hróp og kvala-róm, afseigja gjørdu allir þig, undrar stórlega þetta mig.

11. O Jesú! það er játníng mín: eg mun um sídir njóta þín, þegar þú, dýrdar Drottinn minn! dómstól í skýum setur þinn.

12. Frelsadur kém eg þá fyrir þinn dóm, fagnadar-sælann heyr' eg róm, í þínu nafni útvaldir, útvalinn kalla mig hjá sér.

13. Kóng minn, Jesú! eg kalla þig, kalla þú

þræl þinn aptur mig, Herratign enga' að heimsins síð, held eg þar megi jafnast við.

14. Háa stein = strætið heimsins sleipt, hefir mér opt í vanda steypt, þángað lét Jesús leiða sig, svo líknin hans komi yfir mig.

15. Jesú! þín kristni kýs þig nú, Kóngur hennar einn heitir þú, stjórn þín henni svo haldi við, að himneskum nái dýrðar frið!

## 28. Sálmur.

Um Pílatí handa = þvott og dóm.

Lagið: Nú bið eg, Guð! þú náðir mig.

Pílatus sá að sönnu þar, sín ráð máttu ei gylda þar, upphlaup sér búið hræddist hann, hugði að stilla vanda þann, fullnægja vildi fólksins bón, sá skyldi Jesús dauðans tjón, sannleika engum sinnti meir, svo dæmdi allt, sem beiddu þeir.

2. Hendur í vatni þá nam þvo, þar næst við Júða mælti svo: sjálfir um yður sjái þér, saklaus við réttláts blóð eg er. Allur almúginn uppá það, andsvarar greidt í þessum stað: hans blóð (þó nú að kvelji kross), komi yfir börnin vor og oss!

3. Pílatus hafði prófað þar, píslar = sök Drottins engin var, fyrir og eptir eins réð hann, úrskurða Jesúm saklausann, þó mót samvitsku sinni þvert, sjálfur viljandi dæmdi bert. Guð

gèfi ad yfirvøldin vor, varist 'þau dæmin glæpastór!

4. Hvad margur nú í heiminum, hèr fyrir lastar Pílatum, sem þó elskar og ydkar mest, athæfi hans og dæmin verst? óttinn í dómi opt sær sess, Yfir-Herrarnir njóta þess; almúgans hrøsun olli því, íllgjarnir skálkar hlaupa frí.

5. Abata-von og vina-hót, verkin dylja, þó séu ljót, líka kémur sú fordild fram, sem forsvarad gètur Barrabam; gèfst þá raunin hvad gylda skal, gull-túngan sú, sem Achan stal, máskè og þyggi mútur hinn, meir enn Pílatus þetta sinn.

6. Eg spyr: hvad veldur ódygd flest, eykst nær daglega og fjølgar mest? umsjónarleysi' er orsøk hærst, egin gagnsmunir þèsßu nærst, miskun, sem heitir skálkaskjól, skygnist eptir um fánýtt hól, óttinn løgin svo þvíngar þrátt, þora þau ekki ad líta hátt.

7. Fyrir fólkinu þegar þar, þvodi Pílatus hendurnar, fyrir Gudi, sèr þann gjørdi grun, gylda muni sú afsøkun. Varastú, madur! heimsku hans, hèr þó þú villir sjónir manns, almáttugs Drottins augsýn skjær, allt þitt hjarta ransakad sær.

8. Viltú þig þvo, þá þvo þú hreint, þel hjartans bædi ljóst og leynt, ein laug er þar til edla góð, ydrunar-tár og Jesú blód; grát þína

synd, en set þitt traust, á Sonar Guðs pínu efa-laust, lát af íllu, en ydka gott, allann varastú hræsnis þvott.

9. Blóðs-hefnd á sig og børn sín með, blind-aður lýður hrópa réð, elsdist svo þessi óskin køld, en í dag bera þeir hennar gjøld; athuga-gjarn og orðvar sért, einkum þegar þú reiður ert, for-mælíng íllann finnur stað, fást mega dæmin uppá það.

10. Drottinn Jesú! sem dæmdur varst, dóm-ari kémur þú aptur snart, Dóms-menn láttú til dýrðar þér, Dómana vanda rétt, sem ber; þvo þú vor hjørtu' og hendur með, hrein trú varð-veiti rósamt géð; þitt blóð flekklaust, sem flóði' á kross, frelsi það børnin vor og oss!

## 29. Sálmur.

### Um Barrabas frelsi.

Lagið: Eins og sitt barn, faðir ástargjarn.

Seldi Pílatus saklausann, Son Guðs til krossins dauða; upphlaups-maður sá víg eitt vann, þá frelsi fann, fékk líf, en misti nauða.

2. Í mirkva-stofu sá bundinn beið, Barrabbas trú' eg hann heiti. Má hér finnast ein merkíng greið, um mannkyns neyð, mjøg skír að øllu leiti.

3. Barrabbas frá eg Føðurs nið, flestir lærðir menn þýði: Adam líkist þar eflaust við, og allt hans lið, sem áféll dauðans kvíði.

4. Upphlaups-madur hann ordin var, þá eplið í munn sér leiddi, sjálfs Guds bodordi sinnti' ei þar, og síðan þar, sig og allt mannkyn deyddi.

5. Í djøfuls fjøtrum fastur lá, fánginn til eilífs dauda: allir hans nidjar útífrá, med eymd og þrá, áttú von kvala' og nauda.

6. Hér þá Jesú var helið kaldt, af heidnu dæmt Yfirvaldi, fékk Adam aptur frelsið snjallt, og fólk hans allt, sem fagnar' því lausnar gjaldi.

7. Nú fyrst eg Adams nidji er, nær mér gengur það dæmi; sál mín! set slíkt fyrir sjónir þér, og sjáðú hér, sannferdugt lærdóms næmi.

8. Ó! hvad oft hef' eg aumur gért, uppreisn mót Drottins anda! daglega því hans bodord bert, svo braut eg þvert, mér bar þó í hlýdni, ad standa.

9. Mun og ekki vid manndráp frí, mína sál þrátt eg deyddi, ill dæmin gáfust af mér ný, og naudir í, náúngann þar med leiddi.

10. Ófrægur er eg ordinn mest, allar sképnur það sanna, fárádum ekkért forsvar sjest, fángelsið vest, fyrir því hlýt eg kanna.

11. Í myrkvastofu' eg bundinn bíd, bølvan løgmáls mig hrædir, dapurt nálægist daudans stríd, og dómsins tíd, daglega sorgin mædir.

12. Heyri eg nú þann hjálpar-róm: ad hafir þú, Jesú mildi! fyrir mig lidid lífláts dóm, þín líknin fróm, lausann mig kaupa vildi.

13. Sú heilaga' aflau'n hrigd og sút, af hjarta mínu greidir, syndanna leysir hlekkja-hnút, og hér næst út, úr hørdu fángelsi leidir.

14. Hvad dauda saknæmt sást á mér, (svoddan eg miskun þekki), til dauda allt var dæmt á þér, minn Drottinn! hér, dóminum kvídi' eg ekki.

15. Líf mitt og sál þig lofar nú, leyst frá daudans fángelsi, eg lifi' eda dey, þad er mín trú, ó-brigdul sú, í þínu, Jesú! frelsi.

16. Himneskri Páska-hátíd á, hef' eg nú þess ad bída, mirkvastofunni frelstur frá, eg fagna þá, í flokki' útvaldra lýda.

17. Svo er nú Barrabas ordinn frí, Adams og eg hans nidji; hver kristin sála heimi í, vorn Herra því, heidri, lofi, tilbidji!

## 30. Sálmur.

### Um Kristí kross-burd.

Lagid: Uppá fjallid Jesús vendi.

Stridsmenn Krist úr kápu færdu, og klæddu hann sínum búníng' í, sollnar undir sárt vid hrærdu, þær svidu' og blæddu uppá ný, á blessudu sínu baki særdu, hann bar sinn kross og mæddist því.

2. Skédi svo á samri stundu, Símon nokkurn bar þar ad, framandi mann, er gékk um grundu, gripu Júdar hann í stad, krossinum á hans herdar hrundu, hann gékkst naudugur undir þad.

3. Þeir, sem (sál mín!) syndir drýgja, samvitsk-

unni hvert á mót, undir Drottins endurnýja, ef ekki gjøra á løstum bót; vid skulum frá þeim flokki flýa, og fyrirgéfníngar bidja' af rót.

4. Uppá heimsins ópakklæti, er hér dæmi ljóst til sanns, margann læknadi Son Guds sæti, sjúkann medal almúgans, nú var ei neinn, sem bølid bæti, og bæri med honum krossinn hans.

5. Símon bædi' og syni hans báda, sjálf hér nefnir historían, gudhræddur skal njóta náda, og nidjar margir eptir hann, miskunsemd vid menn fáráda, minnast Gud og launa kann.

6. Framandi madur mætti Kristi, med honum bar hans þúnga kross. Hér má finna, hvern þad lystir, hreina þýdíng uppá oss, Gydínga fólk þá Guds nád misti, gafst Heidíngjum dýrdar hnoss.

7. Synda undir ýfast mínar, opt á hverri stundu nær, samvitskunnar sorg ei dvínar, svidameinid ílla grær, blessadur Jesú! benjar þínar, bid eg mýki' og lækni þær.

8. Pessi krossins þúnga byrdi, þér var, Drottinn! løgd á bak, svo fyrirmindan fyllt sú yrdi, þá fórnar-vidinn bar Isaak, sá þinn gángurinn sorgar styrdi, af sálu minni tók ómak.

9. Minnist eg á þjáníng þína, þig sú mæddi byrdin stríd, sannlega fyrir sálu mína, svoddan leid þín gædskan blíd; vegna þess mér virdstú' ad sýna, vorkunsemi nær eg líd.

10. Hold er tregt, minn Herra mildi! í hørm- úngum ad fylgja þér, þó eg feginn feta vildi, fót- spor þín sem skyldugt er, viljinn minn er í veiku gyldi, þú verdur því ad hjálpa mér.

11. Elsku géd svo þitt eg þekki, þjádum viltú sýna lid, láttú mig, Drottinn! einann ekki, í ánaud minni, þess eg bid, nafnid mitt, þó naudir hnekki, nád þín blessud kannist vid.

12. Komir þú undir krossinn stránga, kristin sála! gjæt þess hér, ef holdid tekur og møgla' og mánga, minnstú hvèr þín skyldan er, láttú, sem þú sjáir gánga, sjálfann Jesúm undan þér.

13. Undir krossi íllvirkjanna, aldrei hér þig finna lát, varastú glæpi vondra manna, á verkum þínum hafdú gát, ydka bæn og ydrun sanna, elska gjarnan hóf og mát.

14. Haf þú, Jesú! mig í minni, mædu' og daudans hrellíng stytt; børn mín hjá þér forsjón finni, frá þeim øllum vanda hritt, láttú standa' á lífs-bók þinni, líka þeirra nøfn, sem mitt!

## 31. Sálmur.

### Prédikun Kristí fyrir kvinnunum.

Lagid: Sá frjáls vid løgmál fæddur er.

Fólkid, sem Drottni fylgdi út, fylltist margt ángri hørdu, kvinnurnar grétu sárt med sút, sem hans kvøl aumkva gjørdu.

2. Snéri til þeirra Son Guds sér, sagdi þá

Herrann mætur: grátið þér ekki yfir mér, ó! Jerúsalems dætur.

3. Sonu ydar og egin eymd, eflaust þér gráta megið, nálgast sú tíð, sem nú er geymd, nær þér harmandi segið:

4. Sæl nú óbyrjan barnlaus er, og brjóst þau ei sogin vóru, hrynji yfir oss hálsarnir, hædir og fjøllin stóru.

5. Ef gjørt er svo við það græna tré, (géta hverr til þess nædi), hvað hið þornaða þá mun ské? það trú' eg Jesús rædi.

6. O! hvað veraldar virdíng er, vølt og svikul að reyna, gjæt þess, mín sál! og sjáðu hér, sannprófað dæmið eina:

7. A Pálma-sunnudag sjálfur inn, Son Guðs í borg nam ríða, ástvinir hans það sama sinn, súngu lof án alls kvíða.

8. Fám døgum síðar sjálfur út, særður með kross nam gánga, það hlutu' hans vinir að sjá með sút, sorg hjartans báru stránga.

9. Hafi svo verið vølt og flá, veraldin Herra sínum, hvers má sér vænta þrællinn þá? þess gæt í huga þínum.

10. Þeim, sem hún býður blíðleik sinn, búin er sorgin mesta; hirðtú því aldrei huga þinn, við hana, mín sál! að festa.

11. Sannlega skyldugt segi' eg mér, sára þá

kvøl ad gráta, sem, Drottinn Jesú! þúngt ad þér, þreyngdi í allann máta.

12. Samt er þér ekki þént med því; þótt eg þig aumka vildi, eilífa hátign ertú í, upphafinn, Jesú mildi!

13. Þar má nú heldur aukast af, ángur samvitsku minnar, orsøk eg til og efni gaf, allrar hørmúngar þinnar.

14. Erfidi hef' eg aukid þér, ofþúngt med syndum mínum, glæpanna, sem eg gjørdi hér, galdstú á holdi þinu.

15. Hrædist eg mér sé hulin geymd, sú hefndar pínan stránga, því eg vann til ad eilíf eymd, yfir mig skyldi gánga.

16. En þó gled eg mig aptur vid, ávøxtinn kvala þinna, þaraf ødlast eg frelsi og frid, og forlát synda minna.

17. Angistin sár og sorgar-lát, er sál' helst þjádu mína, snýst í føgnud og fegin-grát, fyrir þá miskun þína.

18. Bid eg nú, Jesú blídi! þig, sem bót mér gjørdir vinna: lát engann gjalda eptir mig, ílsku né synda minna!

## 32. Sálmur.

Um græna og visna tréd.

Lagid: Nú kom heidinna hjálpar-rád.

Greinir Jesús um græna tréd, gétur hins visna

einnig med. Vid skulum, sál mín! skoda' á ný, skírann lærdóm á máli því.

2. Frjófgunar eikin vøkvud væn, velblómgud stód med laufin græn, þegar á jørdu sást til sanns, Son Guds íklæddur holdi manns.

3. Lífsins ávexti ljúfa bar, læknadi Jesús sóttirnar, frá djøfli leysti' og daudans pín, daufum gaf heyrn, en blindum sýn.

4. Af hverri grein draup hunáng sætt, hjálprædis kénníng' fékk hann rædt, øll hans umgengni ástúdlig, ángrádar sálir gladdi mjøg.

5. Gudi var þekkt þad græna tréd, glødduft himnar og jørdin med; í hans fædíng þad vitnast vann, og vid Jórdan, þá skírdist hann.

6. Réttlætis allann ávøxt bar, inn til krossdauda hlýdinn var, saklausa lambid Son Guds einn, af synd og lýtum klár og hreinn.

7. Þó mátti ei þad edla tré, ángurlaust vera á jørdunni, Guds reidi stormur geysa vann, gékk því refsíngin yfir hann.

8. Ef þú spyr ad: hvad valda vann, vildi Gud láta saklausann, Soninn komast í sorgir þær, sem honum var þó hjarta kjær?

9. Þú skalt vita ad visnad tré, var mannkyn allt á jørdunni, ofan ad rótum uppþornad, ávøxt ránglætis færdi þad.

10. Skadsemdar tréd sem skémdi jørd, skipadi

Drottins reidi hörd, upphöggva, svo þad ekki þar, akrinum sé til spillíngar.

11. Vor Jesús mönnum vægdar bad, vinnast mátti' ei ad fengist þad, utan hann tæki uppá sig, illverka gjöldin hriggileg.

12. Herrann íklæddist holdi þá, hingad kom til vor jördu á, visnadri eik gafst vökvan góð, þá vard úthellt hans dýra blód.

13. Saklaus því leid hann sorg og hád, syndugt mannkyn svo fengi nád, hid græna tréd var hrakid og hrist, hér af þad visna blómgadist.

14. Guds dýrdar sæti sitt hold í, Sonurinn mátti' ei hefja því, fyrr enn í heimi harda neyd, hafdi þolad og krossins deyd.

15. O! hvad manns hold er heimsku fyllt, hriggilega úr máta villt, viljandi í löstum liggur þad, leikur sér allskyns glæpum ad.

16. Margir ætla fyrst ekki strax, áfellur hefndin sama dags, Drottinn þá aldrei muni meir, minnast á þad, sem gjördu þeir.

17. Því góda trénu þyrmt var síst, þurrum fauskt mun þá bálid víst; hafi Fadirinn hirt sinn Son, hefndar mun þrællinn ega von.

18. Ef nú Guds mildin ástúdlig, óhegnda, sál mín! lídur þig, hans þolinmædi haldtú hér, hjálprædis medal gésid þér.

19. Visnad tré eg ad vísu er, vægdú, réttlætis

Herra! mér, gæðskunnar eikin græn og fín, geymdú mig undir skugga þín.

20. Von er að mér sé mótkast víst, mun eg umflýa dauðann síst, holdið má ei fyrir utan kross, eignast á himnum dýrðar hnoss.

21. Tæpti eg mínum trúar-staf, á tréð, sem drýpur hunáng af, sjón hjartans øllu ángri í, upplýsist nær eg smakka af því.

22. Þegar mér gánga þrautir nær, þér snú þú til mín, Jesú kjær! hjartað hressi og huga minn, himneskur náðar-økvi þinn!

## 33. Sálmur.

### Um Kristí krossfestíng.

Lagið: Kóníng Davíð, sem kénndi.

Kom loks með krossins byrði, Kristur í Hausastað: (ørþjáður frá eg hann yrði) edik galli blandað, honum þeir héldu að: Drottinn vor dýrðar mildi, drekka þó ekki vildi, þá hann smakkaði það.

2. Fals undir føgru máli, forðildar hræsnin ber, vinátta temprud táli, og trúarlaus ýðran hér, edik gall-blandað er, svoddan súrdreggja víni, (þó sjálft glíslega skíni), Herrann hrindir frá sér.

3. Það tek eg víst til þakka, þá þú vilt, Drottinn kjær! súrt með þér sjálfum smakka. Sé þín miskunin skjær, í hverri neyð mér nær! gall-beisk-

ju bølvunarinnar, og bikarinn heiptarinnar, burt-tak þú frá mér fjær!

4. Nakinn Jesúm á jørdu, Júdar krossfestu þar, med heiptar sinni hørdu, hendur og fæturnar, teigt allt og togad var, gékk svo járn-gaddur nístur, gégnum lófa og ristur, skinn og bein sundur skar.

5. Tveggja mordíngja milli, miskunar Herrann hékk, spádóminn frá eg svo fylli, sem fyrr meir um þad gékk, tædir svo Ritníng þekk: þjón minn sá einn útvalinn, er med spillvirkjum talinn, forsmán mjøg þúnga fékk.

6. Nú eg minnist á nærsta, nakinn þá Adam stód, vid tréd med hørmúng hærsta, hjarta-sorg, bøl og mód, því verk hans vóru' ei gód: innvortis ángrid kvaldi, undir trjánum sig faldi; þess galdt øll heimsins þjód.

7. Nú optur Jesús nakinn, negldur á trénu stód, píndur, húdstrýktur, hrakinn, hjartans bar sárann mód, þó vóru' øll verk hans gód: einn fyrir eingum faldist, opinberlega kvaldist, þess naut øll heimsins þjód.

8, Horfi' eg á hendur þínar, Herra minn Jesú kjær! fyrir misgjørdir mínar, meinin slík lidu þær, blód-dreirinn bundi skjær, saurgun sálar og handa, sem mér komu í vonda, af hreint med øllu þvær.

9. Fús var eg fram ad halda, feril glæpanna

hér, þess fætur pínir gjalda, það varð til líknar mér: Drottinn! eg þakka þér, frám á fridarins leidir, fótspor mín jafnan greidir, hédanaf hvar eg fer.

10. Gud gæfi! mitt hold mætti, med þér krossfestast nú, frá øllum íllsku hætti, ók mín er dagleg sú, minn Herra! það veitst þú, uppá það ønd mín kynni, óhindrud gjædsku þinni, þjóna med þýdri trú.

11. Einn med íllrædis-mønnum, allir þig héldu þá, sem í heilagleik sønnum, sjálfur komst himnum frá, nú eg þess njóta má, af því eg er útvalinn, med ødrum Guds børnum talinn, þar treysti eg eflaust á.

12. Eg mun æ medan hjari, minnast á krossinn þinn, heimsins ljúfi Lausnari! lífgar það huga minn, hvert eg geng út eda inn, af innstum ástargrunni, ætíd med hjarta og munni, segjandi hvert eitt sinn:

13. Jesú Kristí kvøl eina, á krossinum fyrir oss skén, sé mín sáttargjørd hreina, og synda-kvittunin, af sjálfnm Gudi sjen, uppá það ønd mín vonar, í nafni Fødurs og Sonar, og heilags Anda', Amen!

## 34. Sálmur.

Fyrsta ord Kristí á krossinum.

Lagid: Lifandi Gud! þú lít þar á.

Þegar kvalarar krossinn á, keira vorn Herra

gjørdu, flatur med trénu lagdur lá, Lausnarinn nidur á jørdu, andlitid horfdi í þeim stad, og augun hans blessud himnum ad, hann stundi' af ángri hørdu.

2. Sinn fadm allt eins og barnid blídt, breiddi mót Fødurnum kjæra, blódid dundi og tárin tídt, titradi holdid skjæra. Hér skoda', madur! huga þinn, hvad kunni meira nokkurt sinn, Drottinn til hefndar hræra?

3. Ovinum fridar blídur bad, brunnur miskunarinnar, hann vill þeir njóti einninn ad, ávaxtar pínu sinnar, sagdi: Fadir, þeim fyrirgéf þú! forblindadir ei vita nú, sjálfir hvad vondt þeir vinna.

4. Lausnara þínum lærdú af, lunderni þitt ad stilla, hógværdar dæmi gott hann gaf, nær gjøra menn þér til illa: blót og formæling varast vel, á vald Guds allar hefndir fel, heipt lát ei hug þinn villa.

5. Þótt þú vid adra saklaus sért, sannlega skalt þess gjæta, samt fyrir Gudi sekur ert, sá á þig frjálst ad græta; illir menn eru' í hendi hans, hirtíngar-vøndur syndugs manns, enginn kann þess ad þræta.

6. Ovinum ills þó óskir hér, ei mínkar heiptin þeirra, ópolinmædi eykur þér, afrækir bod þíns Herra, þú styggir Gud med svoddan sid, samvitskan mjøg þar sturlast vid, tjón þitt verdur því verra.

7. Upplýstú hug og hjarta mitt, Herra minn Jesú sæti! svo að eg dýrðar dæmið þitt, daglega stundað gæti; þeir, sem óforþént ángra mig, óska eg helst að betri sig, svo hjá þér miskun mæti.

8. Heimsins og djøfuls hrekkja-vél, holdið þrálega villa, þess vegna ekki þekki' eg vel, þó nú margt gjöri' eg illa; beri svo til eg blindist hér, bið þú þá, Jesú! fyrir mér, það mun hefnd harða stilla.

9. Eg má vel reikna aumann mig, einn í flokk' þeirra manna, sem í kvølinni þjáðu þig, það vóru gjøld syndanna; en þú, sem bætir brot mín hér, bið þú og líka fyrir mér, svo fái' eg frelsun sanna.

10. Fyrst þú baðst friðar fyrir þá, er forsmán þér gjørðu mesta, vissulega eg vita má, viltú mér allt hið besta; því eg er Guðs barn og bróðir þinn, blessaði Jesú Herra minn! náð kann mig nú ei bresta.

11. Allra síðast þá eg á hér, andláti mínu að gégna, sé þá, minn Guð! fyrir sjónum þér, Sonar þíns pínan megna, þegar hann lagður lágt á tré, leit til þín augum grátandi, vægðú mér þá hans vegna!

## 35. Sálmur.

Um yfirskriftina á krossinum.

Lagið: Náttúran øll og eðli manns.

Utskrift Pilatus eina lét, yfir krossinum standa; Jesús nefndur af Nazareth, nýr Kóngur Gyðinga

landa, (Drottni með sann, Dómarinn fann, dauða sök enga stærri). Margur las það, í þessum stað, Því hann var borg svo nærri.

2. Það var ritað og þanninn sett, í þrennslags túngumáli. Valds = menn Júda það vissu rétt, vilja því Pílatus brjáli; hann ansar greidt, ei skyldi neitt, umbreytt og framar tjádi: hvað skrifað er, skal standa hér. Svo skédi' af Drottins rádi.

3. Var nú á krossi Herrann hékk, hér að, mín sála! gætum, virdíngar titil fagrann fékk, með forprís sakleysis mætum, að hjálpar-fús, heitir Jesús, heimsins Lausnarinn gódi, hverr djøfli frá, oss frelsa má, flekklaus með sínu blódi.

4. Nazarenus hann nefnist þar, náttúru spillíng manna, frásilinn einn að vísu var, velþekka hlýdni sanna, sýndi hann hreint, ljóst bædi' og leynt, lifandi Gudi einum, hans tignar Son, trúr, forsjáll þjón, tryggur í øllum greinum.

5. Kóngur Gydínga klár og hreinn, í krapti gudlegum drottnar, sá Davíds stól skal erfa einn, aldrei hans ríki þrotnar, Israels hrós, heidinna ljós, heitinn forfedrum lengi, svoddan titil, sómdi rétt vel, sál mín! þinn Herra fengi.

6. Svoddan virdíngu vildu hann, vondir Gydíngar sneyda, heiptar øfundin í þeim brann, af því Pílatum beida: ordtak það brádt, á annan hátt,

úrfæra settum máta; hann kvad við nei, því þad vill ei, þeim Drottinn veitast láta.

7. Dramblátum setur Drottinn skamt, med djørfúng sína og hrekki, þeim líðst svo sem hann leifir framt, leingra komast þeir ekki; allt skal mitt traust, efunarlaust, á hans makt jafnan standa, hvad munu mér, þá mennirnir, meiga í nokkru granda?

8. Í þrennslags túngum var þetta skráð, því ad vor Herrann mildi, vildi sín elska, ást og náð, allri þjóð birtast skyldi; hvert túngumál, med huga og sál, heidri þig, Jesú gódi! sem kvølin þín, og krossins pín, keypti frá synda módi.

9. Géfdu ad módurmálid mitt, minn Drottinn! þess eg beidi, frá allri villu klárt og kvitt, krossins ord þitt útbreidi, um landid hér, til heidurs þér, helst mun þad blessun valda, medan þín náð, lætur vort láð, lýdi og bygdum halda.

10. Handskrift var ein yfir høfdi mér, hún mína sálu grætti, ønnur stód, Jesú! yfir þér, sem ángur vors hjarta bætti; Jesú! þú ert, útvalinn bert, undir Kóngsstjórnun þinni, árla og síd, um alla tíd, óhætt er sálu minni.

## 36. Sálmur.

### Um skiptin á Kristi klædum.

Lagid: Hvar mundi vera hjartad mitt.

Strídsmenn þá høfdu krossfest Krist, klædnad hans tóku snart, skiptu í stadi fjóra fyrst, sá

skyldi hverr sinn part, á kyrtil prjónadann ljóst með list, løgðu þeir hlutfall djarft, fólskuverk meðan fullgjørdist, fólkið áhorfði margt.

2. Ritníng sú eina uppfyllt er, áður var þar um skráð: skrúða mínum þeir skiptu sér, skírlega það er tjáð: hlutfallið yfir fat mitt fer, fæ eg þess einninn gáð. Set muður slíkt fyrir sjónir þér, sjá Drottins miklu náð.

3. Nú máttú skilja nakinn var, neglður Drottinn á kross, opinbert sáu allir þar, útrunninn dreyra=foss; svoddan forsmán Guðs Sonur bar, sannlega fyrir oss, hér géfst øllum án hylmíngar, himneskt miskunar hnoss.

4. Kalla eg merki klæðin hans, kristnina' í heimi hér, um fjórar áttir foldar=ranns, flokkur sá dreifði sér; líf=kyrtill þessi Lausnarans, líkuar=orð blessað er, vilji því skipta skynsemd manns, skilníng sannleiksins þver.

5. Ei lét vor Drottinn auðlegð há, eptir í þessum heim, klæðin, sem hann bar holdi á, en hverki gull né seim, þó mátti ei hans móðir fá, hið minnsta' af øllum þeim, illir menn hendi yfir þau slá, aldrei því dæmi gleym.

6. Safna hóflega heimsins auð, hugsýkin sturlar géð: þygg af Drottni þitt daglegt brauð, duga lát þér þar með; holdið þá jørðin hylur rauð,

hlotnast má ýmsum féd, svo þig ei ginni girndin snaud, gæt vel hvad hér er skéd.

7. Strídsmanna heipt og hardýdge, Herrans kvøl gat ei mýkt, þó viti nóg hann særdur sé, sinnid var íllsku-ríkt. Þeir, sem sátækann firra fé, fólsku-verk drýgja slíkt; Gud láti þig ei glæp þann ské, þú gjørir annad þvílíkt!

8. Nakinn á krossi hékkstú hér, Herra minn Gud og mann! fullnadar borgun fengin er, fyrir mig syndugann, þá fórn Drottinn og sál mín sjer, sú gledst en blídkast hann, brúdkaups klædnad tilbjóstú mér, þann besta' eg girnast kann.

9. Hentuglega féll hlutur sá, Herra minn Jesú kjær! þú létst mig aumann finna' og fá, fagnadar ord þín skjær, þeim klædafaldi þreifa' eg á, þegar mig hrigdin slær, straumur eymdanna stødvast þá, styrk nýann hjartad fær.

10. Hér þó nú skipti heimurinn, hlæandi audi, sín, endast sá glaumur eitthvert sinn, þá æfin lífsins dvín; mér láttú hlo'nast, Herra minn! hlutfall nærst krossi þín, svo dýrdar fegursti dreyri þinn, drjúpi á sálu mín!

## 37. Sálmur.

Annad ord Kristí á krossinum.

Lagid: Væri nú Gud oss ekki hjá.

Uppreistum krossi Herrans hjá, hans módir standa

nádi, sverdid, sem fyrr réd Símon spá, sál og líf hennar þjádi, Jóhannes einnig Jesú kjær, jafnt var þar líka staddur nær, gløggt sá ad øllu gádi.

2. Sinni módur hann segja réd: Son þinn lít þú þar kvinna; vid lærisveininn líka med, Lausnarinn blídt nam inna: sjá þú og módur þína þar, þadan í frá (sem skyldugt var), sá tók hana til sinna.

3. Sá sem hlýdninnar setti bod, sinni blessun réd heita, þeim er foreldrum styrk og stod, stunda med elsku ad veita; svoddan dygdanna dæmid hér, Drottinn vor sjálfur gaf af sér, børnunum eptir ad breyta.

4. Girnist þú, barn mitt! blessun fá, bjørg lífs og gæfu sína, foreldrum skaltú þínum þá, þóknun og hlýdni sýna; úngdóms þverlyndid optast nær, ólukku' og slis ad launum fær, hrekkvísa hefndir pína.

5. Ekkjurnar finna einninn hér, ágætis huggun blída; Jesús allt þeirra ángur sjer, umsjón þeim veitir frída, ef þær med hreinum hug' og síd, halda sig Drottins pínu vid, og hans hjálprædis bída.

6. María Drottins módir kjær, merkir Guds kristni sanna, undir krossinum optastnær, ángur og sorg má kanna, til hennar lítur þó Herrann hýrt, huggunar ordid sendir dýrt, og forsjón frómra manna.

7. Pad reynist opt í heimi hér, hlutfall Drottins

ástvina, hörmúnga sverdið sárt þá skér, sæld lífsins gledur hina, hverjir þó Kristum hata mest, hefir það laungum vidgengist, lítt vill því ángri lina.

8. Enn þeir, sem Jesúm elska' af rót, undir hans krossi standa, Herrans blódsami horfa mót, hvern þeir líta í anda, trúar og vonar sjónin sett, sár hans og benjar skoda rétt, það mýkir mein og vanda.

9. Jesús einninn með ást og náð, aptur til þeirra lítur, gefur hugsvölun, hjálp og ráð, harmabönd af þeim slítur, adgætin födurs augun klár, öll reiknar sinna barna tár, adstod þau aldrei þrýtur.

10. Jeg lít beint á þig, Jesú minn! jafnan þá hrígdin særir; í mínum krossi krossinn þinn, kröptuglega mig nærir; sérhvert einasta sárið þitt, sannlega grædir hjartað mitt, og nýann fögnuð færir.

11. Þá eg andvarpa, óska' og bið, augunum trúar minnar, lít eg hvert einast' ordið við, upp til kross-pínu þinnar, strax sýna mér þín sígnuð sár, syndugum manni opinn stár, brunnur blessunarinnar!

12. Gledistund holds þá gefur mér, Guð minn að vilja sínum, uppá þig, Jesú! horfi' eg hér, hjartans augunum mínum, audlegdar gædin líkamleg, láttú þó aldrei villa mig, frá krossins fadmi þínum.

13. Jónas sat undir einum lund, engra meina því kenndi, hádegis sólar hita stund, hann ei til skada brenndi; Jesú kross-skugga skjólið hér, skýlir

þó lángtum betur mér, fyrir Guðs hefndar hendi.

14. Hvert eg sef, vaki, sit, eður stá, í sælu' og hættum nauða, krossi þínum eg held mig hjá, horfandi' á blóð þitt rauða; lát mig einninn þá æfin þver, útaf sofna á fótum þér, svo kvíði' eg síst við dauða.

## 38. Sálmur.

Um brixlin, er Jesús leið á krossinum.

Lagið: Jesús, sem að oss frelsaði.

Þeir sem að Kristí krossi senn, komu og fram hjá gengu, hristu með háðúng höfuðin, honum til brixlis fengu: heitorð sín hefði hann haldið lítt, Herrans musteri' að brjóta, á þremur dögum annað nýtt, efna með byggíng fljóta.

2. Tveir lugu svoddan fals-menn fyrst, fyrir Kaíphas's dómi, af því hafði það útborist, eptir fjölmennis rómi, þessi þó hafi heyrt og sjeð, Herrans jarðteiknir frídar, lýgin þeim betur gafst um géð, gengur svo enn til víðar.

3. Öldúngar landsins, fólkið flest, og flokkur heiðinn stríðsmanna, Herrann vorn Jesúm hæddu mest, með höfðíngjum Prestanna, sögðu: ef ertú Son Guðs kjær, sá þig með krapti stýður, kom þá hér, svo að sjáum vær, sjálfur af krossi niður.

4. Hann, sá eð öðrum hefir hér, hjálpað og læknað marga, megnar nú ekki að sönnu sér, sjálf-

um úr neyd ad bjarga; svoddan hádyrdi, hróp og dár, hlaut þá Jesús ad líða, stód þad yfir um stundir þrjár, stutt var andláts ad bída.

5. Þá fram hjá Kristí krossi nú, kalsandi held eg gánga, sem ekki' af hjartans ást og trú, elska hans pínu stránga, heilagleik sínum hrósa frí, vid holdsins fýsn sig binda, sídan falla ørvænt-íng í, eda forherdíng synda.

6. Ad þínum krossi, Kristí kjær! kém eg, sem einn framandi, géf þú mér leysi' ad gánga nær, géd mitt styrki þinn andi, svo eg hugleidi hvad til kom, hádúng, bríxl-ord og pínu, leidstú mann-gædsku mildin fróm! móti andláti þínu.

7. Sál mín og líf þær sæmdir hlaut, sjálfs Guds musteri' ad heita, í skírninni því eg þín ad naut, þad nam Guds andi veita, sídan hefir þad syndin mørg, sárlega gjørt ad brjóta, holds nátt-úran því elskar ørg, athæfid heimsins ljóta.

8. Á þremur døgum þar á mót, því hét eg mørgu sinni, med ydrun, trú og yfirbót, aptur þad bætast kynni; æ! hvad veitir slíkt ervidt hér, efnin og dug vill þverra, bríxlid, sem til var bú-id mér, bar því Jesús minn Herra.

9. Í velgengninni eg hrósa hátt, hraustleika trúarinnar, í mótlætinu hún bilar brádt, brest finn og stórann hennar, enginn fullkominn á mér sjest,

ávøxtur bygða sætur, bar því fyrir mig bríxlið vest, blessaður Jesús mætur.

10. Hjálpa læst eg með heilnæm ráð, hinum sem illa breyta, sjálfs míns lýta þó sist sæ gáð, svoddan má blindni heita; mér var þar stærsta minkun að, mátti hádyrðum kvíða, burttók nú Jesús bølið það, bríxlin því vildi' hann líða.

11. Jesú! í þínu andláte, yfir þig bríxlin dundu, að svo í friði ønd mín sé, á minni dauðastundu; háðúng leiðst þú af øllum einn, alla frá háðúng leystir, aldrei tapast sá nokkur einn, er nafn þitt uppá treystir.

12. Nær sem hrekkvísra háðúng ný, hjartað mitt sárt vill stánga, undir þinn kross eg feginn flý, fram-hjá skal eigi gánga, þar stend eg kyrr, þó kals og spé, kveiki mér heims óblíða, uppá þig, Jesú! einn eg sje, allt vil eg með þér líða.

13. Fyrst þú varst hæddur, Herra! þá, harmakvøl leiðstú slíka, svo heiðri þig nú héðan í frá, himnar og jørðin líka! allir Englar og øll heims mind, undir þitt vald sig hneigi, og eg þar uppá aum mannkynd, Amen af hjarta segi.

## 39. Sálmur.

### Um Ræníngians yðran.

Lagið: Einn Herra eg best ætti.

Annar ræningiun ræddi, sem refsað það sinn

var, Herrann vorn Jesúm hæddi, hann gaf þetta andsvar: ef þar von er til nokkur, að þú Guðs Sonur sért, hjálpa þér og svo okkur, úr þessum nauðum bert.

2. En hinn þar uppá gégndi: ekki hræðist þú Guð! hverjum straffs heiptin hegndi, hún var rétt forþénuð; við megum vel meðtaka, verka betaling þann, en þessi' er alls án saka; eptir það sagði hann:

3. Hugsa þú til mín, Herra! þá heldur þú ríki þitt; ást Drottins ei nam þverra, andsvar lét heyra sitt: sannlega eg þér segi, (sú er huggunin vís), þú skalt á þessum degi, mér þjóna í Paradís.

4. Sjá hér fyrst straffið synda, sála mín! hrigglilegt, forherðíng hjartans blinda, þó holdið kveljist frekt. Gefðu mér, Jesú góði! eg gégni vel hirtíng þín, með trú og táraflóði, og tjái þér brotin mín.

5. Ræníngjans ýðrun eina, athugum líka með, hann gjörði játníng hreina, hataði íllverk skéð, því sagði' hann væri að vonum, verðlaunin ráng-lætis, ávítun veitti honum, sem vildi' ei gæta þess.

6. Hann trúði': á himnaríki, hefði vor Jesús ráð, þó syndugra sýndist líki, svo treysti á hans náð, með blygðun og hreldum huga, Herrann sín minnast bað, ljúflega lét sér duga, loforð ef fengi það.

7. Hróp og háreysti gjørdu, heidnir og Júdar þar, kríngum krossinn á jørdu, med kals, bríxl og hádúngar, svaradi' ei Son Guds neinu, þó sjálfann þad snerti hann, en syndugs manns ordi einu, án dvalar gégna vann.

8. Sætt mér fyrir sjónum skartar, sæll Jesú! gædskan þín, þér gékk heldur til hjarta, hans neyd enn sjálfs þíns pín; sama hefir þú sinni, vid syndugar sképnur hér, því aldrei elsku þinni, aptur, minn Herra! fer.

9. Illvirkinn hafdi' unnid, ódádaverkin stærst, gøtu glæpanna runnid, greidt fram í daudann nærst: en Jesús ekki vildi, á þad neitt minnast nú, svo var mikil hans mildi; mín sál! þad hugleid þú.

10. Enginn ørvænta skyldi, þó ydrast hafi seint, søm er Guds Sonar mildi, sé annars hjartad hreint, því hvørki vid stadi né stundir, stýlud er Drottins nád, allt fram andlátid undir, oss býdst hans hjálpar-rád.

11. En þú skalt ekki treysta, óvissri daudastund, né Guds med glæpum freista, gjørandi þér í lund: nádar-tíminn sé næsta nógur høndum fyrir; slíkt er hættusemd hærsta; henni Gud fordi mér!

12. Svo margt eg syndgad hefi, sorgin mig sturlar nú, ydrun Guds nád mér géfi, glóandi von og trú. Herra Jesú hjartkjæri! hugsa þú til mín þá, dapur er daudinn nærri, og drag mig kvølum frá!

# 40. Sálmur.

## Þriðja orðið Kristí á krossinum.

Lagið: Skaparinn stjarna, Herra hreinn!

Uppá Ræningjans orð og bón, ansaði Guðs hinn kjæri Son: Þú skalt, sannlega segi' eg þér, sæluvist hafa í dag með mér.

2. Sjáðú með gætni, sál mín kjær! sonn ydran hverju kraptað fær, uppá það dæmið er hér rétt, øllum til lærdóms fyrirsett.

3. Reiði Drottins þá uppegnd er, yfir ránglæti mannsins hér, ydranin blíðkar aptur Guð, ei verður syndin tilreiknuð.

4. Þó komi høstug hefndin bráð, hrein ydran jafnan finnur náð, midt í standandi straffi því, stillist Guðs reiði uppá ný.

5. Samvitsku orma sárin vest, sønn ydran jafnan grædir best, hugsvalar sál' og huggar géð, heilaga Engla gleður með.

6. Bæn af ydrandi hjarta hír, hún er fyrir Guði metin dýr, Herrann Jesús á hverri tíð, henni gaf jafnan andsvør blíð.

7. Sem Móises med sínum staf, sætt vatn dró forðum steini af, eins fær ydrandi andvarp heitt, út af Guðs hjarta miskun leidt.

8. Játníng mín er sú, Jesú minn! jeg er, sem þessi ræninginn, já engu betri fyrir augsýn þín, ef þú vilt reikna brotin mín.

9. Kém eg nú þínum krossi að, kannast þú, Jesú minn! við það, syndanna þúngi þjakar mér, þreyttur eg nú að mestu er.

10. Alnakinn þig á einu tré, út þínar hendur breiðande, sárin og blóðið signað þitt, sjer nú og skoðar hjartað mitt.

11. Par við huggar mín sála sig, svoddan allt leiðstú fyrir mig, þíns hjarta-dreyra heiløg lind, hreinsar mig vel af allri synd.

12. Krossins burtnuminn kvølum frá, Kóngur ríkir þú himnum á; Herra þegar mig hrellir pín, hugsaðu' í þinni dýrð til mín.

13. Segðú hvern morgun svo við mig, sæti Jesú! þess beiði' eg þig: í dag þitt hold í heimi er, hjartað skal vera þó hjá mér.

14. Í dag (hvern morgun eg svo bið), aldrei lát mig þig skiljast við, hugur, sinni og hjartað mitt, hugsi og stundi' á ríkið þitt.

15. Eins þá kémur mín andláts-tíð, orðin lát mig þau heyra blíð: í dag (segðú) skal sálin þín, sannlega koma í dýrð til mín.

16. Herra minn! þú varst hulinn Guð, þá hæðni leiðst og krossins nauð, þó hafðir þú með hærstri dáð, í himnaríki vald og ráð.

17. Dauðanum mót mér bjørfúng ný, daglega vex af orði því, í dag, þá líður ei lángt um það, leidd verður ønd í sælu stað.

18. O Jesú! séu ordin þín, andláts síðasta huggun mín, sál minni verdi sælan vís, með sjálfum þér í Paradís!

## 41. Sálmur.

Það fjórða orð Kristí á krossinum.

Lagið: Af djúpri hrigd ákalla' eg þig.

Um land gjørvallt varð yfrið mirkt, allt nær frá siøttu stundu, sólin því ljóma sinn fékk byrgt, senn til hinnar níundu:¦ Guð minn, (Jesús svo hrópar hátt), hvar fyrir gleymdir þú mér brádt? svoddan, mín sál! vel mundu.

2. Enginn skal hugsa' að Herrann þá, hafi með efa' og bræði, hrópað þannig og horfið frá, heilagri þolinmæði, syndanna krapt og kvalanna stærð, kynnir hann oss, svo verði hrærð, hjørtun frá hrekkja æði.

3. Sólin blygðast að skína skjær, þá Skapara sinn sá líða, hún hafði ei skuld, (það vitum vær), þess voða meinsins stríða; ó! hvað skyldi þá skammast sín, sképnan, sem Drottni jók þá pín, með hrigð og hjartans kvíða.

4. Aví! hvað má eg aumur þræll, ángraður niður drjúpa, þá eg heyri, minn Herra sæll! sú harma bylgjan djúpa, gékk yfir þig, þá galdstú mín; gjarnan vil eg að fótum þín, feginn fram flatur krjúpa.

5. Í ytstu mirkrum um eilífð er, óp og gnístr=

an tannanna, hefndar-stroff það var maklegt mér, fyrir margfjølðann glæpanna; frá því, Jesú! þú frelstir mig, frekt gengu mirkrin yfir þig, svo skyldi' eg þá kvøl ei kanna.

6. Í svørtu mirkri það sama sinn, sorgar-raust létstu hljóma, þá hrópaðir þú mig, Herra! inn, í himneskann dýrðarljóma; í því ljósi um eilíf ár, úthrópa skal mín raustin klár, lof þinna leyndardóma.

7. Synda, sorga og mótgángs með, mirkrin svo opt mig pína, að gløggt sær ekki sálin sjeð, sælu geislana þína; Jesú, réttlætis sólin sæt, syrgjandi eg það fyrir þér græt, harma-raust heyr þú mína!

8. Guð minn! segi eg gjarnan hér, geyst þó mig sorgin mæði, Jesú! eg læri' nú það af þér, það skulu mín úr-ræði, gjørvøll þá heimsins gleðin dvín, Guð minn! eg hrópa vil til þín: Guð minn allt bøl mitt græði!

9. Yfirgéfinn kvað Son Guðs sig, þá særði' hann kvølin megna; yfirgéfur því aldrei mig, eilífur Guð hans vegna, fyrir þá Herrans hrigðar-raust, hærstur Drottinn mun efalaust, grátbreiðni minni gégna.

10. Þá sólarbirtunni' eg sviptur er, sjón og heyrn tekur að dvína, raust og málfæri minkar mér, mirkur dauðans sig sýna, í minni þér,

Drottinn sæll! þá sé, Sonar þíns hróp á kross-
ins tré, leid sál til lífsins mína!

## 42. Sálmur.

### Fimta ord Kristí á krossinum.

Lagid: Eins og sitt barn, Fadir ástargjarn.

J sárri neyd, sem Jesús leid, sagdi hann gløggt: mig þyrstir. Svo Ritníng hrein, í hverri grein, uppfylltist ein; um þad mig ræda lystir.

2. Strax hljóp einn ad, þá heyrdi þad, hitta njardarvøtt kunni, lét á reir-prik, drap í edik, med íllt tilvik; og bar Jesú ad munni.

3. Forundrast má, mín sál! þar á, madurinn hverr þess gjætir, ad hann sem rád, hefir med dád, á himni' og lád, hørmúng þvílíkri mætir.

4. Hann sá sem vín, af valdi sín, úr vatni sætt tilreiddi, med sorgar-skikk, fékk súrt edik, fyrir svala-drykk, þá sárt hann þorstinn neyddi.

5. Því mundi ei hér, til hlífdar sér, Herrann edikid líka, sem vín águætt, gjøra vel sætt, fyrst gat þad bætt, hans guddóms maktin ríka?

6. Komin var tíd, krapta-verk fríd, Kristur ei gjøra skyldi, hin stundin þá, fyrir hendi lá, hrigd, kvøl og þrá, Herrann vor lída vildi.

7. Krapta-verk hrein, kénndu þá grein, ad Kristur Guds Son væri, en kvølin hans, sýndi til sanns, ad syndugs manns, sektir og gjøld hans bæri.

8. Guðs einka Son, gjørdist vor þjón, þá græddi hann mein og kvíða, offurlamb best, hann ordinn sjest, fyrir utan brest, í því hann kvøl nam líða.

9. Af stríði því, sem stóð hann í, styrkleiki manns náttúru, þreytast mjøg vann, því þyrsti hann, þádi vøkvann, þó af ediki súru.

10. Í annan stað, merk, maður! það, og minnst þess hverju sinni; að Herrann Krist, hefir mest þyrst, af ást og lyst, eptir sáluhjálp þinni.

11. O maður! nú, þenk þar um þú, þinn hugur blygðast skyldi; Guð þyrsti hér, að hjálpa þér, en hjartað þitt er, óþyrst eptir hans mildi.

12. Heyr þú, sál mín! talar til þín, trygða brúðguminn góði: þyrstur eg er, í hrigðum hér, svo hjálpi' eg þér, úr hæ'tu kvalanna flóði.

13. Ber honum síst, þess bið eg víst, beiskann drykk hræsnis anda, orðin hans hrein, á alla grein, fyrir utan mein, óbrjáluð láttú standa.

14. Uppá orð þín, svarar sál mín, sorgin þó málið heptir: þyrst er eg nú, og það veitstú, þýði Jesú! þinni miskunsemd eptir.

15. Ekki' er hjá mér, það byrstum þér, þori' eg nú fram að bjóða, nema fá tár, trú-veik, þó klár, sem til þín stár, tak það og virð til góða.

16. Lof, dýrð sé þér, lausn fékkstú mér, og létst

þig svo miklu kosta, hjartað á ný, huggast af því, að eg er frí, frá eilífum kvala þorsta.

## 43. Sálmur.

Sjøtta orð Kristi á krossinum.

Lagið: Allfagurt ljós oss birtist brátt.

Eptir að þetta allt var skéð, ediki Jesús smakka réð, þrótt og lífskrapta þverra fann, það er fullkomnað, sagði hann.

2. Orð þíns Herra með ást og trú, athuga skyldir, sál mín! þú, ef þeirra grundvøll sannann sjer, sæta huggun þau géfa þér.

3. Fyrst skaltú vita' að Guð útgaf, greinilegt løgmál himnum af, hann vill að skuli heimi í, hverr maður lifa eptir því.

4. Algjørt réttlæti ljóst og leynt, líkama, sál og gédið hreint, syndalaus orð og atvik með, af oss løgmálið heimta réð.

5. Hugurinn vor og hjartað sé, í hreinni elsku rétt brennandi, fyrir utan hræsni, bræði' og bann, bæði við Guð og náúngann.

6. Hverr þetta gæti haldið rétt, honum var lífið fyrirsett, en ef í einu út af brá, eilíf fordæmíng við því lá.

7. Enginn maður frá Adam fyrst, eptir þann dag hann syndgaðist, fullnægju gat því gjørt til sanns, gengur það lángt yfir edli manns.

8. Obæríleg var allra sekt, eptir því Drott-

inn gékk svo frekt, annadhvert skyldi uppfyllt þad, eda mannkynid fortapad.

9. Jesús eymd vora alla sá, ofan kom til vor jørdu á, hædum himna upprunninn af, undir løgmálid sig hann gaf.

10. Viljuglega í vorn stad gékk, var sú framkvæmdin Gudi þekk, fødurnum hlýdni fyrir oss galdt, fullkomnadi svo løgmál allt.

11. En svo ad synda sektin skéd, sannlega yrdi forlíkt med, og bølvan løgmáls burtu mád, beiska kvøl leid og daudans hád.

12. Þá hann nú hafdi allt uppfyllt, sem oss var sjálfum ad gjøra skyldt, og bæta øll vor brotin frí, berlega vildi hann lýsa því.

13. Þess vegna Herrann hrópa nam, hartnær á krossi stiginn fram, ad oss í voru andláte, øll hans verdskuldan huggun sé.

14. Svoddan adgæt þú, sála mín! Sonur Guds hrópar nú til þín, hvad þér til frelsis þéna kann: Þad er fullkomnad! segir hann.

15. Fullkomnad løgmál fyrir þig er, fullkomnad gjald til lausnar þér, fullkomnad allt þad fyrir er spád, fullkomna skalt þú eignast nád.

16. Herra Jesú! eg þakka þér, þvílíka huggun gafstu mér, ófullkomleika allann minn, umbæti Guddóms kraptur þinn.

17. Hjálpa þú mér svo hjartad mitt, hugsi

jafnan um dæmid þitt, og haldist hér í heimi nú, vid hreina samvitsku' og rétta trú.

18. Uppá þessi þín ordin traust, óhræddur dey eg kvídalaust, því sú frelsis fullkomnan þín, forlíkad hefir brotin mín.

## 44. Sálmur.

Sjøunda ordid Kristi á krossinum.

Lagid: Herra Gud í himnaríki.

Hrópadi Jesús hátt í stad, holds megn og kraptur dvínar: eg fel minn anda, Frelsarinn kvad, Fadir í hendur þínar.

2. Þú, kristinn madur! þenk uppá, þíns Herra beiskann dauda, ad ordum hans og einninn gá, eru þau lækníng nauda.

3. Jesús haldinn í hærstri kvøl, hladinn med eymdir allar, dapurt þá adgékk daudans bøl, Drottinn sinn Fødur kallar.

4. Herrann vill kénna þar med þér, þín ef mann-raunir freista, gódlyndur Fadir Gud þinn er, gjørir þú honum ad treysta.

5. Fyrir Jesúm þú fullvel mátt, fødur þinn Drottinn kalla; en þó þig krossinn þvíngi þrátt, þad mýkir hørmúng alla.

6. Eins og Fadirinn aumkar sig, yfir sitt barnid sjúka, svo vill Gud einninn annast þig, og ad þér í miskun hjúkra.

7. Einninn sýna þér ord hans klár, ódaudleik

sálarinnar, þó kroppurinn verdi kaldur nár, krenk-ist ei lífid hennar.

8. Hvar hún finnur sinn hvíldar-stad, Herrann sýnir þér líka, hønd Guds þíns Føđurs heitir þad; hugsa um rædu slíka.

9. Viljir þú eptir endad líf, egi þín sál þar heima, undir hønd Drottins hér þá blíf, hans bodord skaltú geyma.

10. Láttú Guds hønd þig leida hér, lífs-reglu haldt þá bestu, blessad ord hans sem bodast þér, í brjósti' og hjarta festu.

11. Hrind þú ei frá þér Herrans hønd, hún þó þig typta vildi, legg heldur bædi líf og ønd, ljúflega á Drottins mildi.

12. Hér þegar mannleg hjálpin dvín, holdid þó kveini og sýti, uppá hønd Drottins augun þín, ætíd í trúnni líti.

13. Ad morgni' og kvøldi minnst þess vel, máls upptekt láttú þína: af hjarta' eg þér á hendur fel, Herra Gud! sálu mína.

14. Svo máttú vera viss uppá, vilji þér daud-inn granda, sála þín mætir miskun þá, millum Guds Føđurs handa.

15. Hún finnur ekkért hrigdar-stríd, hørmúng né mædu neina, í fridi skodar ætíd blíd, ásjónu Drottinn hreina.

16. Eptirtekt mér þad einninn jók, er eg þess

gæta kunni: andláts bæn sína sjálfur tók, Son Guds af Davíds munni.

17. Bæn þína aldrei bygdú fast, á brjóst-vit náttúru þinnar, í Guds ordi skal hún grundvallast, þad gefur styrk trúarinnar.

18. Vér vitum ei hvers bidja ber, blindleikinn holds því veldur, Guds ord sýnir þann sannleik þér, sæll er sá þar vid heldur.

19. Vertú, Gud Fadir! fadir minn, í Frelsarans Jesú nafni, hönd þín leidi mig út og inn, svo allri synd eg hafni.

20. Höndin þín, Drottinn! hlífi mér, þá heims eg adstod missi, en nær sem þú mig hyrtir hér, hönd þína' eg gladur kyssi.

21. Daudans stríd af þín heilög hönd, hjálpi mér vel ad þreja, medtak þá, Fadir! mína önd, mun eg svo gladur deya.

22. Minn Jesú! andláts ordid þitt, í mínu hjarta' eg geymi, sé þad og líka sídast mitt, þá sofna' eg burt úr heimi.

## 45. Sálmur.

### Um Jesú dauda.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Þá Frelsarinn í Födurs hönd, fól nú blessadur sína önd, nidur sitt höfud hneigdi fyrst, Herrann í því hann skiladist. Drottinn vor þanninn dó á tré, dásemd kunni ei meiri ské.

2. Sankti Páll segir í sannri raun, syndarinnar sé daudinn laun, bana-spjót hans eru brotin ljót, bodordum Drottins gjørd á mót, sá skal deyja, sem syndgar hér, soddan úrskurdur réttur er.

3. En þad hér heima átti síst, af því Jesús er saklaus víst, af helgum Anda med hreinum sid, hann var gétinn í meyar-kvid, Guds Fødurs veru fegurst mind, frjáls lifdi' og dó af allri synd.

4. Hverki refsíng né heljar bad, hafdi nú Jesús forskuldad, hvad kom þá til ad Herrann leid, harda pínu og beiskann deyd? eda hvar fyrir hyrtist hann, hegníngar til sem aldrei vann?

5. Guds Andi þar á gjørir skil, greinir þvílíka orsøk til: vegna misgjørda vorra hér, vissulega hann særdur er, því Drottinn lagdi svo fyrir sann, syndirnar vorar uppá hann.

6. Sjá hér, mín sál! fyrir syndir þín, Sonur Guds lídur kvøl og pín, hann dó fyrir þig, sem daudans bad, dárlega hafdir forskuldad hann lét sitt líf svo lifdir þú, lífs eilífs von því áttú nú.

7. Á mig var fallin þýngsta þraut, þvíad eg Drottins løgmál braut, samvitsku særdi synda grád, svo fékk daudinn sterk yfir-rád, til fordæmíngar mér fjoturin hans, fastlega héldu víst til sanns.

8. Løgmál safnadi sektum mér, sektinni daudinn eptir fer, daudinn til dómsins dregur snar, dóm-

vrinn straffið úrskurðar, straffið um eilífð aldrei dvín, eilíf því var hin þýngsta pín.

9. Løgmálið hér sig forgreip fyrst, feldi það dóm yfir Herrann Krist, það bauð: að sá bølvaður sé, sem bana líður á einu tré, djarflega' eptir því dauðinn gékk, Drottinn frá lífi skilið fékk.

10. Sekt þá, sem løgmál setti mér, sjálfur borgaði Jesús hér, það misti sína makt í því, mig verður nú að láta frí, dauðans broddur var brotinn þá, burt hans fángélsi slapp eg frá.

11. Eilífur dauði deyddur er, dauði Jesú það vinnur hér, dýrt metur Drottinn dauða minn, dauði! hvar er nú broddur þinn? dauðinn til lífs nú stutt er stig, stórlega dauðinn batar mig.

12. Dauðinn því orkar einn til sanns, útslokkna hlýtur lífið manns, holdið legst í sinn hvíldarstað, hans makt nær ekki lengra' enn það, sálin af øllu fári frí, flutt verður himna sælu í.

13. Í þínum dauða, ó Jesú! er mín lífgjøf og huggun trú, dásemdar kraptur dauða þíns, dreifist nú inn til hjarta míns, uppá það synd og ílskan þver, út af deyi í brjósti mér.

14. Þú hneigðir þínu höfði ljóst, Herra! þegar á krossi dóst, með því bendtir þú mér það sinn, að minnast jafnan á dauða þinn; eins þá eg dey, skulu augun mín, upp líta, Drottinn sæll! til þín.

15. Fyrir þann deyð, sem þoldir þú, þig bið eg,

Jesú! um þad nú, ad géfi mér þín gœdskan blíd, góda kristins manns dauda tíd, hold mitt lát hvílast hægt med frid, hønd þín sálunni taki vid!

## 46. Sálmur.

Um teiknin sem urdu vid Kristí dauda.

Lagid: Pá linnir hér mín líkams vist.

Þegar Kristur á krossins tré, kannadi daudann strída, teikn og stórmerki mestu ské, mælir svo Ritníng frída, musteris tjaldid mjøg umvendt, í midju vard ad rysna í tvennt, hristist jørd harla vída.

2. Sundur klofnudu bjørgin blá, byrgd leidin opnast fóru, líkhamir daudra lifna þá, lít hér þau undurin stóru, eptir Lausnarans upprisu, inní borgina vitjudu, af sumum þar sjenir vóru.

3. Hvad hér historían hermir rétt, hygg ad því, sál mín mæta! þér til lærdóms er þad framsett, þess áttú vel ad gæta, jørdin skalf þegar Jesús dó, jafnvel þeir hørdu klettar þó, sýndu medaumkun sæta.

4. Steini hardara er hjartad þad, sem heyrir um Jesú pínu, géfur sig þar þó ekki ad, ann meir gjálífi sínu; kann nokkud svoddan kaldt hugskot, Kristí dauda ad girnast not? Gud stjórni gédi mínu!

5. Þad má undra hin þúnga jørd, þreydi ei kyrru' ad halda, blágrýtis einnin bjørgin hørd, bresti lidu margfalda, holdid þó ei né hjartad

manns, hriggist við þinn Skaparans, sem hans þó hlaut að gjalda.

6. Fortjaldið sýnir sannleik þann, sundur þá rysna náði, aftakast skyldi øll fyrir sann, eptir Guðs settu ráði, Gyðínga kynsins kóngleg stjórn, Kénnivaldið og løgmáls fórn, sem Ritníng sjálf um spáði.

7. Hindran réð øllum ætíð stór, inn í Guðs ríki banna, því veldur synda sektin vor, og saurugleikinn verkanna; en fyrir Jesú dýrstann deyð, Drottinn tilbjó oss opna leið, héðan upp til himnanna.

8. Hér í kristninnar helgidóm, høfum vér frelsi' að gánga, þar boðast náð og blessan fróm, burt er þá sorgin stránga, sálin vor hefir búna braut, beint í Abrahams gleði-skaut, eptir heims hørmúng lánga.

9. Frelsarans dauða einninn að, ønduð líkin hér njóta, guðlegur kraptur gjørði það, grafirnar opnast hljóta, því Drottins Jesú dauði' á kross, dauðann sigraði fyrir oss, abl hans og brodd nam brjóta.

10. Merk, að úr jørðu mátti' ei neinn, maður frá dauða standa, fyrr enn téði vor Herra hreinn, hold sitt aptur lifanda, fyrstur allra því uppreis hann, af eginn krapti' og þarmeð fann, endurlausn oss til handa.

11. Höfdínginn krossi Herrans hjá, hér med allt fólkid líka, jafnsnart, sem þetta jardteikn sjá, játníng þeir gjördu slíka: sannlega hefir saklaus hann, og Son Guds verid þessi mann, brjóst slá og brádt heim víkja.

12. Fólkid, sem harda krossins kvöl, Kristi fyrr óska nádi, fann nú hid þýngsta í brjósti böl, heiskleg samvitskan þjádi; ofhastarlegann úrskurd flý, ef þú vilt vera' af sorgum frí, hætt er rasandi rádi.

13. Daudi þinn, Jésú Drottinn! þá, dýrdlegann krapt útsendi, heidnum manni svo hér vid brá, hann þig Guds Son medkénndi. Eg bid gjædskunnar gédid þitt, géf þú vidlifni hjartad mitt, ad svo frá íllu vendi!

## 47. Sálmur.

Um Kristí kunníngja.

Lagid: O Jesú! elsku hreinn.

Kunníngjar Kristí þá, krossinum lángt í frá, stódu med þúngri þrá, þessa tilburdi sjá.

2. Var þar og vidstadt med, ad vísu margt kvennfólkid, sár Jesú fengu sjed, sorgandi báru géd.

3. Af þessu, mín sál! þú sjer, sannlega hversu er, valt allt í heimi hér, haf slíkt í minni þér.

4. Dvínar og dregst í hlé, á daudastundunne, vinskapur, frændur, fé, fallvallt hygg eg þad sé.

5. Þó vildu vinirnir, veita hjálp nokkra þér, vørn þeirra ónýt er, einginn daudanum ver.

6. Lífinu hjúkrar hønd, þá herdir sóttargrønd, hjálpa þó engin ønd, upphugsud rádin vønd.

7. Vinskap í synda síd, sála mín! þess eg bid, haldtú ei verøld vid, viljir þú sofna' í frid.

8. Hreinann vinskap haldt þú, vid Herra þinn Jesúm nú, í hreinni hjartans trú, frá heimsins elsku þér snú.

9. Hann einn má hjálpa þér, þá hjástod mannleg þver, heim þig á høndum sér, í himna sælu ber.

10. Þad hér í sannleik sjest, er Sonur Guds andadest, sorgin þá særdi mest, sem haan elskudu best.

11. Krists børn eru kross-børn, vid Kristum hlýdnis-gjørn, hann sýnir þeim hjálp og vørn, þó hørd sé sútar kvørn.

12. Þú skyldir þar ad gá, þó þeir stædu lángt frá, allir samhuga sjá, Son Guds kross festann á.

13. Komid svo konur og menn, ad krossinum Jesú senn, þó naudin þreyngi þrenn, þar fæst nóg lækníngen.

14. Kom þú, sál kristin! hér, sem kross og mannraunir ber, settú fyrir sjónir þér, Son Guds, sem píndur er.

15. Uppá hans heiløg sár, horfi þín trúin klár,

Það mýkir trega' og tár, temprar allt sorg-ar-sár.

16. Sértú, syndugur mann! særður um hygg-ju-rann, horf þú beint uppá hann, sem hjálp þér á krossi fann.

17. Hverr, sem eir-orminn leit, af Ísraels manna sveit, eitrið ei á þann beit, öll stilltist plág-an heit.

18. Svo stór synd eingin er, að megi granda þér, ef þú á Jesúm sjer, ydrandi í trúnni hér.

19. Sje eg þig, sæll Jesú! svo sem áleingðar nú, bón mína og veika trú, við bið eg hressir þú.

20. Þá sje eg sárin mín, særir mig hjartans pín, sárin þá sje eg þín, sorg öll og kvíði dvín.

21. Lát mig, ó Jesú kjær! aldrei svo vera þér fjær, að sjái' eg ei sár þín skjær, þá sorg og eymd mig slær.

22. Veit mér eg verði' og sé, vin þinn og kunnínge, þó hversi heilsa og fé, hjálp mun þá nóg í té.

23. Eg fel í sérhvurt sinn, sál og líkama minn, í vald og vinskap þinn, vernd og skjól þar eg finn.

## 48. Sálmur.

Um Kristí síðu sár.

Lagið: Uppá fjallið Jesús vendi.

Að kvöldi Júdar frá eg færi, til fundar senn við Pilatum, og þess beiddu' að ekki væri, öndud

lík á krossinum, því hátíðin var harla nærri; hér svo Ritníng greinir um.

2. Stríðsmönnum hann bauð að brjóta, beinin þeirra' og svo var gért, heljar-stund þeir hrepptu fljóta, hinir tveir, sem greini eg bert, en Jesúm létu síns lífláts njóta, limina hans ei feingu snert.

3. Stríðsmann einn með heiptar-hóti, harðlyndur gékk krossi að, Lausnarans síðu lagði spjóti, lagið nam í hjarta stað, blóð og vatn þar frá eg út fljóti, fyrr var áður spáð um það.

4. Umhugað er einum Drottni, allra sinna barna lík, í jørðu hér þótt holdið rotni, huggun traust mig gleður slík, hann vill ei týnist bein né brotni; blessuð sé sú elskan rík!

5. Guð Drottinn með gæðsku ráði, gjørði Adams síðu af, fríða kvinnu fyrst á láði, fast hann þó á meðan svaf, vaknaður þess að vísu gáði, og veglegt henni nafnið gaf.

6. Sofnaður á sinni síðu, sárið Drottinn Jesús bar, svo að af vatni' og blóði' hans blíðu, bygðist heiløg kristnin þar, náði' hún edla nafni fríðu, nær til himna stígin var.

7. Skoða þú hvernig skírnin hreina, skiljast nú með réttu á, að vísu jafnan vatnið eina, vor líkhamleg augun sjá, en trúar sjónin svo má greina, Sonar Guðs blóð þar litur hjá.

8. Æ! hvað má eg sælann sanna, Sánkti Thómas Postula þinn, þá síðu mátti hann sár þitt kanna, sína hønd þar lagði inn! þú munt ei mér þjáðum banna, það að skoða, Jesú minn!

9. Allar Jesú æðar stóðu, opnaðar í kvølinni, dreyra lækir dundu' og flóðu, um Drottins líf á krossins tré, nægð af lausnar gjaldi góðu, Guðs Son fyrir mig lét í tje.

10. En svo eg skyldi sjá og játa, sanna elsku Drottins míns, vildi hann ekki læstar láta, lífs æðarnar hjarta síns, því er, sál mín! mikil úr máta, miskunsemi Lausnara þíns.

11. Opnar dyr á arkar síðu, inn um gengu skepnurnar, sem sjálfur Drottinn bauð með blíðu, bjargast skyldu inni þar, fyrir vatnsins flóði stríðu, frelsi og líf þeim gefið var.

12. Lífsins dyr á síðu sinni, setur Jesús opnar hér, svo ángruð sála aðstoð finni, øll þá mannleg hjálpin þver, hverr, sem hefir þar athvarf inni, frá eilífum dauða leystur er.

13. Nói um sinn arkar-glugga, upp til himins litið fékk, haldinn dymmum hrigðar-skugga, hátt þá vatnsins flóðið gékk, svo hann mætti' um síðir hugga, sólar-ljóma birtan þekk.

14. Gégnum Jesú helgast hjarta, í himininn upp eg líta má, Guðs míns ástar birtu bjarta,

bædi fæ eg ad reyna' og sjá, hrigdar-mirkrid sorgar svarta, sálu minni hverfur þá.

15. Guds var máttug mildin prúda, Móíses þá steinin sló, út til allra Ísraels búda, ágætt svala-vatnid dró, hresti þyrsta, þjáda' og lúda, þeim svo nýja krapta bjó.

16. Þá sjálfur Gud á Sonarins hjarta, sínum reidi-sprota slær, um heimsins áttar alla parta, útrann svala-lindin skjær, sálin vid þann brunninn bjarta, blessun og nýja krapta fær.

17. Vid þennann brunninn þyrstur dvel eg, þar mun eg nýa krapta fá, í þessi inn mig fylsnin fel eg, fargar engin sorg mér þá, sælan mig fyrir trúna tel eg, hún tekur svo Drottins benjum á.

18. Hjartad mitt er, Herrann gódi! hriggilega saurgad mjøg, þvo þú þad med þínu blódi, þess af audmýkt beidi eg, vinni mér bót á mædu og módi, miskunsemin guddómleg.

19. Hjartans innstu ædar mínar, elski, lofi, prísi þig, en hjarta-blód og benjar þínar, blessi, hressi, grædi mig; hjartans þýdar þakkir sínar, þér sé, gædskan eilíflig!

## 49. Sálmur.

Um Kristí greftran.

Lagid: Nú látum oss líkhamann grafa.

Jósepty af Arimathía, edalborinn Rádherra sá,

Gydínga svik við Son Guðs skéð, samþykkt hafði þeim aldrei með.

2 Hann var Lausnarans lærisveinn, lífernis frómur dygða hreinn, Gydínga hræddist heiptar raun, hélt sig að Kristi þó á laun.

3. Þessi um kvøldið þángað gékk, þá af Pílató leyfið fékk, að mætti Jesúm andaðann, ofan taka og jarða hann.

4. Jóseph tók strax af krossi Krist, keypti þó nýann lín-dúk fyrst, Nikódemus kom þegar þar, þángað kostugleg smyrslin bar.

5. Jóseph grøf eina átti þar, útkløppuð sú í steini var, í aldíngarði þar allskamt frá, erginn fyrr dauður í henni lá.

6. Dýrdlega smurðu Drottins lík, dæmin má ønnur finna slík, byrgðu með steini búna grøf, burt gengu strax fyrir utan tøf.

7. María Jakobs móðir ein, Magdalena á sømu grein, Salóme einnin sat þar hjá, sáu vors Herra greftrun á.

8. Í þeirra selskap, sál mín blíð! settú þig niður litla tíð, greftrun þíns Herra gæt vel að, gagnlaust mun ekki verða það.

9. Við Jesú greftrun eg sæ sjeð, Jóseph og Nikódemus með; áður þorðu þeir ekki Krist, opinberlega að játa fyrst.

10. Nú fá þeir næsta nýjann dug, nóga djørf-

úng og styrkann hug, augljóslega svo allir sjá, elsku, sem Drottni høfdu á.

11. Rjúkandi trúar hørinn hér, helgur Andi svo vidnærer, ljómandi þar af ljósid skín, lífgar hann allt med krapti sín.

12. Huggist þeir nú, sem hjartad deigt, hafa og trúar megnid veikt, bidji um styrk og stødugt géd, stundi og læri Guds ord med.

13. Veit þú, Jesú! ad veik trú mín, vaxi dagslega' og elskan þín, eblist svo med mér innvortis, ytra góð sjáist merki þess!

14. Annad þú líka merkja mátt, míslíkar Drottni' á engann hátt, þó heidurleg sé hér á jørd, holdi útvaldra líkfør gjørd.

15. Mætast Guds Anda musteri, manns var rétt-kristins líkami, því má honum veitast virdíng rétt, vel med stillíng og hófi sett.

16. Erfis-drykkjur og ónýtt prjál, ekki á skyldt vid þetta mál, Heidíngja skikkun heimskuleg, hæfir kristnum á engann veg.

17. Ætíd þá sjer þú sálad hold, sett vera nidur í jardar mold, hriggur þú vert og hugsa brádt, hér vid þú líka skilja átt.

18. Lagt þegar nidur líkid sjer, láttú sem daudinn hvísli' ad þér, lángt máské ekki lídi' um þad, legg eg þig eins í slíkann stad.

19. Gódi Jesú! fyrir greftrun þín, géf þú

síðasta útför mín, verði farsæl og friðsøm mér, frelsuð sál nái dýrð hjá þér.

20. Í þriðja máta huggun hrein, hér veitist mér á alla grein; Guðs Sonar hold því greftrað var, greftrun minni til virðíngar.

21. Helgum Guðs børnum Herrans hold, helgaði bæði jørð og mold; grøfin því er vort svefnhús sætt, svo má ei granda reiðin hætt.

22. Svo að lifa, eg sofni hægt, svo að deyja, að kvøl sé bægt, svo að greftrast, sem Guðs børn hér, géfðú, sætasti Jesú! mér.

## 50. Sálmur.

Um' varðhalds mennína.

Lagið: Eins og sitt barn, faðir ástargjarn.

Öldúngar Júða annars dags, inn til Pílatus's gengu strax, søgðu: Herra! vér høfum mest, í huga fest, hvað sá falsari herma létst.

2. Eptir þrjá daga (ódt fyrir sann), uppríſa mun eg, sagði hann; við slíku er best að leita lags, lát geyma strax, þessa grøf inntil þriðja dags.

3. Máské likið með leyndum hljóðt, lærisveinar hans taki' um nótt, og lýðnum segi. Það lyga skin; þá lýtst ei kyn, þó verði sú villan verri enn hin.

4. Pílatus víst þeim varðhald fékk, vaktin strax út af staðnum gékk, grøfinni blifu Herrans hjá, og svo til sjá, settu innsigli steininn á.

5. Gydínga hørd var heiptin beisk, hjartans blindleiki' og villan treysk, þeim kunni' ei nægjast kvöl og bann, sem Kristur fann, líka daudann þeir kásta hann.

6. Fordast þú svoddan sibliska grein, framlidins manns ad lasta bein, sá daudi hefir sinn dóm med sér, hverr helst hann er, sem best hæf gát á sjálfum þér.

7. Gydíngar vildu veita rírd, vors Lausnara upprisu dýrd, en Drottins vald og vísdóms rád, þess vel fékk gád, verk sitt framkvæmdi víst med dád.

8. Hefdi ei vaktin geymt og gætt, grafarinnar, sem nú var rædt, orsøk var meiri ad efast þá, hvert upp réd stá, Drottinn vor Jesús daudum frá.

9. En þeir sjálfir, og er þad víst, upprisu Drottins hafa lýst, þó kénnimenn Júda af kaldri stygd, kvaldir af blygd, keyptu þá til ad bera lygd.

10. Öll svikráð manna' og atvik ill, ónýtir Drottinn þá hann vill, hans ráð um eilífð stødugt stár, og stjórnin klár, slægdin dramblåta slétt forgár.

11. Hvíli' eg nú sídast huga minn, Herra Jesú! vid légstad þinn, nær sém eg gæti' ad

greftrun þín, gleðst sála mín, skelfíng og ótti dauðans dvín.

12. Sektir mínar og syndir barst, sjálfur þegar þú píndur varst, uppá það dýsti, Drottinn kjær! svo kvittuðust þær, hjartað því nýann fögnuð fær.

13. Þú gróst þær niður í grøf með þér, gafst þitt réttlæti aptur mér, í hafsins djúp, sem fyrirspáð finnst, þeim fleygðir innst, um eilífð verður ei á þær minnst.

14. Svo er nú syndin innsígluð, ydrandi sála kvitt við Guð, eilíft réttlæti uppbyrjað, í annann stað, trúuð manneskja þyggur það.

15. Dauði þinn, Jesú! deyði hér, dárlega holdsins gyrnd í mér, grøfin þín hylji glæpi mín, fyrir Guðs augsýn, ebli mér styrk upprisan þín.

16. Stein-þró míns hjarta' úthøggvin sjest, heilagur Andi vann það best, líndúk trúar eg læt í tje, minn Lausnare! ylmandi smyrsl ydranin sé.

17. Svo finni' eg hæga hvíld í þér, hvíl þú, Jésú! í brjósti mér, innsigli' heilagur Andi nú, með ást og trú, hjartað mitt, svo þar hvílist þú.

18. Dýrð, vald, vyrðing og vegsemd hæst, vitska, makt, speki' og lofgjörð stærst, sé þér, ó Jesú, Herra hár! og heiður klár, Amen! Amen! um eilíf ár!

# Sigurljóð

um

# Upprisu

# Drottins vors Jesú Krists

## frá dauðum,

orkt af

Síra Kristjáni sál. Jóhannssyni,

fyrrum Prófasti í Mýra-sýslu og Sóknarpresti til
Stafholts og Hjarðarholts safnaða.

---

Í öllum efnum haf minnisfastann Jesúm Kristum, uppvakinn frá dauðum.

2 Tím. 2, 7—8.



# 1. Sálmur.

Um Jesú dauda og upprisu.

Lagid: Jesú! þín minníng mjøg sæt er.

O! Jesú, Jesú, Jesú minn! eg hefi sjed blód=feril þinn, og hann rakid uppá kross=tréd, ofan sídan í grafar=bed.

2. Eg óttadist nær sál mín sá, Son Guds hángandi krossi á; fyrst eikin græna følnade, falla mundi hid þurra tré.

3. Um Drottins mikla ástarrád, ei fékk eg réttum skilníng nád, fyrr enn Guds Andi andlegar, opnadi fyrir mér ritníngar.

4. Ad af Fødurnum útgenginn, og í heim kominn Lausnarinn, vid heiminn skilja ætti enn, og til Fødursins víkja senn.

5. Hann kom til jardar himnum frá, hann píndist jørdu flatur á, aptur af jørdu upprættur, í jørdunni var greftradur.

6. Ur jørdu sídan upprisinn, af jørd uppsteig í himininn; optar til jardar eins ei fer, í skýum himins jørd dæmer.

7. Stærſta má þykja undur oſs, að Lífshøfð-
ínginn deyr á kroſs; andanna Drottins heilagt
hold, hvílir andvana í djúpri fold.

8. Angraſt Jakob við affpurn þá, að Jóſeph
lífs ei mundi ſjá. Það er elſkunnar einkénni,
að ſyrgja vin ſinn deyandi.

9. Einka vin, Jeſú! ertú minn, eg má hrygg-
jaſt við dauða þinn, meſt af því eg hans orſøk
er, afbrot mín rédu bana þér.

10. Eilíf dauða-ſøk á mér lá; í minn ſtað
gékkſtú, Drottinn! þá, allt ſtraffið tókſtú uppá
þig, og dóſt ſvo, Jeſú! fyrir mig.

11. Hefði vald dauðans haldið þér, huggun
af þínum dauða mér, í mínum dauða ei gjæfiſt,
øll væri ſáluhjálpin miſt.

12. En nú er bana-brodduriun, brotinn og
ſlitin her-fjøtrin, opnuð dýbliſsa, útdregnir, úr
heljar gryfju fángarnir.

13. Jeſús Kriſtur uppriſinn er! Englar og
menn það votta mér. Lengur ekki þeſs lifanda,
leitum í reit framliðinna.

14. Hans grøf leg-ſteinn afveltur er, og allur
þúngi af hjarta mér. Ønd mín viðlifnar andlega,
af trúar-ſjón míns Lauſnara.

15. Þín áſýnd, Drottinn! deyande, døpur og
føl á kroſsins tré, er nú ſkjærari ſól að ſjá, ſíðan
þú uppreiſt dauðum frá.

16. Vort yfirbragð þótt afmindi, eitthvört sinn dauðans harmkvæli, í lífs upprisu verðum vér, vor Jesú! optur líkir þér.

17. Nær augun lykjast líkamans, lítur vor sál þinn dýrðarglans; hold þó jørðunni hvíli í, himneskt vegsemd er búin því.

18. Þú varst dauður, sjá! þú lifir; þau sømu kjør er feingin mér, eg mun lifa (þó eg deyi), í Paradísar føgnuði.

19. Lifandi Drottinn! léna mér, hvørt laung eða stutt mín hérvist er, hlutdeild upprisu fyrstu að fá, friðar afgángi síðan ná.

20. Í sameiníng með sjálfum þér, sætasti Jesú! haldtu mér! ábati dauðinn er mér þá, nær í þér lifa og deya má.

21. Unn mér svo, Drottinn! athuga, upprisu þína og víðfrægja, að túngan mín og sinni sé, samstillt lofgjørðar hljóðfære!

22. Dýrð sé þér, Jesú! deyandi, dýrð sé þér í grøf hvílandi, æra sé þér upprísandi, og eilíflega lifandi!

## 2. Sálmur.

Jesú upprisa er vegsamleg.

Lagið: Sá frjáls við løgmál fæddur er.

Af því vor Jesús leiddi í ljós, líf frá dauðum rísandi, dýrð, vald, kraptur, heiður og hrós, honum ber ævarandi.

2. Sterkur óvinur ſtríddi á, ſterk var harð-neſkjan líka, mikið ſtríðið, en meſtur ſá, er makt yfirvann ſlíka.

3. Vegſemð Davíð af verki bar, varð Golíath ſigraður, Iſaí ſonar íþróttar, Israel naut frels-aður.

4. Dætur Síons í danſinum, um Davíðs arfa ſýngi: dýrſtann vann ſigur á djøflinum, Drottinn vor lífs-høfðíngi.

5. Vín-við Egyptó fordum frá, ſlutti Guð herſkaranna, meður útréttum armlegg þá, eyddi hóp fjandmannanna.

6. Dauðans þrældómi oſs færði frá, Frelſar-inn allra manna, uppríſandi nam niðurſlá, nauða-port helvítanna.

7. Oſpúngir Móſis armlegger, ekki kunnu ſér valda, Jeſús því frægri øllum er, einn nam hann ſigri halda.

8. Grafar vaktarar detta í dá, Drottinn jørð-ina hrærir, Englar boða uppriſu þá, ſem alla gleði nærir.

9. Forſmánar ſlitin ſlíkin er, farinn kroſsins nakleiki, hátignar-ſkrúð vor Herra ber, frá holds-ins numinn veiki.

10. Sinn þá Jóſúa ſigur vann, ſólin kyrr ſtanda réði. Eingann dag ſinnum, utan þann, á hvørjum ſvoddan ſkéði.

11. Betri dag finnum þó enn þann, þann Guð tilbúa rédi, á honum Jesú upprisan, í sigurs vegsemd skédi.

12. Sigur Drottins svo frægur finnst, ad sær hvörgi sinn maka, sigrara eingum svo til vinnst, sigurhróss vegsemd taka.

13. Líf og forklárun Lausnarans, ljær fyllíng allra gjæda, um hans sigur og æru-krans, ei, sem ber, kann eg ræda.

14. Á himni, jörd og undir fold, öll kné þeim Drottni hneigi, sem úr jördunni hóf sitt hold, hédanaf deyr aldreji.

15. Þann, sem míg daudans fjötrum frá, frelsti med lífsins hreysti, stærsta sigrara' eg meta má, makt hans og nád eg treysti.

16. Þó eg senn leggist lík í fold, lúinn af hérvistinni, lát, ó Jesú! mitt hljóta hold, hlutdeild í vegsemd þinni!

## 3. Sálmur.

Jesú upprisa er grundvöllur trúarinnar.

Lagid: Sælir eru þeim sjálfur Guð.

Húss undirstödur hyggnir best, húsa forsmidir vanda, ad hvad helst sem þar á byggist, óhvikult kunni standa; opt steypi-regn og stormur megn, á stóru húsi dynur, best grundvallad, á bjargi þad, bilar samt ei né hrynur.

2. Andleg Guds bygging erum vér, og hús

Drottins lifanda, traustur mátt-stólpi trúin er, tryggilega þarf standa, hjálpræðis á, hellunni sá, heitir svo græðir lýða; yfir stein þann, uppbygdur mann, ekki þarf falli kvída.

3. Gud hefir sjálfur grundvöll þann, gjørt og lagt kristni sinnar, þegar hann gaf oss Gud og mann, af gnægd miskunarinnar, og Jesús dó, upprisinn þó, aptur lifandi sjedur, af englunum og mønnunum, yppursti vegsemd medur.

4. Jesú Kristí upprisa er, undir-rót trúar minnar; eins sem Postulinn auglýser, ord prédikunarinnar, von og trúin, væri þrotin, vélud og ónýt bædi, ef Drottinn sá, ei daudum frá, dásamlega uppstædi.

5. Sérhvørr í Jesú sofnadur, sannlega væri taptur, ef hann píndur og andadur, ei hefdi lifnad aptur; á þana Kristum, ef vér vonum, ei nema hér í lífi, øllum má þá, oss aumri tjá, einkum í daudans kífi.

6. Af trú réttlæting ordin er, oss til réttlætis hefur, dýrstur upprisid Drottinn hér; Drottins upprisa géfur, sønnun um þad, sé nú borgad synda gjald allt, ánægdur, Gud útleiddi af grøfinni, sinn gædsku Son fridþægdur.

7. Kristur píſl sína á krossins tré, kvad fullkomnada vera; þad ord trúna med þeim hætte, því má ørugga géra, ad upprisinn, er Frelsarinn,

og fyrir sjónir leiddur, afmád syndin, eyddur daudinn, og lífsins vegur greiddur.

8. Ef Jesú Kristi upprisu, einhvørr ei trúa rédi, enga huggun né ánægju, enga samvitsku gledi, hafa kann sá, horfinn er frá, himna Guds lífi besta, lídur skip=brot, vid lífsins þrot, lendir í stadnum vesta.

9. Trúar hønd mín þér tekur á, eg tilbid há=tign þína, Drottinn upprisinn daudum frá! dag=lega sálu mína, fýsir tign þá, og fegurd sjá, Fad=irinn krýnt þig hefur, óformyrkvad, augna = ljós þad, unun hjartanu géfur.

10. Kvinnum mætandi kvaddi þær, komnar til grafarinnar, á degi snemma Drottinn skjær, dýrd=ar upprisu sinnar, ótta þeim frá, sló øllum þá, andlegri huggun nádu, lengi veik trú, lifandi nú, Lausnara sinn tilbádu.

11. Mitt vesælt líf í verøld er, vegur til graf=arinnar, sífeldt, ó Jesú! mæt þú mér, med kvedju nádar þinnar, styrk mína trú, ad stødugt sú, stefni á lífsins vegi, sé takmarkid, hefdar = hnossid, høndlad á efsta degi!

12. Líf og upprisa ertú mín, Endurlausnarinn besti! líf fær mín trú af lífi þín, lífgunar = krapt=ur mesti, ædstu þinnar upprisunnar, á mér hríni deyjandi! mín sídarsta, mun upprísa, mig þá verda gledjandi.

# 4. Sálmur.

Jesú upprisa er sannarleg.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Svo sannarlega sem á kross, Sonur Guds deydi fyrir oss, svo víst upprisinn er hann nú, á þessu byggist heiløg trú. Thómas Postuli' ei trúdi um sinn, til eru þó verri dæmin.

2. Þó vér nú augum þessum med, þenna Jesúm ei fáum sjed, sælir í trúar sjóninni, segjast megum og voninni, lifir um eilífd Lausnarinn, lofadur sé hans krápturinn.

3. Eg held ad sønnu enginn sé, hjá oss þeim sannleik neitande, en ef vor trú kann áreitast, atkérid þarf ad vera fast, vanti lampaná vidsmjør á, verda þeir út ad slokkna þá.

4. Enginn sjúkdómur eda neyd, ekkért mótkast í lífi og deyd, svo stórt tilfalla kristnum kann, ad kunni ei Jesú upprisan, sínum med krapti sigra þad, sannleik hennar því dáumst ad.

5. Af því vid Drottinn erum vér, í Jesú dauda forlíkter, í lífi hans vér egum þá, enn stærta lífsins frelsi ad ná; upprisu krapt hans allra best, oss ad þekkja því gagnar mest.

6. Dodni vort megn og dofni hold, deyi líkami og verdi mold, upprisa Jesú orka má, oss daudanum ad kalla frá; sannleika þann oss sanna ber, ad sønn upprisa Drottins er.

7. Jesú upprisu sönnun sjest, af sönnu spádóms ordi best, hún var fordum tíd heiminum, hulin í fyrirmindunum, sagdi fyrir fram sína trúr, Son Guds upprísu jördu úr.

8. Sama skíra hans sveinar frá, samt adrir þeir hann fengu sjá, kallar líka sem konurnar, og Kristi grafar vaktarar; sannleik englarnir sanna þann, ad Sonur Guds uppríſa vann.

9. Fimmsinnum degi fyrsta á, Frelsariun lét sig heyra' og sjá, framvegis líka simmsinnum, á fjörutýgir döguuum; tók sú í burt öll tvímælin, tíufold hans auglýsíngin.

10. Guddómleiki vors Herra hér, hærstur upprísu vottur er; rotnan kunni ei sá ad sjá, sem heilagur var jördu á, Guds Son menn lögdu í gröfina, guddómleg uppreis persóna.

11. Líkama' og sálar sambandid, sundurskeit daudans óf-ríkid, en persónuleg eíngingin, ei mátti sundrast nokkurt sinn. Er persónuleg upprisan, upprísa Gud og madur vann."

12. Upprísa líka Lausnarans, lítut ad medalgaungu hans, annars hefdum ei feingid frid, né födurinn kunnad sættast vid. Kristur leid fyrst og átti inn, eptir þad gánga í himininn.

13. Sína fyrr enn Guds Son fól önd, í síns blessada födurs hönd, allt fullkomnad úthrópa réd, sem afgjört skyldi hans pínu med; gégnum

dauðann til gleði hann, Guðs réttlæti því leiða vann.

14. Af svoddan røkum sjáum vér, sannarlega upprisinn er, Drottinn vor Jesús dauðum frá; dáſemd enn gjørr að ſkoða þá, honum til lofs og heiðurs ber; hann virðiſt þar til ſtjórna mér.

15. Síðaſt géf þú mér, sæll Jesú! sjá og reyna að lifir þú, þegar lífs krapti þínum með, þú opnar svo mitt grafar-beð, að eg til lífs upprísandi, um eilífð sé þig lofandi.

## 5. Sálmur.

Jesú upprisa sannaſt af Spádómunum.

Lagið: Lifandi Guð þú lít þar á.

Spádóms orð forðum lénað lýð, líkiſt blysi ſkínandi; nú er dagſtjarnan dáða fríð, dymm hjørtu upplýsandi. Ritningarnar ransaka ber, réttilega þær finnum vér, oss Jesúm afmálandi.

2. Sinnar upprisu sønnun fann, Son Guðs í ſpádóms-greinum, og þær ſjálfur útþýða vann, ángruðum lærisveinum; þá brunnu hjørtu þeirra fyrſt, þeir trúðu síðan rétt á Kriſt, með áſtar anda hreinum.

3. Fyrſta Guðs náðar fyrirheit, fólgið í ſpádóms orðum, upprisu Drottins um, eg leit, af Móse ritað forðum: Høggorms í ſundur haus molar, heilaga ſæðið kvinnunnar. Ráð það ſtóð rétt í ſkorðum.

4. Margir spámenn um Messíam, mér Drottins ráð tilkynna; einkum þó hjá Esajam, upprisu hans má finna: að nær sig hafi útgéfið, til offurs fyrir mannkynið, skuli hans líf ei linna.

5. Sami Spámaður segir enn: séu þeir helgidómar, og miskunsemdir allar senn, um Krist sem skriftin rómar, í Guðs sáttmála allt staðfest, eilíflega svo viðhaldist. Sú forsögn fagurt hljómar.

6. Þessa máls-grein, það merkjum vér, og mindugleik skriftanna, helgur Páluss sér bagnýter, Herrans upprisu' að sanna: erfða-ríki fékk eilíft sá, upp hlaut því rísa dauðum frá, konúngur konúnganna.

7. Endurlausnarans upprisu, um spáir Davíð líka: Herrans náttúru helgustu, hann tjáir orsök slíka, að mátti ei rotna holdið hans; holdsúa veldur dauðlegs manns, eðlis ránglætið ríka.

8. Fleyri røk mørg hér finnast til, framsøgð í spádóm hreinum; míns Jesú orða' eg minnast vil, mæddum fyrir hans sveinum, hann tér: það á, sem mæltu af mér, Móses, Spámenn og Sálmarner, sannast í sínum greinum.

9. Þitt sannleiks orð, minn sæli Guð! er sannarlegt dýrmæti, gjørvøll þín stjórn er grundvøllud, á góðsemd og réttlæti, þú ert húsfaðir hærsti sá, heimamenn þína er lætur fá, gamalt og nýtt sælgæti.

10. Øll Guds fyrirheit eru já, í vorum Jesú kæra; allar hans spár uppfyllíng ná, af því skyldum vér læra: øllum ad treysta ordum hans, alla snertu þau hagi manns, hreldum mest huggun færa.

11. Svo sem Gud hefir efnt þad allt, er fyrr hét sínum lýdum, eins rætist líka ófallvalt, á hinum seinni tídum, hans ord vora upprisu um; eptir þeim gledi-tímanum, í traustri trú vér bídum.

12. Leid mig, Gud! sannleik allann í, ord þitt svo skilja megi, einnig framleid mig eptir því, á réttum lífsins vegi! gef mér, Jesú! svo þekkja þig, þekkir þú sídan líka mig, á holds upprisu degi!

## 6. Sálmur.

Jesú upprisa sannast af fyrirmyndum.

Lagid: Kristr er komá fyrir hendum.

Þótt heiløg ritníng rædi, reyndar margt efni um, og oss Guds Andi frædi, med ýmsum frásøgnum, af brunni einum flýtur, einn tilgángurinn er, allt til þess eina lýtur, ad Jesúm þekkjum vér.

2. Kjarna Ritnínga kalla, Kristum vorn Jesúm má, yndælt skal oss því falla, opt þær ad heyra og sjá; fórnir fornra sáttmála, frambudu skugga þann, hvørs trúud sérhvør sála, sjed fær nú líkamann.

3. Fyrirmindanna fjøldi, fyllíngu hefir sjed, er á aldanna kvøldi, offrad páskalambed; píndur, deyddur, frá daudum, Drottinn upprísa vann, fékk

oss svo frelsi af naudum, frid = land og himna rann.

4. Fyrirmindun fyrst talda, Frelsarans upp=risu, eg má vel Adam halda, í skøpunar=verkinu; á jørd lá andar = vana, af jørd mindad hans hold, líks Andinn líknesskjuna, lífgandi reisti úr mold.

5. Gjørdist Guds Sonur madur, gésinn oss himnum frá, er ódinn og jardadur, eptir hold=inu sá; eptir andanum aptur, sig endurlífga vann; oss hans upprísu kraptur, eilíst líf gésa kann.

6. Adra fyrirmind innum, upprisu Drottins þá, er á Isaak finnum, og Pálus víkur á; fødur síns hann í huga, hét daga látinn þrjá, Abra=hams trú øfluga, aptur lífs fékk hann sjá.

7. Fyrirmind þridja færist, frelsarans upprísu, úr skordum ei sem bærist, auglýst í ritníngu: þrjá daga bøl þó bidi, í breidt djúp varpadur, frelsi úr fiskjar kvidi, fékk Jónas spámadur.

8. Hulinn í daudans djúpi, Drottinn þrjá daga var, heljar umvafinn hjúpi, í hjarta jardarinnar; aptur í æru = standi, uppriſinn daudum frá, sig á lifendra landi, lét bædi heyrá og sjá.

9. Jóseph bar sút all = sára, settur í fánga rann, hlaut sídan hefd mjøg klára, hann vard lands=stjórnar = mann, frá ángist útgángandi, ædstá

tignar nafn ber, Jesús jafnan ríkjandi, Jakobs húsi yfir.

10. Bygging musteris mæta, má nefna síðara, íminnd upprisu sæta, vors Endurlausnara; hlaut dírð sá helgi staður, hinum fyrra af bar. Frelsarinn forklárdaður, fríðari' enn áður var.

11. Eg hef nóg, eg veit lifir, Endurlausnari minn, mig skal því aldrei yfir, of hast falla dauðinn. Imind upprisu sinnar, æ sýni Drottinn mér! svo megi' eg glaður minnar, minnast nær lífið þver.

12. Í þín herbergi innstu, ó Jesu! leið þú mig, mín í náðinni minnstu, mér leyf að skoða þig, í trúnni á þér taka, ylm klæða sinna þinn, sætt í þér sofa og vaka, sálar unnusti minn!

13. O Davíðs ættarblómi, uppá Guðs hæginn stól, ó Drottins dýrðar ljómi! dag-stjarna skjær og sól, ó minn Jesú ástkjæri! upprisinn dauðum frá, þér eg þakkláti færi, þig prísa, Amen, já!

## 7. Sálmur.

Jesú upprisa fyrirminduð með frumgétningum gamla Testamentisins.

Lagið: Guði sé lof, að nóttin dimm 2c.

Einn frumgétníngur frá dauðum er Frelsarinn, af sínum dauða upprisinn.

2. Frumgétníngs nafn á fyrri tíðum fagurt var, meðal Ísraels ættkvíslar.

3. Atti frumborinn einn tvo hluti í arf taka, mót sínum brædrum samfedra.

4. Einn frumgétníngur eptir fødurs andlátid, tók herradœmi húsđins vid.

5. Hann skyldi millum sinna brædra sjálfráda, arfinum lika útskipta.

6. Fødursins kraptur fyrsti, nefnist frumgétinn; svo kallar Jakob Soninn sinn.

7. Til síns frumgétna sonar œrna elsku bar, fadirinn, svo sem vonlegt var.

8. Ást sína Gud til Israel svo votta vann, sinn frumgétníng hann sagdi hann.

9. Pad kjœrsta' œgyptskum Drottinn felldi í daudans bad, vóru frumburdir þeirra þad.

10. Allann frumburd, hann eignadi sér uppfrá því; í hans stad sídan einn Leví.

11. Frumgétníngur hét fordum, allt hvad af mjøg bar, hvørt heldur gott eda vondt þad var.

12. Ad allrar sképnu frumgétníngs nafn Frelsarinn ber, einkum hans guddóm áhrœrer.

13. En þá frumgétinn af daudum, hann er nefndur, mest ávísast hans manndómur.

14. Um hans persónu eru samt þeir ordshœttir, bádir í ritníng brúkadir.

15. Allrar sképnunnar frumburd Jesúm játum vér, því fyrri' enn sképnan øll hann er.

16. Enn frumgétinn af daudum nefnaſt Drottinn kann, af því ad fyrſtur uppreis hanu.

17. Um ſex manneſkjur ræda' ad ſønnu ritníngar, ádur frá daudum uppreiſtar.

18. En enginn ſlíkra, uppreis þó af egin dád, Lauſnarans fékk þá lífgad nád.

19. Þeir riſu' og upp til þeſsa lífs, og áttu enn, eitt ſinn deyja, ſem allir menn.

20. En vor Jeſús, af eginn krapti' er uppriſinn; deyr aldrei framar Drottinn minn.

21. Einn frumgétníngur af þeim daudu og einn Herra, ſinna daudlegu ſam-arfa.

22. Guds fyrſti kraptur, elſku Son og erfíngi, arfi dýrdar útbítandi.

23. Ad frumgétníngum Guds nú erum gjørdir vér; ſíſt þá virdíngu ſelja ber.

24. Erfdin er ſtór, þar ſiálfur Gud vor arfur er; arfleifd hans Sonar erum vér.

25. Nú, lát oſs, Drottinn! njóta þeſs, ad nefnumſt vær, brædur þíns Sonar, børn þín kjær.

26. Í lífi og dauda er mín huggun, ó Jeſú! ad frá daudanum uppreiſt þú.

27. Mér ſkal ei daudinn haldid géta, heldur enn þér, gladur eg því í fridi fer.

28. Hólpinn i von og ſæll um eilífd ſegjaſt má, ſérhvørr er trú þig ſetur á.

29. Með því þá Drottins ættleidíngur eg nú er, himnanna arfleifð hlotnast mér.

30. Veit mér, Jesú! við von þá lifa og sofna um síð, í dýrð uppríſa á dómsins tíð!

## 8. Sálmur.

Jesú uppríſa fyrirmindud með frumgróða gamla Testamentisins.

Lagið: Á þér, Herra! hef' eg nú von.

Vorri fáfrœði viðhjálpar, vor Guð, nær fagrar líkíngar, uppá hluti há-mæta, fyrir sjónir, oss framleiðir, svo fáum skilníngs gjæta.

2. Andi Drottins sitt orðfærið, einatt lagar að manna síð, og dýrstu leyndardóma, svo upplýs-er að sjáum vér, sannleikans fagur-blóma.

3. Trúar hlýðnin alleina á, að meðtaka lær-dóma þá, er skilníng yfirgánga, svo skyldugur sé hvørr maður, sitt hyggjuvit að fánga.

4. En nær Guðs orð svo uppbirter, eiun leyndar-dóm, að megnum vér, andana gløggt aðgreina, skiln-íng og trú, mátt maður þú, með lærdómi sameina.

5. Enginn heiðinn heimsspekíngur, hefir gétist svo forvitur, alls holds uppríſu að þekkti, sálmuðu þeir einn øðrum meir, aumt hyggjuvit þá blekkti.

6. Samt er náttúru ríkið ríkt, rétt margra hluta er votta slíkt, um víðt veraldar stræti, þau furðu-verk, svo mørg og merk, menn þótt sjaldan aðgæti.

7. Rétt sem af draumi vøknum vér, við oss nær

andinn hræra fer, og upplýsíngu géfur; allt slím dregst þá augunum frá, er þau fyrr blindad hefur.

8. Uppá Guds Sonar upprisu, af sád-lands fyrstu korn = skéru, oss Páluss ímynd færir; um sannleik þann yndislegann, ordum hvílíkum tærir:

9. En nú er Kristur uppri̇sinn, ordinn svo þeirra frumgródinn, sem ad sofnadir eru, svo rísa upp þeir, eins sídar meir, í sinni rød og veru.

10. Svofeldt løgmál Gud sjálfur gaf, sínu fólki, þad skyldi af, landsins føgrum frumgróda, honum ótregt, offur árlegt, um sømu mundir bjóda.

11. Í Prestsins høndur ávøxt þann, afgreida skyldi hvørr einn mann; en hann honum veifadi, sér= hvørja' átt í, og svo med því, sjálfum Gudi helgadi.

12. Allur vard landsins ávøxtur, Ísraels fólki blessadur, eptir offurs-gjørd slíka. Fleiri hlutir ad= hníga hér, hvørra vér gætum líka.

13. Á fyrsta degi umgétinn, eptir Páskadags Sabbathinn, veifunar vidhøfn skédi; sama dag á, vor Drottinn frá, daudum uppstanda rédi.

14. Um heimsins fjórar áttir er, af Drottins þjónum sídan hér, sannleikur sá vídfrægdur, ad upp= risinn, er Frelsarinn, og Gud vid heim fridþægdur.

15. Allur Guds nádar ávøxtur, øllum því verdur blessadur, sem offra Drottni einum, allann gróda, Andans gæda, í trú og kjærleik hreinum.

16. Fræ hefir margt í foldarbed fallid, og mikinn

arð géfið; en í jörð sér þá sáði, einn Guð og mann, uppspretta vann, öll blessan heimsins láði.

17. Í jurta-garði Jósephs var, Jesús grafinn, og gjörðist þar, ágætasta uppskéra. Fyrr né síðan, alls enginn vann, akur svo frjófgun bera.

18. Kvíð ei, sannkristni maður minn! í mold þó sáist líkaminn; verku' í voninni glaður, sem ávöxtur, al-blómgaður, þú upprís forklárаður.

19. Þitt hjarta' ef Drottins akur er, og Andans gróða sætann ber, máttu þar æ við una, þér Frelsarinn, lífsforínginn, farsælir upprisuna.

20. Ó minn Jesú! innplanta mig, aldin-kvist frjófgann svo á þig, að mikinn ávöxt beri! og eilíft líf, eptir heims kíf, í himnaðýrð uppskéri.

## 9. Sálmur.

Jesú upprisa, fyrirsögð af honum sjálfum.

Lagið: Jesús Kristur að Jórdan kom.

Kénniteikn Jesú ástar er, elskendur sína viður, að fyrirfram þeim auglýser, allt hvað heill þeirra styður; einum minna, en öðrum meir, eins og nauðþurftin krefur, og borið géta allir þeir, út-deilt pundunum hefur, vor Guð, sem vísdóm géfur.

2. Alla hvað snertir, öllum hann, án manngreinar tilkynnir, sérílagi þó sérhvörn mann, á sína skyldu minnir, orðskviðu stundum úttalar, optastnær ljóst þó ræðir; eptirlíkíngar ef brúkar, útskíríngu þær gjæðir. Svo Jesús sín börn fræðir.

3. Þegar eidfestum ordum med, eitthvad Drottinn framsetur, oss vill hann hafa uppvaked, ad grunda svoddan betur, svo sem vigtugann sannleika, sem trúar-hlýdni krefur. Efni sama tídt ítreka, ef Jesú þókknast hefur, eptirtekt oss þad gefur.

4. Sannleiks vitni Guds Sonar má, sanuliga heita meira, enn allt hvad mannlig eyru fá, annarstadar ad heyra. Talad af himni ord hvørt er, á jørd sem Drottinn rædir; himni og jørd því heyra ber, hann hvørsu vel uppfrædir, og deyfd andliga grædir.

5. Oss þad gudspjøllin auglýsa, opt Jesús fyrirsagdi, hann ætti deyja' og upprísa, eid þar vid seinast lagdi; skildist hans sveinum þó ei þad, þeim var sú hulin ræda; hvurt fer þú? spurdi enginn ad, uppfyllti hjartad mæda, í stad gledinnar gæda.

6. Holdleg skynsemi er harla treg, herrans ordum ad trúa, frá sinni villu á sannann veg, sér vill ei láta snúa; nokkrir forsmá og lasta' um leid, leidsøgu Drottins anda, heimsku sinnar framhlaupa skeid, hneixlast, treyskir mótstanda, ordi lífsins lifanda.

7. Villtust Gydíngar verst í því, þeir væntu eins Frelsara, sem hafa skyldi heimi í, hátign og mekt ævara, sjálfa vors Jesú sveina þad, súrdeig

innatekið hafði, þeir sukku því í sorgar-bað, svo þá örvænting vafði, í gröf þá Guð son tafði.

8. Þegar Jóhannes línløk leit, liggjandi í grøf-inni, ei fann þó Jesúm í þeim reit, einkum féll honum í sinni: mundi af høndum manna hann, með leind burt tékinu vera; skriftirnar þá ei skilja vann, er skyldi hann samanbera, og rétta grein á gera.

9. Stólpar Guðs kyrkju staðfesting, sterkustu þurftu hljóta, sem báru hans orð um heimsins hring, hvørs enn vér sáum njóta. Að Jesús dó, sáu' ótal menn, yfir því hugann kjættu; en að hann væri upprisenn, all-fáir leingi sættu, móti því margir þrættu.

10. Flærð Jesú munni engin í, er fundin nokkru sinni; hann er trúr vottur, høfum því, hans vitnis-bur í minni; náð á hans varir úthellt er, er hun-ángi sætara, orð hans í hjarta og munni mér, mér skal ekkért ljúfara, enn taka á því vara.

11. Segir oss til þess sannleikann, son Guðs, að honum trúum, óstraffað líðast ekki kann, ef baki að ljósi snúum; spornum því myrkra villu við, vors Jesú orðin lærum, um morgna, kvøld og mið-degið, með þeim sálina nærum, ávøxtinn af þeim færum.

12. Eins fyrirsøgn, sem uppfylling, upprisu, Jesú! þinnar, er míns hjarta endurnæring, einka-

líf trúar minnar. Fyrr ſkulu himnar forgánga, enn falla á jørdu kunni, ordin, ſem gjørdir út-tala; Er því ſkyldt þeim eg unni, þau hafi í minni og munni.

13. Hvad ſkal mitt ſtilla harmaſtríd? hvad daudans ſeſa kvída? hvør er mín dirfd á dómsins tíd? Drottinn! þitt ordid blída. Mælgi heims víki mér í frá, minnſt henni því eg ſæti; vardhaldi mínu eg ſtend á, orda míns Jeſú gæti, þau eru mitt eptirlæti.

14. Lof ſé Gudi, er lét mig ſjá, lífs-feril orda ſinna; lof, Jeſú! ſem mig leyſti frá, lífs ſtraffi ſynda minna; lof helgum anda, er lét hjá mér, líf andlegt kvikna, hræraſt; lof þrenníngunni, er ſvo um ſjer, ſama líf kunni næraſt, til lífs eilífs framfæraſt!

## 10. Sálmur.

Jeſú upriſa bodaſt af Englunum.

Lagid: Upp, upp, mín ſál.

Ekki veit eg, hvørt eginleg, Englar Guds heiti bera, heil fáa þá, í helgri ſkrá, heyri' eg nafngreinda vera; andar heita, edlis þeirra, er þar vid kénndur blómi; en engils nafn, þeim er ſamjafn, embættis tignar ſómi.

2. Andar Guds þeir, einn ødrum meir, med erindum hans fara, ydjuſamer, umfylkja ſér, útvaldra Drottins ſkara; ſamlags þjóna, ſanntrúadra,

sig vilja nefna láta, yfir-kóng sinn, einn Jesúm minn, allir tilbidja og játa.

3. Tíusinnum helst tilnefnum, trúlyndann engla skara, hafa stundad og hátignad, hér á jørd, vorn Lausnara. Sjálfs holdtekníng, sídan fæding, Sonar Guds votta nádu. Jósèph prisvar, jafnframt englar, Jesúm í draumum tjádu.

4. Eptir skædar yfirunnar, óvinarins freistíngar, dýrra engla dyggiliga, Drottni þéntu fylkingar. Þá vid daudann stríd hádi hann, heilags engils styrk þádi; eins steini' er lá á grøf, þar frá engill burtkasta nádi.

5. Nád vísdóms var, ad votta' englar vors uppprisu Frelsara, og føgnud þann, frábærastann, fyrst byrta kvenna skara. Svo hátígna, sannleiks-boda, syni Guds brúka hlýddi; sigurs lýsíng, sigur-vinníng, sigrarans þvílík prýddi.

6. Sídarst englar, nær svo ad bar, son Guds til himna vendi, létu sig sjá, ljós-klæddir þá, í Lausnarans erindi. Háir vottar, herrans tignar, hjartans þá ebla kæti, ad uppprisinn, fyrir almátt sinn, er vor Frelsarinn sæti.

7. Eru vitrir, Guds englarnir; ekki kunnu gløggvara, ord lífsins tjást, sem ad má dást, enn af þeim dýrdar skara. Er því mín trú, innsiglud nú, uppá þau sannleiks mæti: ad uppprisinn, fyrir almátt sinn, er vor Frelsarinn sæti.

8. Af náð það var, engla friðar, oss Guð nú senda hefur, að boði þeir, einn öðrum meir, orð lífs, sem nœga gefur, svölun þyrstum, saðning öllum, sem girnast það réttlœti, er upprisinn, fyrir almátt sinn, ávann Frelsarinn sœti.

9. Allt mannkyn lá, í dauðans dá, Drottinn minn Jesú blíði! einn bróðurinn, ei kunni hinn, úr því að frelsa stríði, þá vannstu oss, þau vœnstu hnoss, von lífs og allt sœlgœti, einn upprisinn, fyrir almátt þinn, Endurlausnarinn sœti.

10. Dauf var tíð sú, Drottinn Jesú! dauðinn þig lagði' í jörðu, hrœðslu slegenn, eg hugsa enn, hvað syndir mínar gjörðu; nú ljómar hér, náðudum mér, nýrrar gleði sól aptur, fyrst upprisinn, fyrir almátt þinn, ertu, minn lífsins kraptur!

11. Lát engla þín' önd sæla mín, er eg dey, til þín flytja; sá maktar her, sem meður þér, mun enn í skýin vitja, mig uppvakinn, ó, Jesú minn! æ hœgra veg þér leiði; mér þín ásjá á móti þá, miskunar faðminn breiði!

## 11. Sálmur.

### Jesú upprisa vottast af kvinnunum.

Lagið: Gleð þig, Guðs Sonar brúð.

Drottins upprisu dýrð, af Drottins englum skírð, var fyrst kvinnum komandi að Kristí gröf, sýnandi. Opnaður er lífs vegur, uppreis Jesús dýrðlegur.

2. Eins sjálfur auglýstist, upprisinn Jesús fyrst,

aumstøddum ýmsum konum, áður enn Postulunum. Opnaður er lífs vegur, uppreis Jesús dýrdlegur.

3. Þær litu hann lídandi, líka framstígandi, grøf hans vidstaddar vóru, vid það heim grátnar fóru. Opnadur er lífs v., u. J. d.

4. Smyrsli tilbjuggu best, býdandi' um løgmáls frest, árla dags enn hans vitja, adrir um kyrrt þá sitja. Opnadur er l. v., u. J. d.

5. Sá sinnur, sem leitar; sinn Jesúm, kvinnurnar fagnandi finna nádu; fregn þá hans vinum ljádu. Opnadur er lífs vegur, u. J. d.

6. Vitska Guds, vor Jesús, veglegt byggdi sitt hús, støpla hjó hagri hendi, hollar þernur útsendi. Opnadur er lífs vegur, u. J. d.

7. Ut til enda jardar ei gengu konurnar, ødrum fyrr út þó báru, upprisu Jesú kláru. Opnadur er lífs vegur, u. J. d.

8. Drottins rád dásamt er, Drottinn lætur veik kér, stólpa Guds kirkju stydja, nær styrks þeir kunnu ei bidja. Opnadur er l. v., u. J. d.

9. Konur boda Kristum, Kristi sjálfs Postulum; væn kér vegsemdarinnar, virding kynslódar sinnar. Opnadur er lífs vegur, u. J. d.

10. Kvenndygda háleitt hrós, hér færist í sitt ljós, þar ástríkis alvara, er blídlyndi samfara. Opnadur er lífs vegur, u. J d.

11. Þó vída vari rót vanørkud, beisk og ljót,

mörg (frá' eg) mjög ylmandi, millum þyrna rós standi. Opnadur er lífs vegu, u. J. d.

12. Anda Guds útheltt var, opt yfir konurnar, ment, spádóm, mörg vísindi, menn trú' eg hjá þeim finndi. Opnadur er l. v. u. J. d.

13. Gulls nægd og gérsema, Gud lét þeim tilfalla, virdíngar hærstu hlutu, heil ríkin ad þeim lutu. O. er l. v., u. J. d.

14. Eva braut allra mest; en þad lagfærdist best; María vard Guds módir, sem minn er ordinn bródir. O. er l. v., u. J. d.

15. Andlega umskornar, Israels konurnar, Páskalambs neyta nádu, nád fyrirheita þádu. Opnadur er lífs vegur, u. J. d.

16. Af konum er tekin, andleg samlíkíngin, uppá Krists elsku, mædur, unnustur, systur, brædur. Opnadur er l. v., u. J. d.

17. Góð kona' er gledi manns, gæfa og æruskrans; hún kann hann hólpinn géra, hennar má ei án vera. O. er l. v., u. J. d.

18. Merkid slíkt, kvenna kyn! kjósid Jesúm ad vin, elsku hans aldrei týnid, elskuna honum sýnid. Opnadur er l. v., u. J. d.

19. Elskid unnusta þann, ydur trúlofadann, út til hans gánginn greidid, greida lampa tilreidid. Opnadur er l. v., u. J. d.

20. Fætur hans frída tídt, fadmandi kyssid

blídt, þá hreinum hvoid tárum, þerrid hár=lokk=um klárum. Opnadur er l. v., u. J. d.

21. Krýp eg med kvinnunum, ad Kristí fótun=um; hvørgi mun hann af sinni, hrekja mig fótskør=inni. Opnadur er l. v., u. J. d.

22. O! Jesú ástrike! ønd mín þín brúdur sé, hér þér vid hønd standandi, og hvervetna fylgjandi, í dýrd svo uppríßandi, eg sé med þér ríkjandi.

## 12. Sálmur.

Jesú upprisa vottast af hans Postulum.

Lagid: Gædskurikasti Grædari minn.

Drottinn Jesús upprisinn er! ødrum fremur Post=ularner, sannleik þann í ljós leida; engum var bodid, útan þeim, um gjørvallann ad ferdast heim, ord lífsins út ad breida; Guds nád, gód dád, þeim var lént, sem þókti henta þeirra verki, and=legt stríd hádu Krists undir merki.

2. Um borgirnar í Israel, erindi nádar fluttu vel, Drottins Postular dýrir; undir þá stund, sem upprisinn, inntók Guds Sonur himininn, aptur þeim augljóst skírir, ad þeir, enn meir, jardar venda ættu' ad enda og kunngéra, líf hans, og upprisu vottar vera.

3. Af heiminum sér útvaldi, og víni sína kall=adi, vor Drottinn votta slíka; uppljómadir af And=anum, ekki þurftu sig hugsa um, andsvør né ord=gnótt ríka; hreßar, þeßar, Herrans vóru, hetjur

stóru, í hvörskyns, raunum, höfdu sjón trúar á himna launum.

4. Þeir fengu Jesú sár ad sjá, sem øll forklárud urdu þá, er hann uppreis af dauda, hans máttu þreifa holdi á, honum. eta. og drekka hjá, og heyra Hyrdir sauda, gladdir, saddir, Krists med gædum, krapt af hædum, kjærstann fengu, hugstyrkvir, sídan um heiminn gengu.

5. Allt ráð Guds. nádar í Jesú, alla verkandi sanna trú, ritad og rædt þeir hafa; í nafni. Jesú upprisna, uppreistu þeir og framlidna; allann af tóku vafa, um þann, ædstann, lífs sannleika, von sem veika, er vidréttandi, upprisinn Drottinn, sé æ lifandi.

6. Gud lagdi í sølur Soninn sinn, seldur þræls gjøldum Lausnarinn, oss keypti arfleifd bestu; Jesús úthellti sjálfum sér, sendir vóru Postularner, sem lømb, til varga vestu. Hér má, hvörr sjá, ekkért spardi. øllu vardi, oss til góda, alvaldur Fadir heims allra þjóda.

7. Oss hefir Drottinn uppbygda, yfir grundvøll Postulanna, hvörn Spámenn løgdu líka; hyrníngarsteinn vor Herra er, sem hvörutveggju samtengir, Guds húsfstjórn, gædskuríka. Hálmstrá, hér á, hvörr sem breidir, eldur eydir, øllu hans verki; dagurinn vottar þau vegs. um-merki.

8. Géf mér, Jesú! ad gégna þeim, sem géfa

réttann enn um heim, vitnisburd verka þinna; þitt sannleiks ord, mitt sælgæti, sé og veri á jördunni! vel mun þá lífid linna; unn mér, í þér, lída, þreya, lifa, deyja, líka' upprísa, um aldir alda, þig elska' og prísa!

## 13. Sálmur.

Á degi sinnar upprisu birtist Jesús fimmsinnum.

Lagid: Dagur er, dýrka ber.

Dagur skein, daudans flein, Drottinn afbraut, upprann sólin, yfir bólin al=heims, leiddi sinn Lausnarinn, laus vid hel=sút, líkama, lifanda, líka' úr grøf út.

2. Litu menn, línløkenn, liggja í grøf kyrr, lík umvøfd' sem Herrans høfdu hulid; létu þar, ljóss=englar, líka sjá sig. Eins engin, er grøfin, ordin veglig.

3. Mjøg árla, María Magdalena, fyrst af øll=um konum og køllum, Krist leit upprisinn; í þad sinn ei þó mátti, honum vid hræra, bid hafa átti.

4. Géds úr reit, grátinn sleit, gledi=sjón sú; ødrum skjæra føgnud færa, hún fór þann. Birt=ist enn, Son Guds senn, svønnum hinum, sem þenna sannleika, søgdu' hans vinum.

5. Pridja sinn, þann daginn, þykir líkast, hafi Pétri í hyggju setri hrelldum, birtst. Jesús fridar=fús, fékk þá hreina bót madur brotlegur beiskra meina.

6. Fengu tveir framar meir ferdamenn hann, í Emaus, er vor Jesús inngékk, heyra' og sjá þeir hann þá þekktu', er braud braut; vid þann fund veittist lund værd, en naud þraut.

7. Um kvøldid allir vid, er hans sveinar rædd-ust, hræddust Júda brædi og svíksemd, inn Jesús í lukt hús, ekki' um dyr þó, veik í mid fullann frid færdi' og hugró.

8. Veika trú, vor Gud nú vidurkveikti, dýpstu sára sín forklárud ør øll sýnandi, sannadi sig lif-anda, en opnadar undirnar oss þær standa.

9. Sé þitt géd sorgbited, syndugi mann! veikl-ist trúin, verdi lúin von lífs; dæmid hér dýrdlegt þér Drottinn sýnir, hjálp sé nærst hrigd þá stærst hug þinn pínir.

10. Þegar bøl þýngst og kvøl, þoldi Jesús, blessudum undum blód úr hrundi heilagt; dreyra þann, sinn med sann, Son Guds nam trúr, fjør-auka, forklára, færa jørd úr.

11. Nú þad blód, ndbar-sjód, nægstann játum, synd hreinsandi, mein mýkjandi mannkyns; svøl-un fær, sá sem nær, svoddan lífs lind, er hér nú opnud sú, allri mannkynd.

12. Líf og ljós, hlíf og hrós, hæli, skjól, frid, lækníng minni sál' og sinnis svølun, yndi, nád, alla dád, eilífs lífs trú, í þínum undunum, eg finn Jesú!

13. Opt fyrir, augum mér, eymda minna, allra handa opnar standa undir; sjái eg klár, Kristi sár, kvein og mein hver, full-tryggur frí-stadur, fundinn þá er.

14. Himnum á, sælir sjá, sárin Drottins, hans útvaldir ótalfaldir flokkar, sjálfir hann, sanna þann, sem var dáinn, upprisinn, inngenginn í Guðs himin.

15. Skodun þá, skýin á skyggja holds nú; en það bætist, upp nær rætist øll synd. Yndis rós, augna-ljós oss sé fridfús, lífgadur, ljósfagur, lof-sæll Jesús!

## 13. Sálmur.

### Sjøtta auglýsing þess upprisna Jesú.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Eptir daga átta sídan, upprisunni sjálfri frá, sig vor Drottinn birti blídann, brædra sinna flokki hjá. Thómas ádur var ei vid, vor Jesús þá stód í mid, fridnum lýsti, sárin sýndi, svofeldri því blessun týndi.

2. Guds samkundu enginn ætti, í vantrú sig draga frá, af því slíkum helst med hætti, Herrans nálægd tapast má. Upp ad leita einn saudinn, ei þó spari Hirdir minn, ad hann finnist og frá vanda útleidist, kann hæpid standa.

3. Nidur-radad Herrann hefur, hjálpar veg og medølin, efni' og krapta øllum gefur, inn ad gánga í víngard sinn, hvørr þeim máta hverfur frá,

hvørgi von hans nádar á. Med ordinu mildur allar, minn Gud til sín þjódir kallar.

4. Jafnt á nóttu dymmri' og degi, Drottins ordid birtu lér, lampi fóta, ljós á vegi, lýsi-gulli skjærra er; leidar-stjarnan sæla sú, svo vegvísad gétur nú, ad oss myrkur engin fángi, eda' af rétt-um villi gángi.

5. Sá einn Gudi sínum unnir, sem hans hefir ordin kjær, má ei duga, margt þó kunnir, médan trúar hlýdni' er fjær, fromir trúdu fédur því, Frels-arinn kjæmi heiminn í; hann er kominn, honum trúum, hjarta og sinni til hans snúum.

6. Ef á Jesúm enginn trydi, utan þeir honum tóku á, mjög þunnskipad mundi lidi, míns Guds vera í heimi þá. Herrann sá hvad hagadi, hér bót meinum lagadi, hønd í sídu sína ad leggja, sjálfur réd því Thómom eggja.

7. En þú Drottins ei mátt freista, of-frekt voga nád hans á, né í þánka þeim hughreysta, þig, syndari! hédan í frá, ad hvørnig sem ad þú fer, einhvørnveginn bjargi' hann þér; ydrún, trúin, eginlegur er þér lagdur hjálpar-vegur.

8. Sist vill Drottinn syndugs dauda, samt ei dregur naudugann, hér nokkurn í húsid sauda, himins né í sælu rann; hann þá Paulum høndlad fékk, hvørgi þessi til ráds gékk, vid sitt hold og blódid blinda, bráda gjørdi ydrún synda.

9. Aðferð slíka einn Guð setur, einasta í valdi sér, alla hluti gjört sem getur; gefið hefir orð sitt mér, að mín trú þar af kveikist, og vorn Drottinn Jesúm Krist, andlega hér eg nú sjái, á hans beinum þreifa nái.

10. Drottinn minn og Guð minn góður, geymi vantrú mig svo frá, að hans sannleiks orða sjóður, eg á meðan lifa má, yndi sé og auður minn! annast, Jesú! sauðinn þinn, ef af réttum vík eg vegi, vitja mín svo glötist eigi!

11. Náðin Kristí góð oss geymi, Guðs kjærleiki og sameining, Anda Drottins, hér í heimi, hjá oss veri allt umkring! dýrð sé, Faðir þýði þér! þér lof, Jesú! segjum vér, vér þér, helgi-vöndum Andi! virðing, heiður, ævarandi!

## 15. Sálmur.

Jesús upprisinn kom um luktar dyr.

Lagið: Heiður og háleit æra.

Heyrn og sjón, háleit meiga, heita vit skilníngar, og nafn það einmidt ega, af því sálarinnar, ráðdeild gegnum þau gengur, geta skilníngs vitar þessir ei þénað lengur, þá öndin fráhvarflar. Sálin heyrir og sjer, sálur verkfæri hér, eyrað og augað er.

2. Igegnum eyrun veitir, andinn lífs-straumunum, heyrnin andleg þá heitir, menn hlýðnast Guðs orðum. Andleg sjón, glöggvast getur, greint sannleik villu frá, heitir hjartað aðsetur hreinnar trú-

ar, sem þá, samþykkir sannleikann, sig reidir uppá hann, hann stundar, honum ann.

3. Kvikna trú af heyrn ætti, enn þótt sjálfann hlutinn, ytri augunum mætti, ekki sjá madurinn, hnýsir trú einføld eigi, í Guds leyndardóma; eins kann almættid vegi, alla færa gjøra. Um lukt hús inngánga, í sønnum líkama, hægt var lífs Hertoga.

4. Holds vit, þó hér til segi: hvørnig má þetta ské? sønn trú, efast aldreji, um Drottins stórmerke. Ef skaptir andar géta, um slíkann farid veg, krapt Jesú minna meta, má hvørki þú né eg. Andlegir upprisnir, eru líkamarnir, til andlegs al=hæfir.

5. Sá allt med sínum krapti, sér nú undirleggur, allt í øndverdu skapti, alleina voldugur, sá ed sín gégnum klædi, sinn krapt útgánga lét, um vídt veraldar svædi, vera nálægur hét; hví mundi hann mega, hindra nein torfæra, um lukt hús inngánga?

6. Dásamt vor Drottinn hefur, Davíds lykla=valdid, inngáng og útfør géfur, einnig um járn=hlidid; allt sem dyr opnast hlýtur, øllum hans vilja senn, fyrir honum útflýtur, fjall hvørt, sem straumurenn; braut, gégnum heil húsin, hafid og vatns=føllin, hann leggur út og inn.

7. Eg hef þá huggun sæta, Herra minn Jesú kjær! í øllu' er mér kann mæta, mér sértu ætíd

nær; innilykjast kann elgi, eg svo í nokkrum stad, ad þín miskun ei megi, mig heimsækja þángad; slótti né fjøtrarner, frábægja þér ei mér, æ hvar eg er og fer.

8. Helst til opt hjarta mínu, hefi' eg læst fyrir þér, ástar ávarpi þínu, ekki tekid sem ber; þó þín spor þekktust eigi, þá ertú samt kominn, á huldum einatt vegi, ó Jesú! til mín inn; ordsins dyr opnader, og trúar hlidid mér, nád, rád og frid færder.

9. Inngáng né útfør sinnar, æsi, neinn vitad fær, á jørd ánaudarinnar, er margur háski nær. Frá allskyns eymd og voda, er Jesús vegurinn; hann bid eg, hugga, stoda, heimfæra lýdinn sinn, um daudans audveldt hlid, og sídan lífs portid, í himins fullann frid.

## 16. Sálmur.

Jesú Lærisveinar vóru hryggvir og hræddir.

Lagid: Mitt hjarta hvar til hryggist þú.

Herrans Postular hrædduſt þá, hann þeim uppríſinn birtist hjá, bodandi fullann frid, ángur þeirra ofmikid, ei hans rødd nú kannadist vid.

2. Af því Drottinn þeim óvart þar, inn um lukt hús nú kominn var, ofmjøg vid øllum brá, ætludu sig anda þá, engil edur forinju sjá.

3. Mannlegt hjarta er mjøg óstillt, um marga

hluti dæmir villt, víni í vatn breyter, sorg af gledi sér gjörer, svo fór þessum Guds mönnum hér.

4. Fyrst Jesú ástar ávarpid, í og med hvörju hann gaf þeim frid, fékk þeim ei gledi um géd; hvad mundi þá hafa skéd, hördum ordum einsömum med?

5. Syrgjandi hjarta ei særa ber; sorg í brjósti, Mara vatn er, sem þarf ad gjörast sætt. Mega svida meinin hætt, mjúkum plástrum helst verda bætt.

6. Adferd þá Jesús elskadi, og hana sjálfur brúkadi, vid sína sveina hér; undir sýndi og sídan tér: sjáid mig og þreifid á mér.

7. Eg em þad sjálfur, sagdi hann; sorg og ótti þá réna vann, tæp var samt trúar dád, er þeir gátu ekki í brád, um líf Jesú skilníngi nád.

8. Þeir vildu ei, dáid hefdi hann, hans upprisu þeir vildu sann, fullann og allann fá, þeim var ekki þverúd hjá, þeir vildu hann lifandi sjá.

9. Þegar kvöl sína og krossins deyd, Kristur þeim sagdi, og hitt um leid, ad mundi' hann upprísa, af þeim sannleik ypparsta, ekki neitt þeir kunnu skilja.

10. Eins þá Jesús upprisinn var, og þeim þad hermdu kvinnurnar, sögn þeirra sannlega, héldu nokkrir hégóma, hræddust þar af sumir líka.

11. Látins Jesú þó leitudu, líka mest um hann töludu; þeirra rækt þar má sjá, höfdu naudugir honum frá, hörfad fyrri daud-hræddir þá.

12. Það sinn, mót Drottins vilja ei var, við hann þó skilduft Postular, fordandi sjálfum sér; áttu fjør-ráðs fjøtrarner, falla þá hann einann yfir.

13. Að þeir hneixluðust á honum, að þeir gleymdu forsøgnunum, um hans embætti og stand, það var synda þeirra grand; þó brast ekki kjærleikans band.

14. Hitt má vel skilja, að Herrann sinn, hvørn þeir forlétu blóðstorkinn, fánginn og fjøtraðann, mundi strax ei þekkja þann, þá hann litu forkláraðann.

15. Nú var og sinnið sundrandi, sárlega mikill kvíðbogi, fyrir grimd Gyðinga, sem þeir vissu si-felda, síns Meistara ofsóknara.

16. Þó bar til ángurs þetta mest, þeir høfðu sinnis augun fest, heims-tign síns Herra á; en nú þókktust allvel sjá, enda-kljáða vonina þá.

17. Í øllu þessu elskunnar, enn lifðu hjá þeim glæðurnar, følskvi þó félli á. Sem fyrr Jakob, þeir ei þá, þekktu Drottinn standa sér hjá.

18. Hér af má ráða, hvør sú var, harðúð sem Drottinn ávítar, sveinunum sínum hjá; var íllvil-jans það ei þrá, það var trúar seinlæti þá.

19. Ó! hvað vor hjørtu eru veik, æ! hvað trúin fer mjøg á reik, áður rétt innrætt þó; eins sem skip á ólgu-sjó, er vor hvikul géðsmuna fró.

20. Upphroka þarf sér enginn mann, af sjálfri sér, er náttúran, fráhverf og fá-vita, Anda Drottins optlega, ekki lætur við sig ráða.

21. Mikla ángursemd margur bar, sem minni gledi fyrrtur var, enn Herrans sveinar hér. Ef vorn Jesúm elskum vér, afsjón hans, sverd bitrasta er.

22. Ottablandin nær er vor þrá, ei er vonlegt, ad høfum þá, rúm bestu ráð-deildar. Eykur køsin ángistar, opt þad, sem fyrr gledilegt var.

23. Í allrahanda ótta' og þrá, alla stund, Jesú! vertú' oss hjá, allt svo vel afrekum, alla gledi, upprisnum, øllum géf oss med þér sjálfum!

## 17. Sálmur.

Jesús lætur þreifa á sér, ad hann hafi hold og bein.

Lagid: Géf þinni kristni gódann frid.

Eg em þad sjálfur, Son Guds tér: vid sína lærisveina, um mig þreifid, svo ekki hér, ydar neinn þurfi meina, hafid sjed einn Anda' alleina.

2. Hefir ei Andi hold né bein, sem hér mig bera sjáid; ad mín persóna heil og hrein, hér sé nálæg, adgáid, um mig trú, svo fulla fáid.

3. Þótt eginlegur øndunum, einhvørr líkamsˊ meinist, holdlegra manna høndunum, hann snerta ófært reyniſt; hold frá anda, gløggt því greinist.

4. Manns hafa andar mind birtst í, med skrúd hervopna' og klæda, holdlegir vóru ei þó af því, þeir, sýndust fædu snæda. Hér Raphaels hneig ad ræda.

5. Andana hrædast ekki ber, allir þeir gódu oss

stydja, géta ei hinir grandað mér, um Guðs varðveitslu að biðja, þegar sífeld er mín ydja.

6. Guð er einn Andi, og Jesús, er Guð sífeldt blessaður, Herra sá allrar hjálpar fús, hér gjørdist sannur maður, svo er Guð oss sameinaður.

7. Mátti því snerta holdið hans, hans lærisveina skari, að holds og blóðs, hann er til sanns, eins og vér hlut-takari, oss náskyldur nauðhjálpari.

8. Andlega þreifar enn í trú, ekki neitt hinum síður, ástúðleguſtum á Jesú, allur sannkristinn lýður; hold og blóð sitt, hann oss býður.

9. Á Jesú þreifum almætti, og miskun hvørs daglega, sem allt sefar vort andstreymi, allann bætir vorn trega, að oss hlynnir alla vega.

10. Af holdi' og beinum eru hans, allir, sem mega heita, límir andlegir Lausnarans, lofar hann þeim að veita, náð af náð og líknar leita.

11. Holdið beinunum hulníng lér, hylja þau merginn líka, sem kjarni þeirra og kraptur er. Kénníng heimfæri eg slíka, uppá Guðs Son gæðſkurlka.

12. Kjarna ritnínga køllum vér, Kristum, og hulld Manna; alvitsku fólgnar auðlegðer, á hans manndómi sanna, sjást til fulls í sal himnanna.

13. Heilt er ekkért á holdi mér, hvørgi friður í beinum; hold og bein Jesús heilagt ber, hann er bót synda meinum, reynd hlíf, mót Guðs reiði fleinum.

14. Oss samlíkjast í øllu vann, ad fráskildri syndinni; hvørja þó bar á holdi hann, hrjádur mjøg í kvølinni, vorkynnir því vesæld minni.

15. Míns Jesú telja mátti bein, þá mæddi hann pínan skjæda, min, því ei týnast mega nein, mun hann þau holdi klæda, og andlegu edli gæda.

16. Hvad sém mitt hold í heimi kann, hrjá nú og beinin lýja, hér med sídarsta hold-súann, hvørn ekki má umslýja; hann því snýr í heilsu nýja.

17. Hægann þá tekid hefir mitt, hold í jørdunni dvala, en mun þad Jesús, eins sem sitt, uppvekja' og þannig tala: kom mitt barn! til Kóngsins sala.

18. Andlegt verdur þá allt mitt rád, aptur þó holdi' eg skrýdist, andlegt líkamans afl og dád, andlegri dýrd hann prýdist, Andi og hold vel þá samþýdist.

19. O Drottinn! geym, sem augastein, ønd mína hvørju sinni, mitt vidkvæmt hold og veiku bein, vef þú í umsjá þinni, á gjørvallri vegferd minni.

20. Andi' og líf, Jesú eru mál, í anda krapti samin, andi guddómur, andi sál, andlegur hans líkaminn, minn hann príjar andi, Amen!

## 18. Sálmur.

Jesús upprisinn segir: eg em þad sjálfur.

Lagid: Hvad sem þú, mann! vilt hafast ad.

Eins sem Gud þad hann átti best, og unni mest, í upphafi veganna, sinn einka son ástúdlegann, út-

gefa vann, til lífs og lausnar manna; svo hid kærsta, sitt og dýrsta, líf lét í té, látinn á tré, Guds Son í gjøld syndanna.

2. Auglýsti Jesús uppristinn, ad fullkomin, frid-þægíng fengin væri; eg em hér sjálfur, sagdi hann, sem stríddi og vann, herleidíng fángna færi. Nú heyrum hér, hvørt nafn sá ber, er oss frid fann, Jehóva' er hann, Frelsarinn heims frábæri.

3. Þú varst og ert, munt vera enn, um eilífd senn, einn Drottinn ædst tignadur; þad sem þó ekki þú varst fyrst, þú hér gjørdist, í guddóms eiṅíng madur; sálu lagder þína frá þér, og aptur tókst, þín æra jókst, uppreist svo forkláradur.

4. Eg em voldugur, audugur og forvitur, svo kunna laúngum segja, metnadar-gjørnu mennirner, meinandi sér, allt vald egi ad hnegja; en eitt hár svart, ei kunna bjart, þó gjøra þeir, þeir eru leir, allsþurfar út af deyja.

5. Mikla Niníve matti sig, mælti þannig: eg er og engi fremur. Ad géta sagt: eg em ríkur, allt of-margur, ófrjálst sér aud-safn temur. Af sjálfum sér, enginu neitt er, sæld, vøld og seim, sem fæst um heim, dapur burt daudinn nemur.

6. Sjálfann mig vel þó segi' eg um, síst hug-anum, varanligann frid færir; samvitskan móti sjálfum mér, sitt vitni ber, mig sekann mjøg ákær-ir; sjálfs víti vest, eg veit mín flest, mér sjálf-

um hjá, þó minnst kann fá, þá bót, sem þeim fortærir.

7. Sjálfs vitni Jesú sannlegt er, svo trúum vér, að til nafns síns hann svari; sjálfur því vild' hann segja það, sem mest reið að, hann væri heims Frelsari. Annar enn hann, gat enginn þann, himninum frá, hér jörðu á, fært sannleik frið-boðari.

8. Miskun Guðs skugga ei ber á, oss ljómar hjá, réttlætis sanna sólin; þann fordum hulda fáum nú, í fullri trú, nálægjast náðar-stólinn. Sjálfur Jesús, vor hjartans hús, inngenginn er, aptur hjá sér, oss friðar opnar skjólin.

9. Sjálfann mig þegar sje eg á, eg sje mér hjá, synd, vesæld, sorg og dauða. Sjálfann Jesúm þá sjeð eg fæ, sje eg og næ, albata allskyns nauða; hollt haglendi, hægt rennandi, vatns-strauma mér, og vidgáng lér, sá hyrðir Herrans sauða.

10. Í hvörskyns ótta, hrygð og neyð, hvar sem mín leið, liggur, líf meðan treinist, min hreysti, vígi og mitt athvarf, sem með eg þarf, minn Jesús mér æ reynist; nær að eins hann eg hef sjálfann, allt hefi' eg þá, sem orka má, að vel minn vegur beinist.

11. Fyrst eg sjálfum mér ekkért er, allt vertu mér, sigurvegarinn sæti! ef mér førlast að þekkja þig, þekktu samt mig, neyð mína náð þín bæti!

annarlega ei lát draga, mig þér mind frá, mér gef þig sjá, í lífsins eptirlæti!

12. Sjálfur em eg þín sálu von, seg þú, Guðs Son! sífeldt við sálu mína! sjálfur mér nærstur sértú þá, mitt síðarst á, líð fjør í dauða dvína! önd mín seger; ó, Jesú! þér, sjálfum eg ann, líf sjálft eg fann, fyrir forþénun þína.

## 19. Sálmur.

Sjøunda auglýsing þess upprisna Jesú.

Lagið: Faðir á himna hæð.

Upprisinn sig enn sjá, sveina lét Jesús þá, sem voru sjø að fiska, við sjó Galilæiska.

2. Þeim sømu þriðja sinn, þá birtist Lausnarinn; annars menn alls sjøundu, auglýsing þessa fundu.

3. Á vín-tréð innrættar, úngviðis greinirnar, ef frjófgnn ega' að bera, án ræktar mega ei vera.

4. Eitt eptir annað sinn, upprisinn Lausnarinn, trú-veikum sínum sveinum, sig birti í manndóm hreinum.

5. Sýndi líkama sinn, sinn gaf vitnisburðinn, með uppfræðíng ordanna, og verkum dásemdanna.

6. Við sjáar síðuna, Son Guðs stóð alleina; af því ei var af degi, albjart, þeir þekktu hann eigi.

7. Á trúar augun hér, opt margann skugga ber, sem í rádgátu sjáum, síðar skin betra fáum.

8. Lífsins uppspretta er, ó minn Drottinn! hjá

þér, gleður ljóss gæðsku þinnar, gjørvøll kjør ydju minnar.

9. Hvør helst er vinnum vér, verk, sem nauðsyn tilber, og hvað í herrans nafni, vér høfum fyrir stafni.

10. Drottinn oss eflaust er, ekki síður enn hér, nálægur, bjørg að bæta, blessa, auka og sæta.

11. Skortur er leti laun, laungum skérst þar á raun; sífeldt gott egum ydja, einkum þó vaka og biðja.

12. Iðjunnar ávøxtinn, úthlutar gjafarinn, mjøg lætur marga reynast, miðlar hjálp bestu seinast.

13. Fiski-drátt, máltíð með, minn Jesús gefa réð, sínum svoinum þurfandi; svo þeirra verk blessandi.

14. Á lífi og sálu leið, Lausnarinn allskyns neyð; sál vora og líf að leysa, líf sitt upp gjørði reisa.

15. Líf og sál léna vann, líf og sál geymir hann, líf og sál læknar, nærir, líf og sálu framfærir.

16. Líkjast sjó miklum má, mannkyns hérvistar þrá; einber ersiðis dagur, er gjørvallur lífs hagur.

17. Eitt kallar afgrunn hátt, til annars dag sem nátt, afgrunn bøls opt sem dunar, til afgrunns Guðs miskunar.

18. Opt gjørast efnin vønd, ó Jesú! þinni hønd, uppljúk þú oss að blessa, ønd og líkama hressa.

19. Ønd og líkami er, eins náskyldt, Jesú! þér, viltú jafnt velferð beggja, vilt þeim gott allt tilleggja.

20. Hold og önd hefir skapt, Herra! fyrir þinn krapt, ad hlutdeild hafa kynni, í himna farsælduinni.

21. Og þó manns andi sé, ædri' enn hans líkame, vel ad bádum samt verdi, vilji þinn er'algérdi.

22. Sálu, Gud! metta mín', med sætleiks ordi þín', dýrst hold og dreyrinn skjæri, Drottins míns hana næri!

23. Líf mitt svo lídi' ei naud, léna mér báglegt braud! umsorgun alla mína, eg géf í forsjá þína.

## 20. Sálmur.

### Samtal Jesú vid Símon Pétur.

Lagid: A Gud alleina.

Svo Jesús sagdi: Símon! elskar þú mig? játadi ad bragdi, Jóna son því um sig. Hyrd þú hjörd mína, honum baud Drottinn þá; þæga fylgd þína, þú skalt mér líka tjá, svo máttu' helst sýna, þér sé mín elska hjá.

2. Oss elskad hefur óforþént, Gud og mann; ást sú útkrefur, elskum vér líka hann. Gud móti manna, mikils straffs verdleika, sýnir þeim sanna, sína ást daglega. Dýpt audæfanna, er Drottins mann-elska.

3. Einn ekta vinur, elskandi sífeldt er, þá þraut á dynur, þíns brádurs ástsemder, fær þú helst finna; Frelsarinn elskar þá, sem ást hans sinna, sinn krapt þeim vottar á, lætur böl linna, leysir neyd allri frá.

4. Þís undangenginn er hann um kjærleiks slóð, hans ástar engin, eld sloktu kvala slóð. Þeir Herrann hata, sem hann ei ddtt elska, hans huggun glata, honum sig afsala, í afgrunn hrata, ef þannig burt deyja.

5. Elska, ó madur! af hjarta Jesúm þinn, hans svo hug-gladur, hér smakkir sætleikinn; spyr sjálfs þíns sinni, hvørt sé kjærleiki sá, eins øndu þinni, ætíd stadfastur hjá? í eilífdinni, ást hans svo megir ná.

6. Fúsir fylgjendur Frelsarans, elska hann; sé þeim kross sendur, sér leggja á herdar þann, Kristi knýjandi kjærleiki léttbæra, ætíd gjørandi, er þeim hans byrdina, á lífsins landi, launin þeir medtaka.

7. Ef hinn Alvísi, einhvørs mig spyrja fer, mitt mál auglýsi, minn þánka, vild hans er. Gott er ad géta, Gud minn! sagt, elska' eg þig, þinna framfeta, fús em bodorda stig, og mest þig meta, mín unun hjartanlig.

8. Vikur af vegi, Guds vina' og bodorda, sá er sinn eigi, sannelskar náunga. Eitt ást-fúst sinni, eins og fyrr hefir skéd, má med tídinni, mýkja síns fjandmanns géd, hans heipt svo linni; þad hefir og Gud bodid.

9. Af øllu hjarta, ønd, kroptum, hugferdi, skal til Guds skarta, vor skjæri kjærleiki; ást vor of-

veika, ekki samt forþéna, kann hans kjærleika, kénniteikn Guds vina, reiknast, ad reika rétt-leidi' hans bodorda.

10. Guds elsku eldur, í oss svo lifa á, ad undanfeldur, enginn sé tími frá, þenna prí-eina, og þad honum tilheyrer, hans ordid hreina, helgidóm og tídir, megum víst meina, ad mest oss elska ber.

11. Ást Drottins alla oss færir nytsemi; frá henni' ad falla, er fárlegt skadrædi; allt Guds atlæti, øll trú á Jesúm Krist, øll andans kjæti, øll von um himna-vist, allt lífs ágæti, er tapt ef hún missist.

12. Þad Herrans hjardar, hirdarar! merkid þér, einkum um vardar, ad elskum Jesúm vér; og þótt útbreida, ættum tvær hendurnar, og láta' oss leida, til lífs aftekníngar, gáng þann ad greida, Guds nád þá tilhjálpar.

13. Nú nádar-sjódur, nógur fyrst gésinn er, ljúft, hollt lífs fódur, lømbunum Jesú ber; ást hans ásysi oss, vora prýda stétt, veg réttann vísi, vid takmark fyrirsett, svo sæla oss prísi, sem þjóna' er gjøra rétt.

14. Drottinn deyjanda, djúpt syrgdu vinirner; líf hans lifanda, í lífi og dauda ber, oss hans elskara, enn fremur gledji þá; hans því vel vara, vináttu tøkum á, og enn heitara, hann elskum hédan í frá.

15. Elskunnar ørmum eg vef, minn Jesú! þig, kyss kossi vørmum þíns kjærleiks aptur mig, veit mér svo vera, sem villtu, Drottinn minn! þá þjáníng bera, sem þér er gédfeldin, og allt þad géra, er prís vídfrægir þinn.

## 21. Sálmur.

Attunda Jesú anglýsíng fyrir 500 brædrum.

Lagid: Náttúran øll og edli manns.

Omøguligt kann ekki þeim, almáttka Drottni vera, sem gjørdi' af engu heilann heim, hlutina alla' ad bera; ei sídur þá, hann orka má, af litlu stórt framleida, af fræ-korne, þó fyrst smátt sé, fullkomna eik tilreida.

2. Drottins þótt hafi nád æ ný, nóg bodist øllum þjódum, þunnskipad samt hans akri í, opt var kornstaungum gódum. Var alls átta, í ørk Nóa, eitt sinn Guds flokkur valinn, og sjø þúsund í annad mund, Israel líka talinn.

3. Yfrid fá-mennur Abram gékk, út af Kaldæa landi, afkvæmi hans þó frjófgun fékk, fór lengi dag vaxandi; frá kyni því, Guds kynníng ný, kom í heiminn gjørvalla; andliga þá, arfleidslu má, ómetanliga kalla.

4. Upptok kristninnar ærid smá, á Jesú døgum vóru, eins sem mustards-korn á ad sjá: en hans fyrirheit stóru, um vøxt hennar, til upphæds-

ar, og fjølgun þúsundfalda, framkomu skjótt, hún fékk lífsþrótt, fyrir kraptinn alvalda.

5. Meir enn fimm hundrud fengu' í senn Frelsarann brædur líta, eptir þad hann var upprisenn, ei þurftu lengur sýta; eins sem þessir, eflaust margir, á hann þá trúdu fleiri, senn eptirá, sem ord Guds tjá, enn vard sá flokkur meiri.

5. Brædra nafn kristnir bera menn, børn Guds og arfar heita; andleg skyldar þá einíngen, innbyrdis fridar leita. Búi saman, einn vid annann, í ástríku samlyndi, Gud áßjer þad, gédjast þar ad, géfur því lífi yndi.

7. Vors brædralags er virdíng rír, vandfenginn tryggur fridur. Ef traudt forlíkast tveir eda þrír, tekst fjøldanum þad midur. Kaíns edli í kristninni, kveikir øfund mannskjæda. Ismaels lund, heims alla stund, efni géfur vandræda.

8. Ef Son Guds blygdast ekki vid, oss sína brædur kallo, blygd er oss frá hans sinni og sid, sem ættlerar, ad falla; viljum vér þó, oss veitist ró, í vegsemdar heimkynni, samlyndir hér, fyrst verdum vér, ad vera' á umferdinni.

9. Auglýsíng Jesú áttunda, í Galílæa skédi, á fjalli nokkru einstaka, ádur sem Drottinn tédi. Hvørt Tabor þar, þetta fjall var, þó menn ei vita kunni, í fullnógra, Krists upprísa; er stadfest votta munni.

10. Galílæa sú heidna hlaut, heillir síðurstu tída, þá hún Jesú náviftar naut, og nádar ljóss-ins frída. Sama oss hér, þó séum vér, synir heidinna manna, er ljós tendrad, vér egum þad, allir med þøkkum sanna.

11. Drottnari fjalla' og dala er, dýrdligur vor Lausnari, allstadar þeim sig auglýser, sem eru' hans helgur skari; ef býdur hann, veg ørdugann, eg skuli til sín feta, sinn krapt þá lér, hann sjálf-ur mér, svo mun eg þetta géta.

12. Eymda dalurinn er mitt ból, eg hann tár-unum sái, upphædanna þá sønnu sól, sem fyrst eg líta þrái; er búinn þar, unadsemdar, øllum Guds børnum stadur, gáng láti minn, greidast þar inn, Guds Son Jesús blessadur!

## 22. Sálmur.

Níunda Jesú auglýsing fyrir Jakóbó.

Lagid: Sælir eru þeir allir nú.

Einn af grøsinni útgenginn, almættis kraptinn hefir sinn sýndann, Guds Sonur kjæri; ein María sannadi' og sá, Símon Pétur einn eptir á, ad hann upprisinn væri. Einn Jakob Paulus um-talar, af hvørjum Drottinn sjedur var, fyrr enn upp fór í hædir; en hvar sú skén auglýsíng er, er vér níundu køllun hér, heiløg Ritníng ei rædir.

2. Ad Zebedæí sonur hér, sem stærri Jakob nefndur er, ei muni skiljast ega, heldur Alphæi arsi

sá, er bródur Drottins kalla má, rétt sýnist ráda mega. A hinu festist hugurenn: Herrann Jesúm sjá kunna menn, hér, med hætti þrefölldum, til bata edur bana sér, berleg þess dæmi höfum vér, á öllum heimsins öldum.

3. Einum líkamans augum med, all-margir Jesúm fengu sjed, og honum ekki trúdu. Innra manns jafnframt augum þann, adrir litu heims Frelsarann, í fadm hans ástar flúdu. Þá þridju sæla segja má, sem ei hann sjá, þó trúa á, þad sálar augad eina, er ljós andliga líkamans, leidandi hjarta' og sinni manns, á braut sannleiksins beina.

4. J ordi' og Sakramentum er, útvortis birt-ur Jesús hér, ad dýrum allra kémur; en sú innri auglýsing hans, í hjarta og sálu trúads manns, einn snertir ödrum fremur. Med upplýsing í and-anum, adstod í rauna vandanum, og hugar helgri kæti, ef Guds kærleiki í oss er, ó, madur krist-inn! þér og mér, sig birtir Drottinn sæti.

5. Manni verdur opt mönnum ad, mikil hug-svölun, reynist þad, helst þá böls bodar rísa; sumt leynist þó í sinnu rann, sem vareygdin ei má né kann, ödrum neinum auglýsa. Einn Jes-ús þekkir allt og sjer, einn tryggur vinur reyndur er, einúngis ad gódfýsi; einmana sála! innbjód þú, einum honum med bæn og trú, í hjarta þíns ein-hýsi.

6. J einrúmi fékk optast sig, auglýst fordum tign

voldulig, vors Drottins vinum sínum. Hvar helst, madur! sem einn þú ert, æ til stunda, vel hæfur sért, Gudi ad gédjast þínum; einn er ei sá, sem hann ér hjá, einíngu má oss þeirri frá, einlæti ekkért slíta. Einn þó forláti allir mig, einasti Jesú! bid eg þig, í likn til mín ad líta!

7. Upprisinn Jesús auglýsist, enn í dag, nær hann tekur vist, í hjartans húsi þínu; þegar hans Andi yfir þér, er stjórnandi, þú sjer hann hér, rádandi ríki sínu. Lít eg í þínu ljósi þig, lifandi Drottinn! ásjá mig, í miskun alla vega, um daudans skugga-dal mér lýs! í dýrd sæ eg þá, nær upprís, ad sjá þig eilíflega.

## 23. Sálmur.

Tíunda Jesú auglýsing á Olíu-fjallinu.

Lagid: Uppá fjallid Jesús vendi.

Uppá fjallid Olíu greina, ædstur Jesús vikja réd, Bethanía menn þad meina, muni kallad takmarked, líka sína lærisveina, lét sér Drottinn fylgja med.

2. Um Guds ríki enn rædandi, øllum fyrir Postulum, hét ad mundi finn sendandi, senn þeim krapt af hædunum, alla kvaddi eins blessandi, upplyptum med høndunum.

3. Í tíunda svo er sinni, sjen upprisinn Drottinn minn; á jørd hætti umgengninni, inntók dýrdar himin sinn; vinum hans er von í minni, værí þvílík burtførin.

4. Uppí loptið allir størðu, inntéknir af helgum il, ekki nú á brjóst sér børðu, birtust Englar þeim í vil, að svo búnu, glaðir gjørðu, gánga Jerúsalem til.

5. Himin luktann Herrans blíða, híngað-koma sundra réð, himins yfir honum síðan, hans við skírn varð opnun sjeð, himin dýrðar héðan fríðann, hann frá jørð gat meðtekeð.

6. Olíu-kvistir einka fríðir, áður boðað hafa frið, Bethanía lærðir lýðir, leiða nafn af pálma-við. Frið með sigri fá um síðir, friðarins børn við Jesú blíð.

7. Eikin lífsins einka góða, Olíu-kvistur heiti' eg þinn, orðsins safi mér eykur gróða; Andans helga smurníngin, er það balsam, eg sem rjóða, andar sjónhvarm veikann minn.

8. Upp til fjalla augun hef eg, ei þó lið þeim komi frá; himna Drottni heiður géf eg, hjálpar allrar jørðu á, væng hans undir vaki' og sef eg, vel óhult því búa má.

9. Fjøll metnaðar eg vil ekki, uppá klifra í verøld hér, Sarons rós eg Son Guðs þekki, sem vaxandi' í dalnum er; holdsins að mig hroki blekki, hógvær Jesús bannar mér.

10. Nærri hvørgi víst eg voga, vera fjalli Sínaí, við reyk, þoku, leipturs loga, lúðra-hljóm og þrumu gný. Frá løgmálsins frjáls kviðboga, flý eg náðar skjólið í.

11. Fjallid Drottins er þad eina, upp til hvørs mig lángar þá, er þar blómgun olíu greina, og pálmvidar nóga' ad sjá, menn ei nema hjarta hreina, hefi eg þar ad búa hjá.

12. Sýndi Drottinn sig lifandi, seinast einu fjalli á, hvadan uppí hæd farandi, hátigniani rikir hjá. Allt á þetta upplýptandi, oss ad vera jørdu frá.

13. Ofhá fjøll sig øll nú lækki, undir fætur Lausnarans, en dalverpin upp svo hækki, ad jafn gjørist vegur hans, hans fylgjenda fjølgi' og stækki, flokkur á leid til sælu-ranns.

14. Himnafør sá halda vildi, hér sífelda Drottni med, sinn upprisinn ádur skyldi, í trú Jesúm hafa sjed, Herrans mun þá hærsta mildi, hjálpa' og styrkja áformed.

15. Þegar lyptir þú, minn Herra! þínum høndum yfir oss, af dýrdlegum ørum þeirra, állrar nádar streymir foss, hlýtur linast, hjadna, þverra, hvør ein þar vid mæda og kross.

16. Eg hefi sjed þig uppgéfandi Andann, sæti Frelsarinn! eg hefi téd þig uppřisandi, í Guds himin genginn inn, eg dey med þig æ lifandi, í fadminum, Jesú minn!

17. Því eg trúi, þad eg nái, þannig fara hédan senn, ad minn lúi endíng fái, eg þó hjara verdi enn, mig vidbúi, mér adgdi, míns Lausnara krapturenn!

## 24. Sálmur.

**Prefold auglýsíng Jesú eptir hans himnaför.**

Lagid: Túnga mín af hjarta hljódi.

Eptir þad í himna hædir, Herrann var nú farinn senn, þremur mønnum ritníng rædir, rétt sig vottad hafi enu, í líkama, sínum sama, sem hann birti upprisenn.

2 Stephanus naut stórra gæda, styrkíng trúar sinnar fann, lypti augum hann til hæda, himininn leit opnadann, til Guds handar, hægri standa, hann sá Jesúm Gud og mann.

3. Ad standandi Son Guds sæta, sá hér píslarvotturinn, gaf hugvekju honum mæta, Herrann væri albúinn, selda í høndur sér hans øndu, sækja og leida í himininn,

4. Vid Guds hægri hønd ad sitja, Herrans veldi ávíssar; hér stód nú sá vildi vitja, vondsku Júdalands og þar, sín heit efna, senn ad hefna, saklauss blóds, sem úthellt var.

5. Heyrdi Paulus Herrann mæla, hann sá líka tvisvar þó; sú vegsemdar sjón inndæla, sínni hans svo vel umbjó, ad hann gladur einhugadur, upp frá því Guds verk framdró.

6. Heyri' eg enn í huga mínum, Herrann mæla fagurt þá, er hann mig med Anda sínum, ord sannleiksins minnir á, á hans merkum má eg verkum, mind hans líka tídum sjá.

7. Jóhannes Son mannsins mátti, millum ljósa-stjaka sjá, hann og líka ødrum átti, ad kunngjøra vitrun þá; Son Guds gætir sinna, og bætir, sér-hvad þad þeim ríður á.

8. Fordum hætti mørgum medur, menn sem gløggt ei skynjad fá, lét sig heyra' og líka' er sjedur, lifandi Gud jørdu á, oss nú skartar ordsins bjarta, øllum spegill skjæri hjá.

9. Í Guds Syni sjálfann sáu, sveinar Jesú Fødur hans; dýrd fær annars Herrans háu, hér ei litid auga manns. Allt best lagar og tilhagar, umsjón Medalgángarans.

10. Þó um sinn mér audnist eigi, ad sjá Drott-inn þannig hér, holdsmedan í hreysi eg þreyi, hin trúarsjón nægir mér. Essti dagur inndæll, fagur, alla sjón Guds medfærer.

11. Oss þinn nádar himin hlýja, Herra Jesú! opna nú, rek burt sortann synda skýja, svo ei blindi vora trú, augsýn þinni í hvørt sinni, ad oss børnum þínum snú.

12. Verdi' um mína hagi í heimi, himna Fad-ir! vilji þinn, varatekt þín gód mig geymi, greid-andi mér lífs veginn! í hønd þína øndu mína, eg fel Herra Jesú minn!

## 25. Sálmur.

Jesús upprisinn er auglýstur þó ei øllum lýd.

Lagid: Sæll er sá mann, sem hafua kann.

Hvørr hefir sinni Herrans þekkt? hvørr var hans ráda=neyti? um stjórn Guds dæmum ekki frekt, undarlega þó breyti; vatnid heilaga ofdjúpt er, aptur því snúa skyldum vér, fyrr enn upp þad oss fleyti.

2. Drottins adferda orsaker, eru sann=helgar reyndar, þó ad opt bædi þér og mér, þær séu, madur! brýndar, innsiglad laungum er Guds rád, oss brestur skilníngs efni og dád, ad fá hans gjørdir greindar.

3. Sómir þó minnst ad sitjum vér, sinnulausir starandi, á Drottins miklu dásemder, dýrd hans ei vidfrægjandi; allra sísst þó álykta ber, eitthvad framfæri betra hér, enn hann því er stjórnandi.

4. Hvad mátti gagna, Herrann minn, hefdi Gydínga lýdi, hardsvírudum í sérhvørt sinn, sem hans forsmádi prýdi, enn viljad birtast upprisinn? inngróinn þeirra mótþróinu, hans nád hafnadi og flýdi.

5. Lífsins ord hans þeir høfdu heyrt, hans gódverk sjed margføldu, gátu samt fyrri engu eyrt, enn hann saklausann kvøldu, lífs og daudann þeir lasta hann, løgdum seinast í grafar rann, smánar nafn vesta vøldu.

6. Hvørki Heródes hádgjarni, né hinn rángi

dómari, höfdu í Jesú hlutskipti; höfudsmannanna skari, seldi vid lýgi sannieikinn, sífellt neitadi upprisinn, ad væri vor Frelsari.

7. Ef ad upprisinn Son Guds sig, sjálfur þeim hefdi tédann, ei er mín géta ólíklig, ad þeir mundi hann sjedann, strax vilja ljósta steinum med; Stephanum sídar er þad skéd, af heim farandi hédan.

8. En hér var stundin endud sú, á holdi sínu kynni, Lausnarinn fremur líða nú, lokid var ángistinni', sporna því Drottinn vildi vid, vondir menn gætu forgripid, á hans sig hátigninni.

9. Frelsarinn Jesús fyrirsá, forherdíng Gydínganna, sem ríki hans sér ráku frá, reirdir böndum syndanna, Anda Guds stódu ætíd mót, Englum fridarins sinntu' ei hót, villtir á veg lastanna.

10. Pér deyid syndum ydar í, eitt sinn Drottinn þeim tédi, af því þér trúid ekki því, ad Gud mig senda rédi; af Jesú Kristí upprisu, ei kunnu þessir blindudu, hafa huggun og gledi.

11. Öllum varst sendur, ó Jesú! fyrir alla dáid hefur, öllum sem festa á þér trú, allra synda lausn géfur; lifandi gjördur léntir mér, lífs réttlætid í sjálfum þér, og allri náð umvefur.

12. Lof, dýrd, heidur og lotníng þér, Lausnari heimsins! færi, engla og manna allur her, þú ert sá tignar skjæri, Konúngur jardar Konúnga, krýndur vegsemd eilíflega, Drottinn Drottna frábæri!

## 26. Sálmur.

Guddómsins þrenning er verkandi orsök Jesú upprisu.

Lagid: Guds Son kallar: komid til mín.

Eptir manndómi Drottinn dó, Drottins heiløg persóna þó, úthellti eigin blódi, og útvegadi søfnud sinn, sjálfur frá daudum upprisinn, dró oss úr daudans flódi.

2. Eins hafdi vald sjálfur frá sér, sína ønd leggja Jesús hér, og til sín taka aptur; líf hans tók honum enginn af, af frjálsum vilja þad útgaf, hans gædska og guddóms kraptur.

3. Guds og hans Sonar ein dýrd er, øll Jesús sømu verk gjører, sem hans Fadirinn sæti. Eins sem Gud Fadir æ lifer, allt hefir líf í sjálfum sér, lýda Lausnarinn mæti.

4. Og sem Gud dauda uppvekur, eins fær lifandi Guds Sonur, þeim hann vill lífid lénad: med sínum dapra deyd á kross, daudann sigrandi, hefir oss, lífgadur líf forþénad.

5. Þó Gud uppvekti Soninn sinn, samt er vor Jesús upprisinn, af sínum egin dádum; Fødur og Syni einnig er, andinn í verki þessu hér, best samverkandi bádum.

6. Manns edli Krists án mælingar, medtók gjøf Andans smurningar, svo Mannsins Sonur hafdi,

allt vald á jörd og himni hå, hann ad upprisi daudum frá, sá lifsins kraptur krafdi.

7. Er svo verkandi orsøkin, upprisu þinnar, Jesú minn! Guddómsins þrenníng þýda. Ad prísa þvílíkt ástar-ráđ, æ skyldi vera' um gjörvallt láđ, unadsemd allra lýda.

8. Samhljódan þá nú sjáum hér, sem í Guddómsins þrenníng er: Sonur Guds sjálfur vildi, hvad helst Fødursins vilji var, vorum kjørum til betrunar, allt réttlæti uppfyldi.

9. Vér skulum læra þaraf þad, þannig Guds vilja hyllast ad, í oss og á hann verdi, hafandi sinni andlegt eitt, eptir Kristó, svo hvørgi neitt, velfárnan vora' skérdi.

10. Elska Guds vottast einnig hér, sem oss í Jesú fengin er, frá dómi', ángist og dauda, burtnam Fadirinn Soninn sinn, svo vid dauda sé ósvidinn, flokkur hans frelstra sauda.

11. Frá dauda' uppvakti Son Guds sig, svo trúi' eg víst hann láti mig, í dauda ekki blífa; herranum þjóninn hjá svo sé, hans dýrdar ljóma sjá fáe, í lífinu eilífa.

12. Náttúrunni líf lénadi, lífs andi Drottins blessadi, verk þad verndar, framfærir; andligt líf kveikir, ørendann, uppvekja kann því líkamann. Sú von mitt sinni nærir.

13. Ó hvílík ríkdóms dýpt og dád, hdísom Guds

speki og vísdóms ráð! ei finna edur kanna, Drottins vegu og dóma hér, daudligir kunna mennirner, er það verk upphædanna.

14. Oss til réttlætis uppirisinn, alvoldugi Frelsari minn! þér gjørum þakkir færa; þín dýrd himninum hærri er, hrós þitt lengra enn skýin fer, þér sé þúsundføld æra!

## 27. Sálmur.

Jesú upprisa er gledileg.

Lagið: O Drottinn allsvaldandi!

Eg vil sjá ydur aptur, ydvart fagnar hjarta þá, ydur skal enginn kraptur, ynði hvílíkt nema frá; svo fékk téð, svo nam græda, sorgbitið, Drottinn hæda, sinna géð sveina, og þá uppfræda.

2. Þá lærisveinar sídan, sáu Jesúm upprisinn, øllum færandi frídann, fridar sønnu tídindin, sorgarský, senn burtfærdist, sól skein ný, gledin nærdist, hjørtum í hrædsla øll fortærdist.

3. Svo sem hvørs háttar sinni, sér hann velur gledi=mót, ei trúi' eg allir finni, eina og sømu hugar=bót. Aura=gnægd ýmsir ræfja, ytri frægd, nokkrir sækja, sumra ánægd, sýnist ydkun klækja.

4. Heimsins hof=mennsku glaumur, hugsun góda rekur burt, víkur vel=lyska straumur, verdur eptir sinnid þurrt. Gledi hér, géd þó næri, gæt að þér, vinur kjæri! hvørt hún er, hrein, sem vera bæri.

5. Máttu Jobs synir sedjast, samt offradi hann

fyrir þá; egum med ótta gledjast, og Guds vegsemd stunda á; annars kann, adstedjandi, audnu bann, sút verkandi, hitta mann, hans í værdar standi.

6. Af Krists upprisu gladir, urdu lærisveinarnir; helst verda enn huggadir, hans med lifi, trúadir, er þeir sjá, sitt réttlæti, sitja á, Guds hásæti, øll þeim hjá, Andans lifnar kjæti.

7. Alla hrigd yfirvinnur, unadsemd á Drottni fest, endíngu enga sinnur, eilíflega blómgast mest. Ástúd þá, út ad segja, ord til má, nóg ei hnegja; oss þar frá, ekkért látum teygja.

8. Fángadann frelsíd kjætir, fjøtrum vafinn, lausnin hørd, sjóhrakníngs sút upprætir, sælu hafnar hvíldin glød; mædu-haf, mitt þurkandi, mér lausn gaf, frid bodandi, dauda af, Drottinn uppnísandi.

9. Af Jesú lífi eg lifi, lífs føgnudur minn er hann, daudans mót døpru adsvifi, dirfir mig hans upprisan. Angurs frí eg býst hédan, uni því helst á medan, Guds dýrd í, Gud minn fái' eg sjedann.

10. Ef Jesús ekki væri, upprisinn úr jordunni, alls mannkyns íllt framfæri, yrdi' í heljar gryfjunni; en sá er, ótti farinn, andi hér, gledjist marinn, vor lifir, voldugur Frelsarinn.

11. Er svo løgmáls útskafinn, oss deydandi bókstafur, hljómur lífs orda hafinn, Herrann uppreis

dýrdlegur. Gledi ný gæda nærist, gédid í, hæd uppfærist, medur því, mædan skæd fortærist.

12. Gledi stund lífs þó ljái, Lausnarinn í veröld mér, himininn helst eg þrái; hér stadfesta hvørgi er. Eg kved fús, eymd margfalda, í þad hús, vil eg halda, sem Jesús, sjest um aldir alda.

## 28. Sálmur.

Jesú upprisa hefir forþénandi krapt.

Lagid: Herra Gud í himnaríki.

Er Gud kjærleiki uppsprettan, allra nádar gædanna, fram af þeim brunni fljóta vann, fjørlausn syndugra manna.

2. Af nád Guds madur ordinn er, oss nú búandi medur, ad nádarinnar njótum vér, af nád alleina skédur.

3. Einasti madur er í nád, oss Jesús fridþægjandi; hvad vér erum og drýgjum dád, Drottins nád er verkandi.

4. En hvad helst skjærri af nád er, útilykur verkanna, alla verdskuld; hún ei gyldir, í réttlætíngu manna.

5. Samt vor réttlætíng forþént finnst, fullu Jesús borgadi; syndanna skuld, þeim sjálfum innst, í sjóar djúp varpadi.

6. Var hans upprisa vottur trúr, væri lúkt heila gjaldid, gékk því Drottinn grøfinni úr, gat honum daudi ei haldid.

7. Kvittad var allt med Drottins deyð. Til býrðar lífs blífanda, auk þessa, tryggva lagði leið, líf Jesú upprísanda.

9. Herleiðíng fángna færði hann, fékk oss þar hjá til handa, hærri gjafir enn hugsa kann, hugvit skapaðra anda.

9. Athuga vildi' eg einnig hér, og nokkuð gjört um ræða: hvørnig forþénti minn Guð mér, margfjøldann slíkra gæða.

10. Adam, skøptum í heiðri há, hlýðni bar Guði játa, høfuð mannkyns kann heita sá, helst í tvøfaldann máta.

11. Af náttúrunni erum vér, allir hans børn skilfengin, var og for-ráða høfuð hér, hann vort og annar enginn.

12. Máttum vel njóta, hefði hann, hlýðninnar gætt, án saka, en fyrst það brást, vér arfinn þann, illa hlutum að taka.

13. Orð Guðs sáttmála einnig þá, Adam tvíeggjað reyndist, boði Drottins er féll hann frá, hjá fíkju-trjánum leindist.

14. Adams synd stærstu meta má, margt flaut þar af andstreymi; hann fell í gjald-søk þýngstu þá, sem þekkjast kann í heimi.

15. Hann þáði andar mestann mund, mestu líkamans gæði, og allt hvað mátti alla stund, efla hans gleði' og næði.

16. Alíta þetta ega menn, eitt pund, sem verðsla skyldi, umráða fé, hvørs ávøxtenn, einn Drottinn hafa vildi.

17. En hér sóaðist allt í senn, arður og gótsið besta, dauðans afsagði dómurenn, dró undir straffið vesta.

18. Alls leigu-fjár með ávexti, eilíft réttlæti krafði; Adam sokfallinn ør-eigi, endurgjald hvørgi hafði.

19. Þá skyldi hann líða á lífi' og sál, líka hans allir niðjar, eilífann dauða, bruna og bál, beygður í kvala viðjar.

20. Endurbót kunni enga sjá, Adam í þessu standi, Drottins vináttu fallinn frá, friðlaus, makiun, skjálfandi.

21. Pína, maður! hér sjá þú synd, sjá, hvað stór skuld þig vafði, sjá djøfulsins á manni' ómind, mind Guðs, sem tapað hafði.

22. Sjá! hvað straffið óttalegt er, eilíflega gnístandi, sjá! hvað gott Jesús gjørði þér, gjald þitt sjálfur lúkandi.

23. Svo þú, sem fyrr varst sekaður, saklaus gæðist søgnuði, rángsnúinn áður réttlátur, reiknast nú fyrir Guði.

24. Jesús deyjandi, dauðann vann, dróst þá burt efni nauða, hans upprisa þér frelsi fann, frá allrahanda dauða.

25. Gjald stærra' enn skuld hér útlagt er, yfirgnæfir synd, náðin, allt meir enn taptir, ávann þér, upprisu Jesú dáðin.

26. Hlutdeild í sigri hans þú átt, hann þér líf eilíft géfur, af því sá lifir, lifa mátt, líf sem þér forþént hefur.

27. Að þetta skéð í sannleik sé, sanna skulum vér fremur; þreföldu offrum þakklæte, þeim sem var, er og kémur.

## 29. Sálmur.

### Um sama efni.

Lagið: Svo sem fyrr sagt er frá.

Enn skal þar inna frá, alla synda=skuld þá, sem Adam sárt þvingaði, Son Guðs Jesús borgaði.

2. Adams varð edli spillt, hans andleg ráðdeild villt, frá Guði viljinn slæmdist, fegurð holdsins afskræmdist.

3. Samkvæmt varð sinni manns, Satan og árum hans, Guðs ráði gégn stríðandi, gæðum sönnum hafnandi.

4. Um miskun enga bað, en bættist hér á það: synda=skuld sína, að bragði, sjálfum Guði til=lagði.

5. Sá Guð, mann sekadann, sinn leit á kjærleikann, miskunar ráð til reiddi, ráð vort frá glötun leiddi.

6. Sinn einka Soninn við, samdi um mann=

fynid, í borgun ad hann gengi, og því svo bjarg=ad fengi.

7. Í sameiníng vid sinn, sannhelga guddóminn, vort þá, án synda og saka, Son Guds nam edli taka.

8. Hærstum heilagleika, hér mannleg náttúra, aptur í Gudi gæddist, Gud þá manns höldi klæddist.

9. Vitsku, réttlæti, ráð, ríkdóm og alla dád, Adam fyrsta frekari, fékk hér Adam sídari.

10. Þenna eilífa aud, einsog Skaparinn baud, Sonur Guds sæll brúkadi, sitt pund best ávaxtadi.

11. Eins fyrir áfallnar, alls mannskyns skuldirnar, og hinar, enn gjørandi, í borgun sig géfandi.

12. Huldist søk vorri og synd, saklaus Fødursins mind, synda bar Guds Son galla, gjørdist synd fyrir alla.

13. Allt straff Adams syndar, einn Jesús Kristur bar, og leid eilífa pínu, á ønd og lífi sínu.

14. Ei þó til eilífdar, af því Guds fylling var, í honum øll búandi, allt hans verk fullkomnandi.

15. Helgust náttúra hans, hér bætti syndugs manns, edlis spillíngu alla, alla lagfærdi galla.

16. Leid eptir løgmáli, líka þad uppfylldi, allt gjørdi ad Guds vilja, sem á oss rédi' hann skilja.

17. Kristur deyjandi á kross, keypti frá dauda oss, uppriſinn í ljós leiddi, líf og veg himins greiddi.

18. Upprisu ávøxt sinn, einsog dauda kraptinn, oss til eigindóms lætur, Endurlausnarinn sætur.

19. Sjer Guð ei ſynd þeim hjá, ſem nafn hans trúa á, arf von eilífra gæða, þeir ega í dýrð upphæða.

20. Erum vér ordnir því, uppriſnum Jeſú í, Guðs børn og Guðs réttlæti, guddóms þrenníngar ſæti.

21. Eins til upprisunnar, og hvørskyns vegſemdar, ſinn rétt Sonur Guðs hafdi, ſáttmálinn þeſsa krafdi.

22. En hans uppriſu báð, oſs forþénti þá náð, að daudann ekki ſjáum, uppriſu lífsins fáum.

23. Fyrir deyð Drottins er, daudinn vær orðinn mér, í líſi hans lifanda, líf ſæ eg æfaranda.

24. Lof ſé þér, líſið vort! lífsins opnandi port, oſs géf, eptir vorn trega, uppriſu gledilega!

## 30. Sálmur.

Jeſú uppriſa er frið=færandi.

Lagið: Hvørr ſem að veiſir hæga byggð.

Þegar ſigurinn unninn er, endaſt ſtyrjaldar mæða, vinníng ſtríðs nýjann frið færer, fridur er efri gæða, gædunum fleſtir gledjaſt menn, glaðvært ſinni og róſemin, er gjøf vegleg upphæða.

2. Fávítſka ſtærri øllu er, æðſtum Guði að ſtríða, enginn madur þarf ætla ſér, of=dyrfð ſú kunni hlýða. Pharaóni of=forſugum, fór einsog rauda brekanum; báðir ſkømm hlutu að bíða.

3. Øll ſynd heitir uppreiſt og ſtríð, mót æðſtum løg=gjafara; en vér kunnum oſs engu tíð, við

allri synd ad vara. Sá, vid eitt boð Guðs sekur er, sig þeim manni strax játa ber, allra yfirtrodara.

4. Forskuldaði vor fárleg synd, frið-tjón, útlegð og dauða, uppspratt miskunar oss þá lind, í blóði Jesú rauða; sínu lífi úthelti hann, hérmeð frið-keypti syndarann, allt tók burt efni nauða.

5. Upprisinn lýsti frelsi og frið, Friðar-gjafar-inn mesti, friðarins Guð er festur við, friðar-sátt-máli besti, friður, þeim stóðu friðnum nær, friður þeim líka, er vóru fjær, eyddur ófriður vesti.

6. Jesú uppprisu ávöxtur, er friður Guðs blíf-andi, friður innvortis andlegur, í samvitsku ríkjandi, útvortis friður allvíða, orkandi friðar sambúða, á heims ófriðar landi.

7. Menn semja á jörðu margann frið, með þánka friðar-spörum, friðar-sturlarans fylgja sið, friðinn hafandi' á vörum, stríð í hjarta, við síðu sverð. Svo er veröldin af sér gérð, varlega fram því förum.

8. Mennirnir tryggunn mega' ei frið, mér géfa af ramleik sínum, fá mér ei heldur frátekið, frið Guðs í Jesú mínum; en hans friður eilífur er, önd og líkama varðveiter, frá synd, svikræði' og pínum.

9. Friður með yður sagði sé, Son Guðs við lærisveina. Í því friðarins ávarpi, innibundna eg

meina, alla, sem bodud er sú náð, øllu fólki skér Guds hjálprád, í Syni hans alleina.

10. En ef vér heilsum húsi því, Herrans frid þar bodandi, sem barn fridarins ei finnst í, er Guds fridur víkjandi, med oss sjálfum því fólki frá. Fridar-hatarar ekki ná, farsæld á lífsins landi.

11. Þó líf vort sé standandi stríd, styrjøld full lúa' og tregá, yfirdynjandi harma hríd, hrakníngur alla vegá; hrædist né skélfist hjørtun vid, Herrann Jesús þann bodar frid, er gledur eiliflega.

12. Fridarins Gud! eg þakka þér, þann frid mér veittann hefur, sem hærri skilníng øllum er, ófrid veraldar kéfur; hvadnær sem heimi fer eg frá, frid eilífann, þar treysti' eg á, mér þín miskunsemd géfur.

## 31. Sálmur.

### Jesú fridur grundvallast á honum sjálfum, medtekst med trúnni.

Lagid: Heidrum vér Gud af huga' og sál.

Á Jesú lífi' og lídíngu, líka hans dauda' og upprisu, finnst grundvalladur fridur sá, fridkeyptur mann sem njóta má, á jørdu lýstu honum hér, í Herrans fædíng' englarner, velþóknan Guds því á oss er.

2. Herrann Jesús hegníngu bar, svo hefdum frid Guds víngunar, med sínum deyd frid samdi hann, sama upprisinn boda vann, auglýsandi í

sama sinn, sín benja ør, því fridurinn, allur er þadan útflótinn.

3. Trúin þann frid tileinkar sér, sem tilreidd-ur af Jesú er, hún fær andlega Herrann sjed, hans þekkir líka málfæred, fridar røddunni fagn-ar mest, føgnudur sá hellst auglýsist, ad þegar stedjar ángur flest.

4. Jesús vor fridur ordinn er, ord fridarins þad tilkynner, fridarins Konúng færir þann, frid-ar andinn í hjartans rann. Tveim høndum þeirri tekur mót, trúud sála med ástar hót, sinna mann-rauna réttu bót.

5. Heilsa stærsta skér húsi því, sem Herrans fridur byggir í, allt rýmist þar hid illa frá. Ei býr Kristur Belíal hjá, sólin myrkrid ei samþýdist, síst fær deyrd med fridnum víst, lestina dygdin frásælist.

6. Fridar uppspretta' er Frelsarinn, fridinn hef-ir oss gésid sinn, fridinn verndar og framkvæmir, med fridnum børn sín vardveitir. Fjøllin þó hrærist fyrna há, foldunni bærist hædir á, úr stad ei færist fridur sá,

7. Uppruna sólar er mean sjá, upprisa Drott-ins líkjast má; fridar bodunar held eg hans, háa ímind, þann sunnu-glans, sem allann heiminn upp-lýser, yndi, næríng og varma lér, rírnar þó ei í sjálfum sér.

8. O! hvørsu frídt olíu-blad, er sá fridur! helst

fánna það, þeir er hafs-bylgjum heimsins á, hrekjast, sveymandi til og frá. Mjög þá í stríði mátt-þregnir, mæðast taka Guðs kapparnir, þetta hünángið þá nærir.

9. Í sínum guðdóms algjörðum, er birtist Jesús kraptinum, fyrri' enn sigur-hróss friðinn sinn, hann færði' á jörðu, upprisinn. Þá skein fram eldur ský-stólpans; þá skipti' um hagi dauðlegs manns; líf og friður, varð hlutdeild hans.

10. Oss er með lífi Lausnarans, lífsins vegsemdar gésinn krans; andleg, líkamleg, eilíf náð, allt hvað bætir vorn hag og ráð. Guð herskaranna oss nú er, einn friðar Guð, því megum vér biðja; og verðum bænheyrðer.

11. Hvað nær, sem nokkrar hreifa sér; í hjarta mínu sturlaner, mig ef heimsækir meinleg sótt, mikill kvíði við dauðans nótt; mildasti Jesú! mig ásjá, mér vertú nærst, og segðu þá: minn friður, sé þér með og hjá!

## 32. Sálmur.

Jesú upprisu friður er kraptur og ánlinning innbyrðis friðar.

Lagið: Nú bið eg Guð! þú náðir mig.

Oskaði friðar upprisinn, ástvinum sínum Drottinn minn; hriggvum boðandi hugstyrking, hræddum við stríð, sigurvinning; friður með yður sagði hann, sé! til samlyndis uppvekjandi, gaf

þeim undir eins afl og náð, að stunda þvílíkt friðar ráð.

2. Lífs og deyjandi Drottinn minn, frá dauð=um líka upprisinn, friðsemd ástunda alla bað, eitt nýtt boðorð kallandi það, af því ávöxtur Andans sá, sem elska' og friður heita má, æ meir og meir þá eldast fór, yfirdrepskapur gjørðist stór.

3. Kristí nýtt þar næst kalla má, kjærleikans boð, fyrir orsøk þá, að hann vill ferskt það ávallt sé, í voru sinni og framferðe, svo af innbyrðis elsku=rót, útvortis sjáist skírlegt mót, hvørt þú frið=samur, hjartahreinn, Herrans sért réttur lærisveinn.

4. Í hjarta mannsins hreinskilinn, hefir sinn bústað friðurinn; sá yfir honum sífellt bjó, sífelda þar af hafði ró; sælir eru þeir semja hann, sáttir við Guð og náúngann; þeir munu' í friði fara og ná, friðarins gjæðum himnum á.

5. Hvar af orsakast stór og straung, styrjøld þjóðanna mørg og laung? arður er það, þótt íll=ur sé, óvinarins af sáð=verke. Þráttun girnd=anna í limum ljót, leiðist af fyrstu synda=rót. Ófriðsamur, íllur og þver, eins og brúsandi hafið er.

6. Líkari Satan enginn er, enn sá maður, sem temur sér, kíf og deilur, er farga frið, fárligt er þann að búa við; sig þó hann skaði sjálfann

mest, samt er hann átumein og pest, í Krists lík-
ama andligum; opt koma menn að rann þar um.

7. Kvedst ei vilja mann kíssamann, kóng Davíð
halda' í sínum rann. Ljónum og bjørnum líkir
hér, lika deyrdar mennirner. Øfund, drambsemi
ágirnd vest, innbyrdis fridinn skadar mest, marg-
ur held eg þó meini þær, sér muni' ódygdir
standa fjær.

8. Følskadur kjærleiks eldur er, ekki mjøg víða
finnum vér, Kristi sinni hjá kristnum nú, þó kunni'
að játa rétta trú; áverkirnir auglýsa það, menn
ýfast nær á hvørjum stað. Fáist varla trúr vin-
urinn, vart eiskar nokkurr fjandmann sinn.

9. Ein sál og hjarta áður var, í kristni Guðs;
nú túngurnar, ofvíða' í høfði eru tvær. Af tvø-
følduðu sinni fær, einfaldur laungum frómur flas,
full er verøld með hræsni' og þras. Hreint skapa,
Drottinn! hjarta í mér, helst er sú ímind sam-
kvæm þér.

10. Talið sannleik, Guðs trúaðer! til þess
fridkeyptir eruð þér. Hatið lygar, hræsni og slægð,
hafnið vondskunnar aldri gnægð, semjið innbyrdis
sannann frið, þeim sama jafnan haldið við; einn
bjargi limur øðrum rétt, einsog Guð hefir það
tilsett.

11. Zíon veit þú, Guð! sæmd og frið, svo
hún þitt hjálpráð gleðjist við! réttlæti, friður, ró-

semd mest, ríki vors kóngs umgyrdi best! høfuð-sléttir og herra-menn, hér með gjørvallur almúgenn, lifi í fridi og leysist frá, lifi, samfagni himnum á!

12. Nær sem einhvør áfellur mig, ófridar bára hættulig, í þitt fridar-skjól flý eg inn, Frelsarinn herra Jesú minn! hastir þú æsta hafid á, hljóðn-ar það brádt og sjatnar þá, svo eg megi af fári frí, fridar høfn lífsins komast í.

13. Í þínum fridi, ó Jesú! unun hefir mín von og trú, eg sofna á kvøldum sætt þar vid, sé eg í þínum geymdur frid, aptur ad morgni upp-vakinn, upprisu fridinn hugsa eg þinn. Imind holds-ins uppriſu þá, á sjálfum mér eg líta má.

## 33. Sálmur.

Jesú upprisa er grundvøllur og kraptur vorrar endurfædíngar.

Lagid: Lof sé þér, Gud! fyrir lidinn dag.

Daudur líkami og dáðlaus er, þá dregst í burt hans andi, ekki neitt heyrir eda sjer, ei tilfinníng hafandi, eta né drekka ei kann sá, engrar gladværd-ar njóta, né hresíng hljóta, andstyggiligur á ad sjá, ersir forrotnun skjóta.

2. Andliga daudur er sá mann, sem anda Guds ei hefur, andligu sæta engu kann, sem and-ar þørfin krefur, skurd-godum líkur, skyn ei ber, skortir heyrn, vit og sinni, málfæri' og minni, andlega birtu ekki sjer, iklæddur forsmáninni.

3. Lýsíngu þessa Adam á, og hans töpuðu niðjar, lifandi' er dauður sérhvörr sá, sem vilja Guðs ei yðjar. Frá þeim dauða, um eilíf ár, uppstanda neinn ei kunni; í ytsta' afgrunni, áttum að líða feikna fár, fyrrtir lífs upprisunni.

4. Þegar svo dauðir vorum vér, von lífs enga hafandi, í vort kvalabað sökkti sér, son Guðs Jesús lifandi, dauðans smakkaði beiskju' og böl, hans bitra fleini særðist, frá fjörvi færðist, uppreis síðan frá allri kvöl, afl dauðans þá fortærðist.

5. Lífsins upprisa' og sigur sá, sem Jesús afrekaði, er sá kraptur, sem orka má, að enginn dauði' oss skaði. Fyrstu' og síðurstu oss nú er upprisu gleði fengin; einn undangenginn, lífsins hertogi leiðbeiner, til lífs, en annar enginn.

6. Vor endurfæðing er það hlið, um hvört nú gánga fáum, út frá dauðlegra synda síð, svo lífi Guðs vér náum. Andligu lífi lifnaðer, lífs gæðanna dýrmæti, allt eptirlæti, finna og smakka fáum vér, fagnandi því sælgæti.

7. Þeim til friðinda ekkért er, er í synd liggur dauður, ljótustu hluta líking ber, um loptin, vötn og hauður; en hinn, sem risinn upp er frá, andligum dauða, friður er ljóssins lýður, finnst honum vansi enginn á, eilíf fegurð hans bíður.

8. Í endurfæðing verðum vér, vors Guðs arfgengir synir, trúin þar verkuð í oss er, af því

nefnumst hans vinir; fyrir lífs kraptinn Frelsarans frá dauðum uppríſandi, og æ lifandi, í lífsins von þann egum krans, sem aldrei fer visnandi.

9. Hlutskipti besta held eg sé, frá heljar myrkri að færast, til ljóss Guðs náðar ljómande, og lífsins brandi nærast. Drottinn! sem líf mér léntir þitt, og létst andlitið skína, yfir eymd mína, líkama og andar lífið mitt, legg eg í voktun þína.

## 34. Sálmur.

Jesú upprísa er grundvöllur vorrar réttlætingar.

Lagið: Hærsti Guð Herra mildi.

Fyrir oss gjald allt greiddi, Guðs Son deyjandi á kré, Herrann því hann útleiddi, af heljar grysjunne. Nú fyrst vér egum alla, upprisu Jesú dáð, á oss þarf aldrei falla, ógn þeirra synda galla, sem bætti hans blessuð náð.

2. Allri synd af oss létti, aflausn fullkomin fæ; í Herrans hærsta rétti, heitir frikénndur nú, sérhvörr er setur hreina, sína trú Jesúm á, syndanna særa meina, sá fær lækningu hreina, sæll og heill segjast má.

3. Aklögun ei svo verði, útvöldum færð á mót, réttláta Guð þá gérði, grandar þeim ekki hót, fordæming fjandmannanna, fyrst Kristur dáinn er, og hvað mest er hlutanna, uppreis, fór til himnanna, æ biður oss fyrer.

4. Handskrift harðri fortærði, hina negldi á

tréð, myrkra vøld forn af=færði, frægasta sigri með, alla synd innsiglandi, oss svo ei tilreiknist, uppreis, líf afrekandi, útløgum Guðs boðandi, frið og føðurlands vist.

5. Løgmálið lífsins Anda (lýst hefir Paulus því) í Jesú upprísanda, oss gjørir synda frí; en hvar synd er burt=tekin, er þar lífs réttlætið; hljóta þá holdsins brekin, á hæl að verða rekin, fyrir Guðs fulltýngið.

6. Vér Guðs réttlæti verðum; vel er oss fyr=irsséð! æru þá aldrei skérðum, ofdirfð sjálfs þótta með; ef mættu einhvør heita, af oss gjørð verkin nýt, ei þó skjól orka að veita, í þeim síst meg=um leita, athvarfs; þau eru ei hlýt.

7. Aldin=blað ei fékk dulið, Adams blygð fyrsta sinn; nú fær oss Herrans hulið, hjálpræðis mött=ullinn. Kristí réttlætis klæði, kostulegast sem er, hefir tvenn hefðar=gæði, hylur og prýðir bæði, þann er sig því skrýðer.

8. Staddir í stríði erum, stund þá hér høfum bið; Herrans því hervopn berum, hans biðjandi um lið. Réttlætis brynja, bestur brjóstvarnar styrkur er; bana broddurinn vestur, bítur ei þó sé hvestur, þann sem hlíf þessa ber.

9. Frelsi, líf, frið, hjálpræði, føgnuð, réttlæti, náð, øll lífs og andar gæði, ávann oss Jesú dáð; vor er því von lifandi, vér skulum dauða frá,

uppríſa í æru-ſtandi, og á gledinnar landi, Herr-ann vorn heyra' og ſjá.

10. Fáklæddi frómi madur, Frelſarans réttlæte, er þinn innri fatnadur, ønd þín kvídandi' ei ſé, nakinn kom hér í heiminn hvørr einn, ſvo líka fer, vird hægt veraldar ſeiminn, vertú þeſs ſkrúda geymin, ſem keypti Son Guds þér.

11. Sá ſkrúdi á ſídſta degi, ſvo hylur nakleik þinn, ſjer á þér annad eigi, alſkygni Dómarinn, enn ſitt egid ſkínandi, uppríſu réttlætid, heims ſkraut í hefdar ſtandi, hér þó ſýniſt glansandi, ekkért ſkyldt á þar vid.

12. Høfud upphefja megum, høfum Gud blídk-adann, líf í von eilíft egum, arfinn ſem tøkum þann; krónu Kriſtí réttlætis, kriſtnum ſem vard-veitt er, med himinſælda ſætis, sóma meſtum á-gætis, Gud! af nád géf þú mér!

## 35. Sálmur.

Jeſú uppríſa er kraptur og áminníng vorrar endurnýúngar.

Lagid: O Jeſú! nafn þitt ylmſætt er.

I oſs framkvæmiſt allt í ſenn, endurfædíng, rétt-lætíngen, og helgun uppbyrjandi; má þó ſá nýi madurinn, meir æ fara vaxandi.

2. Strax ſem líf andlegt í oſs er, af Anda Drottins verkad hér, hræríng ſína pad hefur, ſí-feldt vaxandi ſídan fer, ſvo ſem Gud mælíng géfur.

3. Med endurfæding allra fyrst, í oss þá Krist-ur mindadist, líka trúin lifnadi, vor réttlæting þá verkadist, vor ný hlýdni byrjadi.

4. Sú trú, lifandi sem ad er, sínar hefir æ verkaner, afl hennar Andinn veitir, allar dygdir sér affæder; undir-rót þeirra heitir.

5. Ekki' eru trésins ávexter, á augabragdi tímg-ader, sína tíd sérhvad hefir. Fullburda strax ei fóstrid er, framvøxt því tíminn gésur.

6. Á lífs tréd Jesúm, erum vér, í endurfæd-ing plantader, ávøxt þann egum færa, sem ad verdugur ydrun er, allar dygdir svo næra.

7. Ef vín-trénu innplantadur, einhvørr finnst kvistur skrælnadur, eflaust affnídast hlýtur, í elds-ins bál útsnaradur, ei fremur ræktar nýtur.

8. Í skírn, til daudans verdum vér, med vor-um Drottni greptrader, og sídan alla vega, líka sem hann upprisinn er, endurnýumst daglega.

9. Oss má ei sóma, upprisnum, eitt sinn af synda daudanum, í hann aptur ad detta. Rétt-lætis skjæra skrúdanum, skømm er stór sig ad sletta.

10. Í Jesú dauda deyjum vér, daglega med honum krossfester, allri synd afneitandi, svo af hans lífi lífgadir, lifum í nádar standi.

11. Dáinn syndinni Drottinn minn, af daud-anum er upprisinn, og deyr framar aldreji, lífs kraptinn hefir lént mér sinn, svo lifa Gudi' eg megi.

12. Líf til þess andlegt lénad var, ad lífs verkanir andlegar, sýni sann-kristinn madur. Í lífi' andlegu uppbyrjar, eilíft líf rétt-trúadur.

13. Í anda gánga øllum ber, med ótta og titrun sína hér, sáluhjálp sífeldt vinna, lifir høfudid, limirner láti síg dauda ei finna.

14. Mind Guds ef blómgast í oss á, ad Jesú dæmi, skulum þá, vaxa í vitsku' og nádum, ávexti láta andans sjá, í góds sidferdis dádum.

15. Frá einni dygd til annarar, í himininn þitt sinnis-far, æ sé þér upplýstandi, upprisinn Jesús þinn er þar, þángad stefn hans leitandi.

16. Andleg þíns hjarta umskurn þá, inniteg vera og sífeld má, ef þig skal ekki svikid, gømlu forhúdar girndin fá, og Guds lísi frávikid.

17. Tapadir synir vórum vér, frá vors Guds lífi steindauder, nú þó uppvaktir aptur. Til nýrrar hlýdni oss nógur er, nádar frambodinn kraptur.

18. Látum oss Drottni lifa þá, løstum fyrst daudir gømlum frá, nýja lífs njótum blóma. An helgunar kann enginn sjá, eilífrar dýrdar ljóma.

19. Upprisa' og líf vort, o Jesú! á þér hvørr sá sem hefir trú, aldrei deyr eilíflega; fyrir þitt líf oss forda þú, frá andar daudans trega.

20. Lífsins uppsprettan lifandi, lífid andlega geymandi, oss lát þér aldrei sleppa, líf náttúrlegt framleidandi, líf eilíft gef oss hreppa.

## 36. Sálmur.

Meddeilíng heilags Anda er ávøxtur Jesú upprisu.

Lagid: Jesús Guds Son eingétinn.

Sá sem veit, ad Guds Andi er sannur Jehóva, og Jesús upprísandi, oss gaf þann huggara, gledjast í Gudi ætti, Guds nafn af øllum mætti, hér fyrir hátigna.

2. Í þeim ávexti ædsta, upprisu Lausnarans, er heilsugjøfin hærsta, og hjálpräd syndarans, andlegs lífs allt sælgæti, unun, fridur, réttlæti, huggandi hjarta manns.

3. Ef eg fer ekki hédan, ei kémur huggarinn; (svo þenna sannleik tédann, sjálfur fékk Lausnarinn). En ef eg er farandi, á burt mun eg sendandi, hann verda í hjørtun inn.

4. Upprisinn, sína sveina, sídar talandi vid, á þá blés, og nam greina: Anda Guds medtakid! þá upplaukst þeirra hjarta, þeim rann ljós skilníngs bjarta, þádu føgnud og frid.

5. Vard Andi Kristí vara, med vara-blæstri hans, hans sveina helgum skara, hér nú gésinn til sanns; en hin var ekki fjærri, útheliíng hans sú stærri, af hædum himna ranns.

6. Andann meddeila mátti, í mælíng stærstu hér, Jesús sem alla átti, Andans fyllíng í sér. Krafdi krapta-verkanna, kristni-bod Postulanna, sem verk Guds Anda er.

7. Uthelling Andans stærsta, audkénni tilsett var, uppprisu Drottins ædsta, og hans himin = farar. Andans gjøf fyrri eigi, almenna kalla megi, ord Guds mér ávísar.

8. Klæddust þeim krapti' af hædum, Kristi sendibodar, er í allskonar mædum, einn þeirra styrkur var, þá fræddi, þá huggadi, þeirra lífs hlaup verndadi, í þeim Guds ord frambar.

9. Fyrirheit fødurs heitir, fagnadar Andi sá, og skjæra vatn, sem veitir, vor Gud, þurr = lendid á, eldur hugást kveikjandi, og børn Drottins hreinsandi, synda saurindum frá.

10. Andans eldlegu gjafir, og hans frum = gróda nú, þótt, madur! þú ei hafir, þína ei sakar trú; ef hann þér er stjórnandi, í og med þér bidjandi, eilíft líf erfir þú.

11. Guds hús ef ordinn ertú, Andi hans býr þér hjá, øruggur æ þess vertú, um þig hirdir hann þá, leidir þig lífs á vegi, lætur þig villast eigi, fót = sporum Jesú frá.

12. Hann þig fávísann, frædir, frávikinn, leidréttir, af syndum særdann, grædir, sorg = þjádann, hugstyrkir, mátt = førnum megn þér veitir, máttar Andi því heitir, hjá þér allstadar er.

13. Hryggjum ei Herrans Anda, hann svo oss víki frá; hann er lífsins lifanda ljós, sem ei sløkkva

má. Ytstu útskúfun bída, þeir Anda Guds mótstrída, auglit hans aldrei sjá.

14. Gud minn! þinn góda Anda, géf mér, en tak ei frá, hann lát æ hjá mér standa, hvad sem tilfalla má, hann lát best hag minn greida, hann lát mig svo framleida, ad lendi eg þér hjá!

15. Lífsins eilífi Andi, arfleifdar pantur minn! á Jesú upprísandi, eg sje lífs kraptinn þinn; hann kénn mér, Herra'! ad nefna, til hans beinleidis stefna, hédan í himininn!

## 37. Sálmur.

Jesú upprísa, verkar lifandi von.

Lagid: Strídsmenn þá høfdu krossfest Krist.

Von, heitir eflaus eptirbid, þess augun nú ei sjá, ørugga trú skyldt á hún vid, og þar grundvallast á, þolgædid stendur henni á hlid, svo hvørgi skeika má; er hún þad trygga atkérid, sem engann slítur frá.

2. Vonin lifandi af því er, ad lífsins rádandi, fyrir lífs Anda og ord sitt hér, er hana verkandi, líf sitt og edli auglýser, innra mann gledjandi, vid lífsins unir vissu sér, verdur þess njótandi.

3. Í von oss hólpna meta má, medan hér høfum bid, vonin fullkomnud verdur þá, vér fáum arfskiptid; af því vor Drottins daudum frá, í dýrd fékk upprisid, von lífs um eilífd honum hjá, himneskann eignast frid.

4. Jesú upprisa' og líf oss lér, lífsins von alla nú, svoddan huggun géfst, sál mín! þér, svo hólpin verdir þú, ad hvørr sem lifir honum hér, honum deyr líka' í trú, eilífann dauda aldrei sjer, óbrygdul von er sú.

5. Fordum vonudu frómir menn, Frelsarans komu' í heim, Israels ríkis upphefden, einkum hugfestist þeim; hulid var flestum hitt þá enn, hann um veraldar geym, mundi eitt sauda=hús í senn, semja af flokkum tveim.

6. Sú von fylltist þá Son Guds kjær, sig birti' í manndómi, Ritníngar allar rætast þær, sem ræda um þad efni. Hins nú framvegis væntum vær, vor Jesús blessadi, senn mun koma' í skýjum skjær, skrýddur vegsemdinni.

7. Lífsins von øll þar leikur á, lifir vor Frelsari; vér skulum lífa' og sídar sjá, sæld hans í dýrdinni; húngur, klædleysi, þreyngíng, þrá, þetta líf né daudi, ekki fær skilid oss því frá, ypparsta hlutskipti.

8. Í lífs eilífs von lifum vér, lídandi' í heiminum, í lífs eilífs von fram oss fer, fetandi' á Guds vegum; í lífs eilífs von brádt ad ber, blómgandi tídunum; í lífs eilífs von líf ef þver, ljómandi uppnísum.

9. Vona of margir verøld í, vegsemd fá henni af. Ei leidi' eg hug minn eptir því, sem er leyr=

vellta og draf. Krónur og ſprotar, fara' ei frí, flárædis yfir haf. Þann í gjær heimur hóf, vid ſký, hratt þeim í dag á kaf.

10. Eg ſný, lifandi Lauſnarinn! líſs von minni heim frá, eg ſlý þurfandi', í fadminn þinn, fridi ſvo kynni ná, eg bý hjarandi ókvídinn, undir þinni forſjá, eg kný deyandi, Drottinn minn! dyr nád-arinnar á.

11. Hafid, lopt, jørd og himnarner, heidri þig, Jeſú minn! allur príſi þig engla her, ſem er þér handgenginn, magni fridkeyptu mennirner, med þeim lofſtýrinn þinn, mikli þig ſála mín, í þér, minn gledjiſt líſs andinn!

## 38. Sálmur.

Jeſú uppriſa er í daudanum vor ædſta huggun.

Lagid: Bú þig, ſál mín!

Bú þig, ſál mín! brádt kémur þín, burtferdar ſtund frá heimi, daudinn fyrir, dyrunum er, vill Drottinn þér, ſtytta nálægt andſtreymi.

2. Lifna, fædaſt, lýjaſt, mædaſt, lengi margir þreyandi, endar líſs ſtríd, útfarar tíd, þeim ætíd blíd, ſem er Jeſú deyjandi.

3. Rauſt fyrſta hér, vor allra er, inní verøld þá færumſt, ángurſamt vein, ýmisleg mein, þad auka kvein, í holdi medan bærumſt.

4. Ef líf óþreytt, einatt og heitt, áſkín med-

lætis sólin, bruna hætt er, ber og til hér, ad bilta sér, bráðlega lukku hjólin.

5. En þá margar, mjøg stórfeldar, mótgángs ádynja hrídir, drýpur húsid, dofnar sinnid, dregst út fjørid, daglega' og allt um sídir.

6. Hvílíkt sem hér, ástandid er, endíng því daudinn géfur; nú óvin þann, afli fyrrtann, undirlagdann, sér og oss, Son Guds hefur.

7. Misti smeckinn, þann megna sinn, Mara, en litinn eigi. Daudinn nafn ber, burt øll frá þér, hans beiskja er, barn Guds! þó hold þitt deyi.

8. Sætur, vær, hann, svefn nefnast kann, sigur kíss, hvíld af lúa, ávinníngur, lífs ingángur, æskilegur, øllum þeim Jesú trúa.

9. Par daudans hér, nú dagur er, degi fædíngar betri, vel til géds þá, mér vera á, ad víkja frá, hrørlegu holds adsetri.

10. Ef upprisinn, ei Lausnarinn, af dauda sjálfur væri, í daudanum, øllum mønnum, útskúfudum, um eilífd liggja bæri.

11. Genginn undan, Guds Sonur fann, gégnum deyd, lífsbraut sanna; eptir honum, strax upprisnum, úr grøfunum, útgékk stór flokkur manna.

12. Lífs upprisu, Krists líkíngu, lýdir trúadir hljóta, í von þegar, en þó sídar, algjørlegar, eilífrar sælu njóta.

13. Fyrst upprisinn, lífs-leidtoginn, lifir í hjarta

þínu, sætt andlátið, sálin gleðst við, í sönnum frið, sæl, laus frá allri pínu.

14. Eitt með Jesú, þú ert í trú, innræt þér hugg- un slíka; uppreis hug þinn, uppreis Drottinn; fyrir almátt sinn, uppreisir hann þig líka.

15. Lét lífið sitt, þá leysti þitt, lamb Guðs, og sitt tók aptur; eins dauða frá, þig eflaust má, útfæra sá, hans al-voldugi kraptur.

16. Í dauðanum, fyrir augunum, engin skelf- ing þér slæðist, lítur trúin, þann lífs-salinn, hvar Lausnarinn, ljósinu' um eilífð klæðist.

17. Endíng sút fær, þá öndin nær, inngaungu' í himnaríki, stund er ei laung, né þúngleg þraung, um grafar-gaung, greiðist fyr þínu líki.

18. Í Kanaan þarf ekki Man, öll finnast þar land-mæti. Í himininn, þig upprisinn, senn inn- tekinn, eilíft mettar sælgjæti.

19. Ei fatnaðar, munt þurfa þar, þar Jesús skjólið veitir; er líkaminn, andlegur þinn, æðsta dýrðin, yfir-klæðið þá heitir.

20. Vanheilsa frá, sér vendar þá; í vegsemd upprísandi, líkaminn fær, stól lambsins nær, ljóm- andi skjær, líta Guð ævarandi.

21. Geym huggun þá, Guðs barn! þér hjá, gégnum veg allra nauða: Son Guðs því dó, sem lifir þó, að sæt lífs ró, sé þitt hlutskipti' í dauða.

22. Í þeirri trú, eg dey, Jesú! úr jörð munt

hold mitt færa. Lyst hef' eg á, ad leysast frá, og lifa hjá, Lausnara mínum kjæra.

23. Lífgjafi minn! lífs kraptinn þinn, lát mig sjá, þekkja og' reyna, greid mitt lífs skeid, gjør enda' á neyd, géf mér í deyd, gódi Jesú! trú hreina.

## 39. Sálmur.

Jesú upprísa er kraptur alls holds upprísu.

Lagid: O! Fadir himneski' og eilísi Gud.

Upprís, mitt hjarta! med elsku og trú, upprísnum fagnandi þínum Jesú, upprísan fyrsta þér er géfin nú, upprísu lífsins senn fær þú.

2. Ad deyja mønnunum eitt sinni ber, eikin þar liggur, sem fallin hún er, upprísa' og dómurinn eptirfylger, adgjæt slíkt medan þú lifer.

3. Sædid í jørdunni senn deyja má, sídan fær nýtt líf og sprettur upp þá; hold og blód Guds ríki erfa ei á, útvaldir deyja því hér frá.

4. Svo víst sem Guds Sonur upprísinn er, upprís af daudanum madur sérhver. Ljóslega Paulus þann lærdóm kénner, Lausnarinn sama stadfester.

6. Jesús og upprísan er sameinad; upprísu verkinu sinn eg þann stad, á Krístí upprísu er þad grundad, af honum verdur fullkomnad.

6. Í skýjum himinsins setja mun sinn, Son mannsins komandi tignar-stólinn, þeytist med háreysti þar lúdurinn, þá rísa' upp mannanna børnin.

7. Á þeirri daganna endíngu sjest, allt hvad

í myrkrunum fyrri duldest, hvørr Drottni þjónadi hér í trú best, hans eda vanrækti bod mest.

8. Allir sem dóu þá uppríса menn, í sinni radan, en skilsmunurenn, millum afdrifanna mun þó ærenn; mørg verda leidd til þess røkin.

9. Upprísu børnin strax uppí loptid, ad Jesú hægri þá verda færd hlid, á hann þau blídasta orda-stad vid, innleidir sídan í Guds frid.

10. Sú lífsins upprisa ástúdleg er; ætlud er hún, madur sannkristinn! þér, um hina ránglátu ødruvís fer, upp þó þeir rísi sem hiner.

11. Fordæmíng þeirra skén fyrifram var, flutti sál daudinn til kvala-stadar; uppríса slíkir til ytstu smánar, æ gjalda vantrúar sinnar.

12. Forblindar Satan þá frásnúnu þjód, Frelsarans upprísu gjørir ad hnjód, forsmáir Guds nádar frambodinn sjód, fetar svo gløtunar á slód.

13. Holdsins ad upprísa ekki til sé, er þánki gudlausra skadlegaste, Drottins ad réttlæti draga þeir spé, Drottins því banar þeim reidi.

14. Og þó straff þeirra fram ei komi hér, ófarsæll daudi þá hrífur med sér, upp til dóms rísa þar úrskurdadir, útlagar Guds ríkis taptir.

15. En þeim sem trú-gódir umfadma sinn, upprísna Frelsara, verdur daudinn, lausn frá armædu, til lífs vegur inn; líf og dey, Guds vin! ókvídinn.

16. Af því þú lifandi, lifir ei þér, lífið þér deyjandi, Guðs Sonur er, hann þig uppreisandi heiðri krýnir, himnasæld gledjandi með sér.

17. Sætt er að vakna af svefni værum, sól líta dýrðar í himna skýjum, útgánga ljómandi úr grøfunum, unnusta fagnandi sínum.

18. Géf mér, ó Jesú! að girnast þar á, géf mér ástunda því hlutfalli ná, géf mér lífs uppríſu gledi að fá, géf mér þitt andlit í dýrð sjá!

## 40. Sálmur.

Jesú uppríſu vegsemd er eilíf.

Lagið: Syrgjum vér ei sáluga brædur.

Í forklárun uppríſu sinnar, inngenginn til vegsemdarinnar, síð og ár vor Lausnari lifir, lífi' og dauða rádandi yfir.

2. Aldrei þrýtur eilífðar dagur; eilíflega á Guðs stóli fagur, situr Drottinn sæll dýrðar ljómi, sól réttlætis, himinsins blómi.

3. Lausnarinn með limina fríðu, lagður forðum spjóti í síðu, sára ørin sín øll skínandi, sífeldt ber á himnum ríkjandi.

4. Sál vors Drottins, sama að bragði, sem hann hana deyandi' aflagði, eilífrar naut annars heims sælu, í Paradís himins inndælu.

5. Þær hans Andar yppurstu dýrdir, engar þoldu fyrir þad rírdir, sálunni þó samtengdi aptur, sinn líkama hans gudlegur kraptur.

6. Allt vald Jesús uppirisinn hafdi; en Guds nádar rádstøfun krafdi, hefjast uppá háscætid skyldi, hann fyrr' enn þad allt brúka vildi.

7. Endíng stand hans nidrunar nádi, nafn og vegsemd eilífa þádi, eilíft ríki, endalaust veldi, í hans høndur Fadirinn seldi.

8. Stjórnar mátans alleina endir, er þad, þá hann ríkid afhendir, allt í øllu ávallt þó blífur, einn vegsemdar kóngur eilífur.

9. Í trú Jesú ef vér hér lifum; útleiddir frá daudans adsvifum, allrar hvíldar í honum njótum, upprisuna farscæla hljótum.

10. Ønd þín, Guds barn! eilífann frama, útgengin af daudans líkama, strax í Drottins høndunum hlýtur, himnaríkis farscældar nýtur.

11. Krists upprisnum líkama líkur, líkaminn med sálunni víkur, af jørd vakinn, einnig til hæda, eilífra þar njótandi gæda.

12. En ef lifir, allra þá kémur, endíng hluta, Drottinn þig nemur, þó umbreyttann, þessu frá Klsi, þig gledur med eilífu lífi.

13. Í himinsins yppurstu scælu, og Guds dýrd-

ar skodun yndælu, er það stærst, hún aldrei kann þrjóta, eilífliga má hennar njóta.

14. Allir menn þó sam-tíðis sjái, Sólina' og nóg ljós hvør fái, daprast þar vid ei það heims auga, allra gledur jafnt sjónar bauga.

15. Aldrei ljóssins arfur kann þrjóta, allir fullrar hlut-deildar njóta, allann Gud sinn eignast hvørr madur, útvalinn á himnum blessadur.

16. Hér af skér, ad enginn øfundar, annann þar, né meira tilstundar, enn í Gudi um aldir ad sedjast, andlitis hans sjón vid ad gledjast.

17. Stjarna í fegurd stjørnu þótt vinni, stendur hvør í ræd bestu sinni; útvaldra þó megi glans muna, mun hvør sínu hlutskipti una.

18. Engla líking útvaldir tignast, í Guds dóma medur þeim skygnast, Drottins ástar djúpid ad grunda, Drottni hjá um eilífd þeir stunda.

19. Eilíf sæla oss er tilbúin, ad því hnossi leidir sig trúin. Í þá dýrd, sem ekki nú sjáum, inn senn gánga, børn Drottins! fáum.

20. O Jesú! sem upprisinn lifir, øllum hlutum rádandi yfir, veit oss dug í von lífs af-þreyja, vora stund, og sætliga deyja!

21. Dyrdlegur upp, Drottinn! rísandi, dýrdligur í hæd varst farandi, dýrdligur munt dauda vekjandi, dýrdligur þíng essta haldandi.

22. Kom! glebjandi kristnina þína, kom! sedjandi lífsins girnd mína, kom! leidandi Kedars frá tjøldum, kom! greidandi launin útvøldum!

23. Sigur = ljód skal fagnandi fœra, fridkeypt þjód heims Lausnara kœra, føgur hljód med streingja = leik skœra, stundud gód svo verdi hans œra.

24. Dýrd sé, þér, minn Drottinn! strídandi, dýrd og heidur yfirvinnandi! sómi, kraptur, sigri hrósandi! sífeldt lof um eilífd ríkjandi!

---

Fimmtíu

# Hugvekju Sálmar,

kvednir

af

Síra Sigurdi sál. Jónssyni.

---

## 1. Sálmur.

Um rétta þekking syndarinnar.

Lagid: Haldt oss, Gud! vid þitt hreina ord.

Ó! Gud heilagi Herra minn! hefi eg aumur þrællinn þinn, synda eitur svo inndrukkid, einsog jord vatni tekur vid.

2. Víst er mín synd úr máta mjøg, mørg, úng, gømul og svívirdilig, en þín reidi sá eldur er, ógudlegum sem fortærer.

3. Réttlætid allt sem orkad gat, er sem blódsjúkrar kvinnu fat, ó! hvad ránglætid íllt og frekt, er þá fyrir þér svívirdilegt!

4. Ljósíd medan í myrkri er, mikla byrtu þad gefur af sér, en þegar sólin á þad skín, alla missir þad geisla sín.

5. Eins er þad margt í athøfn manns, ad áliti hærsta dómarans, ófullkomid og einkis verdt, er vér þó meintum heilagt gjørt.

6. Hvar mun eg aumur frelsi fá? þó flýja vildi eg í himininn há, þá er þar fyrir utan ef, er eg svo tídum styggdann hef.

7. Á jordu er hvørgi hæli hér, Herrans skepn-

ur þær mýja mér, með því eg hefi móðgað hann, minn og þeirra Guð skaparann.

8. Afsøkun heims er hørð og stór, himin, lopt, jørð, vatn, eldur, sjór, Englar, samvitska, Satan senn, og sjálfur Guð klagar vonda menn.

9. Hvør má við slíku reisa rønd, réttlætið stár á aðra hønd, þegar allt þetta amar að, ekki er sýnt um griða stað.

10. Glæpugum þeim sem girnast náð, gefur Salómon heilnæmt ráð, í bjargskorum sig feli fljótt, flýja vil eg nú þángað skjótt.

11. Bjargið það sem hann segir hér, sjálfur Jesús vor Drottinn er, skorurnar eru undir hans, í þeim er hæli syndugs manns.

12. Lífsins uppspretta er þar ein, øll kann sú græða dauðlig mein, svala drykk finnur þyrstur þar, þvotta-laug hinn sem óhreinn var.

13. Þar vil eg koma þjáður þræll, þar vil eg felast, Jesú sæll! meðan Guðs reiði fram hjá fer, flý eg til þín, þú tak við mér.

14. Ekki þarf eg að óttast þar, ákløgun Guðs og skepnunnar, sá er frá allri ánauð frí, undum Drottins sem hvílist í.

15. Herra Jesú, minn hlífðar múr! hjálpa mér øllum vanda úr, tak mig í þína opnu und, og annastu mig í dauða stund.

## 2. Sálmur.

Um yðkun yðranarinnar af Herrans pínu.

Lagið: O! min sála uppvakna nú.

Sjáðu og hugleið, sála mín! sára og beiska Jesú pín, sjáðu hans mæðu megna, kvalanna stærð og ofraun af, øndina upp á krossi gaf, það leið hann þinna vegna.

2. Sjáðu hér þinna synda stærð, sjá þú hvað mikið kosta varð, sár þín og sjúkdóm græða! Guð líður sjálfur grimma pín, Guð úthellir hér lífi sín, Guð kvelur margskyns mæða.

3. O! hvað banvænligt er það sár, þar ekkért annað til græðslu stár, enn bartskérans blóð úr æðum, ó! þá kynja stærð kránkleikans, kostaði dauða læknarans, Guðs þó á himna hæðum.

4. Þú, kristin sála! sjáðu hér, syndinni svo Guð reiður er, þó hans Son sátta bæði, Føður sinn kjærann fyrir oss, fallna í synd og dauðans bloss, Guðs þó ei rénar reiði.

5. Hann tók þá á sig hørund manns, helgandi svo náttúru hans, að synda eitri eyði, hann þá samteingdi holdið við, heilagasta sitt réttlætið, Guðs þó ei rénar reiði.

6. Allt þángað til hann á sér bar, íllgjørð og syndir veraldar, kvalinn á krossi deyði, hann lét útpressa líf og blóð, að leysa og græða heimsins þjóð, Guðs þá rénaði reiði.

7. Háð, sløg, sár, bríxl, og heljar neyð, hrakníng og smánir Jesús leið, blessaður í bøndum þreyði, Faðirinn leit þá sáru sút, sál og líf hans þá blæddi út, Guðs þá rénaði reiði.

8. Hann sem heilagur híngað kom, hlaut að líða svo strángann dóm, særður með svoddan hætti, sá sem kémur með synd í heim, síðan lifir og deyr í þeim, titrandi ydrast ætti.

9. Hræðast og skjálfa sképnu ber, Skapara sinn því hefir hér, krossfest og kvalið bæði, þrællinn má þetta óttast eitt, að hann hefir sinn Herra deydt, syndugur helgann hrjáði.

10 Kristur líðandi kvøl og deyð, kallar til vor í sinni neyð, látum oss honum hlýða, syndug manneskja sjá þú mig, sannlega hlýt eg fyrir þig, svoddan saklaus að líða.

11. Særir mig eitt og svíður mest, sje eg og veit að þjóðin flest, mína pín aktar eigi, óþakklætið, sem almennt skér, allri kvøl þýngra fellur mér, á mínum andláts degi.

12. Heyrðu nú svoddan, sála mín! sértú þakklát í Jesú þín, með ást og ydran heita, syndanna verkum sjáðu við, sær þú ei framar Drottinn Guð, né hann til reiði reita.

13. Miskunar Faðir! miskun þín, miskuni oss fyrir Jesú pín, og helgi vor hjørtu kramin, Jesú!

þín bæn og benja foss, bót og lífgun sé øllum oss, Amen, ó! Jesú! Amen!

## 3. Sálmur.

Um ávøxt sannrar ydranar.

Lagid: Sá frjáls vid løgmál fæddur er.

Syndugi madur sjá ad þér, sál þín svo hólpin verdi, eilíft líf byrjar hvør sá hér, hreina ydran sem gjørdi.

2. Hvar sú hin hreina ydran er, er þar og kvittun synda, en sú kvittun hún ablar sér, elsku Guds til mannkynda.

3. Hvar Guds ást er og hylli hans, hans Sonur er þar medur, í honum bót á misgjørd manns, manns samvitsku þad gledur.

4. Hvar samvitskan er gløð og góð, Guds andi býr þar inni, og heiløg þrenníng sem hjálpar þjód, med hollri lífgjøf sinni.

5. Því fá þeir allir eilíft líf, sem yfirbót synda vinna, en andartjón og eymda kíf, ydrunarlausir finna.

6. Drottinn þar uppá dó á kross, ad deyja syndin mætti, látum því ekki lifa í oss, lesti med vondum hætti.

7. Sálar daudinn andlegur er, íllgjørd og syndin manna, undan drøgum því ekki vér, ydrunar verkid sanna.

8. Aumur er sá, sem ekki kann, íllgjørdum bót

á vinna, sjálfann Guð frá sér fælir hann, með fylkíng engla sinna.

9. Syndin styggir Guðs anda út, af musteri vors hjarta, eins og býflugur flýja braut, ef finna reykinn svarta.

10. Svo sem Guð framar öllum er, einn hlutur sá hinn besti, eins er og víst í sjálfri sér, syndin vor hinn sá versti.

11. Nú þó syndir, sem vinnum vær, víst stórar heita meigi, ef ydrun breidist útyfir þær, augu Guðs sjá þær eigi.

12. Með því þú safnar synda fans, sífellt og marga vega, ydruuar tár þíns innra manns, af hvoi þær daglega.

13. Géf mér, Herra! í hjartað mitt, hreinann ydrnnar anda, svo að mín sál af syndum kvitt, sýngi þér lof án enda.

## 4. Sálmur.

*Um það sæta Jesú nafn.*

Lagið: Jesús Kristur á krossi var.

O Jesú! nafn þitt ilmsætt er, alla miskun og frelsi lér, því bið eg þig, minn Jesús! vægðu og líkna veikum mér, og vertu mér Jesú Jesús.

2. O! hjartans unun innileg, elsku þinni begáfa mig, girnd mín og gledi Jesús, fyrir mér ekki feldu þig, fyrst þú ert Jesú Jesús.

3. Miskunar tíminn meðan er, miskuna þú og

líkna mér, miskunar mergdin Jesús! miskunar tím-
inn þegar þver, þá vert þú mér Jesú Jesús.

4. Drími verdur ekki neitt, í þó miskunar fáng-
id breidt, mig takir mildi Jesús, sála mín er af
syndnm þreitt, sért okkur Jesú Jesús.

5. Öll sálar fæda of þurr er, utan med-bland-
ist þad vidsmjør, sem ertu sæti Jesús, svoddan
krydd minni sálu ber, sért henni Jesú Jesús.

6. Synda eitur eg sogid hef, Satan hlýdandi
vondsku ref, í þinni augsýn Jesús, trúi eg þó fyr-
ir utan ef, ad ertu mér Jesú Jesús.

7. Uppruna synd, sem erfda eg, áklagar mig
og þrengir mjøg, í þinni augsýn Jesús, þó hún
sé stór og svívyrdileg, samt ertú mér Jesú Jesús.

8. Fæding og gétnad flekkar synd, fordæmanleg
er sképnu kind, í þinni augsýn Jesús, þó saurgun
fylgi svoddan mind, samt ertu mér Jesú Jesús.

9. Satan oss jafnan svikid fær, syndir daglega
gjørum vær, í þinni augsýn Jesús, svívyrdilegar
þótt séu þær, samt ertu mér Jesú Jesús.

10. Þó ad eg sóma svipti mig, samt kann eg
ekki ad sneida þig, mikilli miskun Jesús, eptir því
hún er æsinleg, oss ertu Jesú Jesús.

11. Svo sem mér harla hægt var þad, ad hrapa
í eymd og kvala stad, frá þér, Frelsarinn Jesús!
veit eg svo hægt þér vinnur ad, vera mér Jesú Jesús.

12. Í lífi, deyd og dómsins hríd, daglega og um

allann tíd, vertu mér veikum Jesús, fyrir þinn dauda, sár og stríd, frida mig Jesú Jesús.

13. Minnstu ei svo á syndir mín, ad sjálfur gleymir þú miskun þín, heilagi Herra Jesús! sálar lífgun og sadníng sín, sértú mér Jesú Jesús.

14. Ad lifa og deyja, Lausnari minn! líka koma fyrir dóminn þinn, þori eg því, mínn Jesús! í pínu nafni eg frelsi sinn, fyrst þú ert Jesú Jesús.

15. O, Jesú! fyrir þinn unda foss, alla kvalníng og deyd á kross, og nádar nafn þitt, Jesús! annast þú lífs og lidna oss, lof sé þér Jesú, Jesús!

## 5. Sálmur.

### Um trúarinnar ydkun.

Lagid: Sæll ertu sem þinn Gud.

Drottinn eg aumur er, í hugsun minni, opt gjøri eg óréttt þér, og pínu þinni.

2. Græt eg þad gódverk mín, glæp bæta eigi, svo sem synda bót þín, síst nægjast megi.

3. Læst eg svo leggja á, lappann gódverka, forþénan þína þá, þrautar nóg sterka.

4. Hvør sem sig heilagann, hér fundid gæti, hvad þyrfti ad hugsa hann, um Herrans réttlæti.

5. Undir nád erum nú, ekki løgmáli, sjáum til svoddan trú, syndin ei brjáli.

6. Hátt upp í himininn, heilagi Fadir! syndgad hef eg sonur þinn, svívyrdilegt þad er.

7. Aumur eg ekki má, arfi þinn heita, virdstu mér þrjótskum þá, þræls nafn ad veita.

8. Öblug er syndin sú, sem mig vill pína, lát hana loksins nú, lífinu tína.

9. Holdsins íll ysirrád, um sídir linni, og missi abl og dád, andinn svo vinni.

10 Eg hefi heimskur mann, hyllst Satans ædi, unn mér ad óvin þann, eg sigra nædi.

11. Otta víst undir bjó, ógn dauda kífsins, ílls endir er hann þó, og inngángur lífsins.

12. Nær lífid úti er, øll meinin þverra, þá mun eg þókknast þér, þú gódi Herra!

13. Öll syndin er þá kvitt, í himna sæti, einn Gud því ertu mitt, einka réttlæti.

14. Daudann ei óttast nú, né eymda kífid, hædst-ur ert, Herra þú! heill mín og lífid.

15. Sál mín af syndum kvitt, sjá mun þín mæti, bodin í brúdkaup þitt, brúdguminn sæti.

16. Þá reyni eg þad og finn, ad þú ert mér bædi, blídasti brúdguminn, og brullups klædi.

17. Eg hefi íklædst þér, á skírnar degi, sá skrúdi skýlir mér, skadar synd eigi.

18. Í skjærum skrúda þeim, skal eg fram gánga, þá Drottinn dæmir heim, á degi stránga.

19. Dýrdar skart skal oss þar, skínandi géra, hvört oss til eilífdar, audnast ad bera.

20. Í sanna sælu dýrð, senn leid oss, Herra! sú lofgjörd sé þér skírd, sem ei má þverra.

## 6. Sálmur.

Um huggun þess ydrandi í Kristí pínu.

Lagid: Kóngíng Davíd sem kénndi.

Allur syndugs manns sómi, sannlega fólgin er, í því Frelsarinn frómi, ad forsmádur varstu hér, og þjádur þúngri pín, daudi þinn er líf lýda, lækníng og huggun fríða, hóp mitt og huggun mín.

2. Þú einn Gud allra lýda, eg gat þig módgad víst, en þig aptur ad þýda, orka kunni eg síst, en fyrir Kristi kross, er oss nú ordinn fridur, af því þig sjálfann vidur, sættir þú seka oss.

3. Sjá nú þá særíng megna, Sonur þinn líða hlaut, fyrirgéf það þessvegna, þrællinn íllur sem braut, Drottinn miskuna mér, synd mín er sandi fleiri, samt er þín nádin meiri, þvíad hún eilíf er.

4. Ef ad eg ekki játa, íllverk og synda þrá, þá kann í engann máta, aflausn þeirra ad fá, en ef auglýsi þær, sár svívyrdilega skarta, særandi kramid hjarta, en samvitskan felmtur fær.

5. Haldtu því ekki inni, ást þinni, Fadir kjær! né nád í naudsýn minni, nákvæmd allri mér tær, minnstu miskunar þín, reidstu mér aumum eigi, af því þú hefir sleigid, Son þinn fyrir syndir mín.

6. Hvør munu aums úrrædi, á reikníngsskapar tíd, þá senn adsækja bædi, syndin og réttlætid, sitt

stár á hvørja hlið, undir Andskotans hreiður, uppi Dómariun reiður, en samvitskan svipt er frið.

7. Veröld er øll í loga, umhverfis manninn þá, hvørninn má hræddur voga, í Herrans augsýn framm gá? ei heldur falist fær, hvað er þá helst til ráda, hvør vill þá sálu náda, hvar mun þá hvíldin vær?

8. Hvør er sá einn sem heitir, Eng:ll hins mikla ráðs? aumum viðtøku veitir, verndarinn lýðs og láðs, Jesús það eflaust er, milli hans hjálpar handa, hræddur mun eg þá standa, hans fullting hlífir mér.

9. Sál mín! þín góð trú gleðist, gleð þig og fagna nú, uppá þann er þú hræðist, ókvíðin vona þú, vert ekki ørvæntin, frá þeim sem fyrri flúðir, flýðu nú á þess náðir, hann reynist þér hollur vin.

10. Minn Guð! eg má það játa, mikil er syndin mín, þó er í allann máta, enn meiri náðin þín, øll mín von í þér stár, gef þú eg glatist eigi, gef að þig lofa meigi, hér og um eilíf ár!

## 7. Sálmur.

### Um ávøxt Kristí pínu.

Lagið: Faðir vor sem á himnum ert.

Þá Herrans Jesú harða pín, hugleiði eg með krapti sín, eykst þá mín trú og eblist best, um það tvennt, sem mig varðar mest, ást Guðs til mín, og annað hitt, afbrotin øll eg fæ vel kvitt.

2. Þegar minn Herra hékk á kross, hneigði sinn munn að kyssa oss, arma útbreiddi báða senn, baudst

til ad kyssa alla menn, hann lauk upp sínum høndum tveim, ad hjálpa og audga oss med þeim.

3. Hann lét því opna sídu sín, svo þadan streymdi lífgjøf mín, og ad hans heita hjartans þel, hægra sé oss ad skoda vel, hans sár eru af ofraun blá, ást veldur því þau ljómar á.

4. Látum oss í hans opnu und, inngánga því med gladri lund, skodum hans heita hjartans ást, hvør oss syndugum aldrei brást, í hans sárum er nádar nægd. nóg endurlausn og allskyns hægd.

5. Af fimm líkamans limum hans, lagadi blód til syndarans, høndum, fótum og sídu senn, svo þad lífgadi alla menn, og þad signada sára flód, syndir þvægi af allri þjód.

6. Hann var hrakinn med þúngri þrá, þrásamlega hann Júdar slá, slá þeir gadda í holdid hans, hans blód útkreysti syndin manns, manns hendur Gudi unnu á, á honum margskyns kvellíng lá.

7. Hann strídđi daudann hardann vid, hann svo oss veitti andláts frid, hann var sakfeldur hér á jørd, hans børn svo yrdi saklaus gjørd, hann lét sig slá med heipt og koss, hann svo ákløgun fyrrti oss.

8. Hann stundi hátt med harma-kvein, hann svo oss bætti eilíft vein, hann bar á sínum herdum kross, hann svo þýngd allri létti af oss, hann var deyddur og hrakinn senn, hann svo lífgadi alla menn.

9. Svo sem þá vínber of-þýngd af, alla vega

sinn løg útgaf, eins prestsadist vors Herra hold, hrundi hans dreyri nidur á fold, undan þýngd alls heims íllgjørdar, og reidi Guds, sem Jesús bar.

10. Svoddan gagn fær þú, sála mín! af sárum Jesú og beisku pín, handskrift sem oss var móti mest, med sér hefir á krossinn fest, hans blód hana afþvodi þar, í þíng-húsi Guds sem ritud var.

11. Vertu því gladur mæddi mann, manna hjálp alla Jesús vann, ef stór eru þín synda sár, sár hans eru þér lækníng klár, hans blód þad edla umsal er, sem alla grædíng veitir þér.

12. Andlát þitt, Jesú! og þín pín, allra meina sé bótin mín, í lífi og dauda athvarf allt, æfinlega mér vid þig haldt, þú heiløg þrenníng hýr og blíd! haldist þitt lof um allann tíd!

## 8. Sálmur.

Um fullvissu vorrar sáluhjálpar.

Lagid: Lifandi Drottinn líkna mér.

Gled þig, mín sál! og gæt þú ad, Gudi skapara þínum, mundu hans nád og minnst á þad, þá mindadi hann þig í leynum, ádur þegar varst enginn þú, umhyggju bar hann þína, egln mind hans ert ordinn nú, ei kann hann þér því tína, hann annast alla sína.

2. Nú þó ad vísu syndug sért, svo Guds mind hafir tapad, hann sem af engu gat þig gjørt, gétur þig endurskapad, sá sem þig skóp án synda flekks,

saurgun þína kann bæta, og íllsku rót, sem í þér vex, alla í burtu ræta, að því skalt gjörla gæta.

3. Hjá Guði erum líkt sem leir, leirpotta smiðs í hendi, um æfi finnast engvir þeir, sem eru sín verk hatandi, skyldi hann þar til skapa þá, sképnu kind sína manninn, handaverk þau að hata og slá, og hrekja í djøfla ranninn, sál mín! ei þeinktu þanninn.

4. Víst er sköpun og mindin manns, mikið Guðs ástar merki, en gjør vottast þó elskan hans, af endurlausnar verki, aldrei gyrnist þú gløtun mín, góði hirðirinn sauða, fyrst að þú þoldir þúnga pín, þig gafst í píst og dauða, til lífs og lausnar þjóða.

5. Sá oss frið=keypti Føðurinn við, fullnaðar býru verði, annast oss nú og leggur lið, líf vort svo enginn skérði, þetta tilflugt ei verður vallt, veldur því það eg segi, sú náðar gæðskan gnæfir allt, Guð fyrir þrælinn deyi, sál mín! því efast eigi.

6. Vér erum, Guð! þín óska børn, og arfar að himna vistum, svo elskar þú nú sérhvørn vorn, sem Drottinn Jesúm Kristum, ráð og uppfylling eilífs lífs, oss géfst í Syni þínum, uppsprettu góðs og endíng kífs, uppgjøf á synd og pínum, gleðst eg í Guði mínum.

7. Hvørninn kann sá að hata mig, helfør mína sem bætti, og gaf í dauðann sjálfann sig, svo að eg lifa mætti, þó óvinir allir mýji mér, mína sál á= klagandi, Jesús mitt hóp og hæli er, helgun og lausn frá grandi, trú mín því støðug standi.

8. Lof sé þér, Fadir! fyrr og síd, fyrir þinn Soninn kjæra, og þér, Jesú! sem leystir lýd, líka sé dýrd og æra, svo helgum Anda sama veg, sanna vegsemd skal gjalda, þú eining þrenníng ódaudleg! unn mér þinn prís margfalda, hér og um aldir alda.

## 9. Sálmur.

Um þad, ad vér skulum elska Gud mest.

Lagid: Drekkum af brunni nádar.

Rís upp rétt kristin sála, rádholl ad læra, stundlega hluti hála, ei haf þú kjæra, en þann ypparsta góda, elska og stunda skalt, hvørs nægdar gædskan fróda, gott innibindur allt.

2. Uppsprettan alls hins góda, er hjá Drottni, honum átt ást ad bjóda, svo aldrei þrotni, skapada sképnu neina, skalt ekki elska þú, því engann ástar beina, aptur þér géldur sú.

3. Þeim áttu øllu ad tæra, ástar geingi, er þig hafdi þá kjæra, er þú varst engin, þá hann til reidi reitir, rasandi títt og þrátt, syndsamlega svo breytir, sem elskadi hann þig dátt.

4. Hjartans ununar ardur, um innstu reita, og andar aldingardur, má elskan heita, hún útilokar heiminn, af hjarta mannsins best, Satan og synda keiminn, sigrar og grædir flest.

5. Hún læsir djøfla dýki, og dádir eikur, hædsta himna-ríki, hún upplýkur, ást er útvaldra merki, ekki til hjálpar sein, út af elskunnar verki, auglýsist trúin hrein.

6. Ef sálin elskar eigi, þann æðsta góða, dauða að sønnu segi, og sómasnauða, yndis hægð enga hefir, og engin rólegheit, ugglaust í syndum sefur, sitt hjálpar-ráð ei veit.

7. Guði því áttu að unna, af øllu hjarta, engar ýðjur kunna, æðra að skarta, ef þú uppbyrjar eigi, að elska Drottinn hér, upp frá þeim efsta degi, ekki veitist það þér.

8. Sviptu mig synda galla, minn sæti Herra! og bannaða elsku alla, lát í mér þverra, géf að þér einum unni, og elski hjartaklár, svo að eg síðar kunni, að sjá þig um eilíf ár.

## 10. Sálmur.

### Um vora friðþæging.

Lagið: Mitt hjarta hvar til hryggist þú.

O! hvað mikil er miskun sú, minn Jesú! sem oss veittir þú, sjúkdóm vorn sjálfur barst, fyrir heimsins syndir særður varst, sveið þér und en hjartað þitt skarst.

2. O! þau vilkjør og býti best, að barstu réttlátur straffið mest, ránglátur fann þó frið, heilagur tókst þú hegníng við, hinn syndugi fékk þá grið.

3. Þú tókst á þig hið versta vort, var það syndin sem høfðum gjørt, þitt besta þú gafst oss, það var lífið og lausnar hnoss, leiðstu sjálfur dauðann á kross.

4. Og nú með því þín elskan best, á sig tók það,

sem vort var vest, bestu eign bjódum nú, líkami vor og sál er sú, svoddan hnoss er girnist þú.

5. Hefdir þú ekki, Herra trúr! hjálpad ránglátum dauda úr, og keypt hann kvølum frá, þína réttláta furdu fá, fundid mundir hafa þá.

6. Fadirinn hefur hefnst á þér, hverskyns synda sem gjørdum vér, því sést oss þrælum vægd, þad er þér, sál mín! sinnis hægd, ad synd er kvit, en reidi Guds lægd.

7. Hvørninn kanntú þá, Herra kjær! ad hefnast á oss fyrir syndir þær, sem ad þú sjálfur barst? sálin þín af sorgum skarst, ad synd fyrir oss þá gjørdur varst.

8. Enginn hefur nú abl né vald, á oss ad leggja hefndar gjald utan einasti hann, fyrir vor brot, sem borga vann, og búinn er ad fridkaupa mann.

9. Gled þig, mín sál! vid saunleik hans, er syndugs vill ekki dauda manns, ad eilífu segir hann satt, í þeirri trú þú stødug statt, sterka trygd hann vid þig batt.

10. Í Guds metaskál miskun er, miklu þýngri þá vigtum vér, heldur enn alls heims synd, sértú ald ei svo, sál mín! blind, ad svoddan huggun tapir í vind.

11. Manndu ad synd er mannsins verk, en miskun Guds þó stendur sterk, er þeirra ólík dád, illgjørd stundlig, en eilíf nád, og ósegjanlegt Drottins rád.

12. Flý eg nú aumur argur þræll, undir náð þína, Guð minn sæll! sýndu því miskun mér, þig skal lofa og þakka þér, það á meðan eilífðin er.

## 11. Sálmur.

Um friðar bót fyrir vorar syndir.

Lagið: Hvør sem að reisir hæga bygð.

Mildi Jesú eg minnist nú, miskunar boð þitt kjæra, syndugum gjørðir sjálfur þú, svoddan orðum að tæra: allir sem þjáist þýngsla pín, og þreittir eruð, komið til mín, ydur skal endurnæra.

2. Þar til gjøri eg svo svara þér, sannleiksins dýrsti munnur! syndanna þúngi þreingir að mér, þér er minn brestur kunnur, andvarpa eg í eymdum mín, og vil því gjarnan koma til þín, lifandi lífsins brunnur.

3. Þúngar eru sem ærið blý, ofmargar mínar syndir, erfiða eg og þjáist því, þessari byrði undir, glæpafullann eg aldur el, en vil þó gjarnan deyja vel, Herra mér huggun sendir.

4. Kom þú, minn Jesú! kom til mín, kom þú með ásján hýrri, þvíað eins kann eg að koma til þín, að komir þú til mín fyrri, kom þú og svala mæddum mér, margskyns synda eg okið ber, endurnær mig náð nýrri.

5. Hjálpi mér best þín heiløg ønd, hjálpi mér best þinn dauði, og líkami þinn, sem leið hér bønd, laugaður píslar blóði, sár þín, undir og árnan trú, og allt það fyrir mig þoldir þú, hjálpi mér Herra góði.

6. Dauði þinn fann oss frelsis hlíf, frið, lífgun og réttlæti, meir mun þá þitt lifanda líf, léna oss allskyns mæti, hvar þín minníng í hjarta var, herbergjar þú og lifir þar, tign er það svoddan sæti.

7. Gleð þig nú, sál mín! gleð þig nú, gleð þig í Drottni þínum, er óbeðinn veitti ást og trú, óvina flokki sínum, vina grátbeiðni vill hann þá, veita gjarnan og miskun tjá, hægð er það huga mínum.

8. Þegar þú, hjartans Herra minn! héðan gjörir mig kalla, leið þú mig þá til lífsins inn, á ljómandi dýrðar palla, svo að mér hlotnist heillir þær, að heyra þig, sjá og vera þér nær, og lofa um eilífð alla.

## 12. Sálmur.

Um art og eginlegleik sannrar trúar.

Lagið: O Faðir minn! eg þrællinn þinn.

Upp, upp, mín sál! er þér nú mál, að yfirvega trú þína, krapt-mikil er, Kristó því ber, kjærar þakkir að sýna, edla hlut þann, inngaf þér hann, áttu því svo að greina, lof sé Guð þér, þú léntir mér, lífið og trúna hreina.

2. Af trú það skér, að verðum vér, vel innplantaðir Kristi, eins og víntré, viss meistari, viðgræðir lausa kvisti, af Drottni má, lífs frjófgun fá, frægri' enn nokkra gimsteina, lof sé Guð þér, þú léntir mér, lífið og trúna hreina.

3. Olli trú sterk, Abels fórn-verk, allvel þóknaðist Guði, Drottni svo sætt, þykir mjög mætt,

munn-offur þess sem trúði, er það bæn ein, øblug og hrein, orkandi bótum meina, lof sé Gud þér, þú léntir mér, lífið og trúna hreina.

4. Enochs trú vann, að sá Guðs mann, upp var numinn í hæðir, hún svo girnd manns, til himna ranns, heimsins frá glisi leiðir, eilíft líf því, og íbúð Kristí, oss géfst nú hér að reyna, lof sé Gud þér, þú léntir mér, lífið og trúna hreina.

5. Sønn trú það vann, Sara gat mann, sínum í aldurdómi, svo gétur Krist, sérhvør sál víst, sem er prýdd skírleiks blómi, en þetta hér, andlega skér, øblganu við trúar beina, lof sé Gud þér, þú léntir mér, lífið og trúna hreina.

6. Af trú það kom, að Abraham, Isaach forna kunni, sjálfs vilja manns, er sálar hans, son sá hún heitast unni, andlega í trú, honum offra þú, elsku sýn þér ei neina, lof sé Gud þér, þú léntir mér, lífið og trúna hreina.

7. Olli trú góð, Israels þjóð, yfirgékk hafið rauða, svo komumst vér, hættulaust hér, heims yfir sjóinn nauða, Rahab frið fann, frelsast svo mann, fyrir trúna alleina, lof sé Gud þér, þú léntir mér, lífið og trúna hreina.

8. Hrein trú það er, þá hjartað hér, Herrann medtekið gétur, með árnan hans, og er til sanns, í honum traustið setur, fullviss um það, hún finni

náð, fyrir græðarann meina, lof sé Guð þér, þú léntir mér, lífið og trúna hreina.

9. Upprennur sú, hin øblga trú, af andlegu Guðs orðs sæði, eins er og tún, andinn og hún, eitt eru þessi bæði, orð Guðs er sar, sem andann ferjar, inn í hjartað leið beina, lof sé Guð þér, þú léntir mér, lífið og trúna hreina.

10. Opt-nefnd trú hér, andlegt ljós er, upp-ljómandi manns hjarta, geisla þá ber, sem géfa af sér, góðverka skinið bjarta, hvar það fatast, hana þar brast, hendti það bernsku meina, lof sé Guð þér, þú léntir mér, lífið og trúna hreina.

11. O! minn Jesú! mér inngéf þú, andlegt ljós trúarinnar, lýsi það mér, svo læri eg gjør, leið sáluhjálpar minnar, svo eilíft líf, eptir heims kíf, eg mætti fá að reyna; lof sé Guð þér, þú léntir mér, lífið og trúna hreina.

## 13. Sálmur.

Um andlegann hjúskap Kristi og sálarinnar.

Lagið: Eins og sitt barn.

Bú þig! sál mín! bidlar til þín, blessaður Guð án efa, eg vil þig mér, eg vil þig mér, Jesús svo tér, jafnan og æ trúlofa.

2. Gleð þig nú því, Guði þeim í, er géfur þér brullups klæði, og glóandi skart, glóandi skart, girnilegt margt, gullhring og allskyns gjæði.

3. Flýttu þér þá, fegurð hans sjá, fagnandi tak

við honum, brúðgumi þinn, brúðgumi þinn, með blómleik sinn, ber lángt af manna sonum.

4. Hann skýn sem sól, þá heimsins hjól, heitast uppljóma kunni, dáfríður sveinn, dáfríður sveinn, dýrð krýndur einn, drýpur náð af hans munni.

5. Athuga þú, þinn aumleik nú, og hans hátignar prýði, svo veitstu gjör, svo veitstu gjör, hvør sæmd það er, sér tók hann þig fyrir brúði.

6. Þú varst nakinn, því var ei kyn, þyrðir ei inn að koma, í kóngsins sal, í kóngsins sal, né koma á tal, við Kristum þinn brúðguma.

7. Synda lørfum, síður þørfum, sjálfur hann þig úr færði, silki-fat nýtt, silki-fat nýtt, með sóma prýdt, síðan til eignar tærði.

8. Gyllini armbønd, gaf þér á hønd, guðvef og brúðkaups klæði, og eyrna skart, og eyrna skart, en allt óþarft, af = þvoði sínu blóði.

9. Allt hvað hans er, ótýginn þér, aum brúður géfur hann þetta, hunáng, viðsmjør, hunáng, viðsmjør, þá húngur skér, hold sitt og blóð til rétta.

10. Ekki neitt slíkt, eða þvílíkt, orkar þú honum að veita, helst má þó dást, helst má þó dást, að hjartans ást, sem hefur hann til þín heita.

11. O! hvað sál sú, síðar og nú, sæl og blessuð má heita, svoddan teingd nær, svoddan teingd nær, að Son Guðs kjær, sér vill til ekta játa.

12. Trúin á hann, traustast hún kann, teingdir

slíkar að festa, allt hans góz er, allt hans góz er, eginlegt þér, æra og tignin mesta.

13. O þú, sál mín! unnusta þín, ástúðlega tak móti, haldtu vel trú, haldtu vel trú, hórast ei þú, hans vingan svo ei þrjóti.

14. Þér, Jesús kjær! það þøkkum vær, þú í teingð oss ert kominn, leið þú oss inn, leið þú oss inn, lífgjafari minn! í lambsins brúðkaup, Amen!

## 14. Sálmur.

Um Kristi dásamlega manndóms tekníng.

Lagið: Ofan af himnum hér kom eg.

Látum oss nú, mín ljúfust børn! litla stund hepta huga vorn, þessu stundlegu starfi frá, stunda og þeinkja andlegt á.

2. Hjartans augun þá hefjum fyrst, héðan og uppá Jesúm Krist, athugandi hvør ást hans var, og leyndardóm hans fæðíngar.

3. Hann sté niður í holdið vort, hann svo oss feingi Guðs børn gjørt, heiløg fæðíng og holdgan hans, hreinsar og bætir saurgun manns.

4. Í tíð friðsama Augustí, oss vildi Jesús fæðast því, svo að hann feingi sett til sanns, sátt og frið milli Guðs og manns.

5. Hann fæddist því af hreinni mey, hann sýndi það hann kynni ei, andlega að fæðast utan þar, ósaurgað mannsins hjartað var.

6. Otignir sá þann føgnuð fyrst, fæðíng Kristi

þeim bodadist, því honum best þeir þókknast hér, sem þykjast í hjørtum dálitlir.

7. Englar boda fyrst føgnud þann, fjárhyrdurum, því sjálfur hann, sálnanna hyrdir sannur er, sem beinir veg þeim viltur fer.

8. Med fjárhyrdurum førum af stad, fæddum Jesú nú leitum ad, í Bethlehem (það braud=hús er), barnid í reifum finnum vér.

8. Í jøtu liggur sveinninn sá, søfnud Guds barna þýda mó, heiløg ritníng er rétt til sanns, reifarnir þessa Guds og manns.

10. Mikil og stór er miskun sú, mér aumum veittir Jesús þú, þá ekki komst eg upp til þín, ofan stést þú híngad til mín.

11. O! hvad furdanlegt er það ráð, sem uppá fann þín vísdóms náð, ad miskun er nú áſátt vid, allra strángasta réttlætid.

12. Hreinsi nú best mitt hjartans hús, heiløg þín fædíng, minn Jesús! gakk sídan inn til gistíngar, Gud, velkominn ad hvílast þar.

13. Allir samsýngi engla hyrd, í upphædum sé Gudi dýrd, á jørdu fridur einnig sé, og mønnunum gódur vilji.

## 15. Sálmur.

### Um ávøxt Kristí manndóms.

Lagid: Til þín, heilagi herra Gud!

Eg boda ydur, engill tér, ærinn føgnud til handa,

sál mín! þú hefur huggun hér, hræðslu lát þér ei granda, fagnandi tak við fæðíng hans, sem forbetrað hefur ráðið manns, lífgað og leyst úr vanda.

2. Oss er skrifað að olíu kvist, í ørkina dúfan bæri, auðsýnandi svo fólki fyrst, flóðið nú þurða færi, eins hefir Jesús fært oss frið, af føðursins hendi sátt og grið, en reiði hans runnin væri.

3. Oss hefir Jesús elskað heitt, að eilífu samteingjandi, guðdóms og manndóms art í eitt, óslítanlegu bandi, hvørnin mun því hans miskun þá, manninn géta sér slitið frá, hold sitt og blóð hatandi?

4. Þann leyndardóm um holdgan hans, hvør mun útskíra kunna, lofleg hátign við lægíng manns, lét sig samteingjast nunna, hvað er dýrdlegra heldur enn hann, hvað er slæmra enn týndur mann? þó vill Guð þessum unna.

5. Ogrípanlegur Guð var það, gjørði mannsképnan reita, þó bar hún sig í engu að, eptir sáttum að leita, þá klæddist hennar holdi hann, heiminn sætti við sig sjálfann, frið og vægð fús að veita.

6. O! hvað sú skuld var ofur stór, öllum vér Gudi að greiða? Jesús blessaður bróðir vor, í borgun lét sig deyða, fyrir oss greiddi fulla bót, feigins hendi tók hinn á mót, greiður til lífs að leiða.

7. Herrann skóp mannsins hold og bein, held eg það dásemd sanna, þó gnæfir þessi gæðskan ein, hann gaf sig til lausnar manns, í Adám er mein-

leysíð mist, meira gésst nú fyrir Jesúm Krist, réttlæti og høll himnanna.

8. Sál mín! af alúð þakka þú, þínum Drottni skapara, Lausnara vorum líka nú, til lífsins vill hann þig spara, Guði lé lof í allri átt, einum og þrennum súngið hátt, Amen þar eg til svara!

## 16. Sálmur.

Um andlega endurnæring guðhræddra.

Lagið: Gæðskuríkasti græðari minn!

Eitt géstabod mjøg mikið þó, mildur og ríkur Guð tilbjó, húngraðir helst þess neyta, syndanna ángur sem mann skér, sálar húngur það andlegt er, saðníng má hrein trú heita, Manna, þjóð þá, engla brauð, það eyddi nauð, á eyðisjøllum, sætara býðst nú svaungum øllum.

2. Kræsileg máltíð kallast má, kriddub fæða er borði á, húngrud børn heyrið þetta, ylmandi rétti etið nú, aflausn synda og náð Guðs trú, svánga má svoddan metta, Jesús, friðfús, bótin kífs, er brauðið lífsins, best að neyta, af drafi fullir ei um það skeyta.

3. Þeir menn sem høfðu fest sér skjóð, forsmáðu þetta géstaboð, og vildu ekki koma, skírlífar meyar þáðu það, því sig høfðu ei samlagað, Satans íllum ósóma, sjá þú, sál nú, Herra þínum, hlýðni sýn, en hórast eigi, svo innleiði hann þig og ekta meigi.

4. Jesús Kristur andlegur er, Elíseus, sem vitn-

um vér, alhægt sé allt ad vinna, sætleikans vidsmjør himneskt hann, hella í tómu kérin kann, hvar þau má fá og finna, eins skér, oss hér, ást á Krist þar innhellist, í allra sinni, sem ekkskan til heimsins býr eingin inni.

5. Syndugir menn í Sódóma, sagda máltíd ei girntust á, en þó Loth opt þeim bydi, himneskur eldur eptir þad, uppbrendi fólk og drekkti stad, engin von var á fridi, eins má, enn sjá, Drottins reidi, eilíf eydir, allra gengi, sem brúdkaup hans forsmá, enn bodnir leingi.

6. Ogagn stórmikid er þad þjód, ef forsmá þetta géstabod, víst er sá vesæll lýdur, eilíft húngur og óvild stríd, yfir þá kémur fyrr og síd, aldrei þeim optar bídur, mjøg blind, mannkind, sú má heita, sem vill neita, svoddan vistum, og hyrdir ei þyggja Herraun Kristum.

7. Gud hefir máta annann enn, í sitt heimbod ad kalla menn, innra þad oss vidvíkur, hugskots dyrnar þá hann áknýr, heiløgum þánka til vor snýr, sæll er þá sá upplýkur, hér má, hvør sjá, ef huxun gód, í hyggju stód, med helga parta, Drottinn þá klappar á dýr þess hjarta.

8. Athuga svoddan aumur mann, upplúttu strax þá kallar hann, ádur enn á burt víkur, annars situr hann einnig kyr, er þú klappar á nádar dyr, og þeim ekki upplíkur, ef þér, ad ber, gódann vilja,

Guðs það skiljir, gæðskú-mildi, og neista hans ást-ar sem næst skyldi.

9. Ástar-neistinn er andinn hans, er alast skal svo í brjósti manns, að brennandi blossi verði, út-slokktu maður aldrei hann, ekki brjót heldur Guðs þíns rann, svo rykki ei reiði-sverði, hjartað, er þitt það, hans musteri, hvört oss bæri, hreint að vanda, og herbergja síðan þann helga anda.

10. Sjá þú til með mér, sanni Guð! svo eg kunni þitt gestaboð, gjarnan með þökkum þyggja, hjarta mitt er nú opið þér, ætíð velkominn sértú mér, ei vil þig á burt styggja, sál mín! sé þín, brúður trú, sem búinn ert þú, til brúðkaups kalla, lát hana sjá þig um eilífð alla.

## 17. Sálmur.

Um ávöxt skírnarinnar.

Lagið: Jesús Kristur á krossi var.

Hygg þú að, sál mín! hvað það er, í hellagri skírn Guð veitir þér, eru það andleg gæði, saurg-un sem fyrir fæðing ber, fágar og helgar bæði.

2. Skírnin því öllu orka kann, aptur að nýu fæðist mann, víst fyrir vatn og anda, óska-barn Drottins er þá hann, arfi til góðs og landa.

3. Andi Guðs forðum olli því, að lífs hræring kom vötnin í, svo skéður í skírninni, hann gjör-ir hún sé hrein og ný, helgud af náviskt sinni.

4. Allir þeir Kristó klæðast, í skírninni sem trú

ei brast, þvegnir í þessu flódi, hvørra skrúdi svô hvítfágast, í helgu lambsins blódi.

5. Á Jerúsalems vøllum var, vatns-dýki allkyns lækníngar, þá engill Guds þad hrærdi, þessa skírn vora þad táknar, því oss synda bot færdi.

6. Fórnanna blód var þvegid þá, í þessu dýki Bethesda, svo þvæst Kristí blóds kraptur, einnig ofan í vorn vatns-sá, vel hreinir fædumst aptur.

7. Heilagur andi ofan fer, í vatns-sáinn þá skír-umst vér, sjálfur þar saman hrærir, blódid Kristi vid vatnid hér, vorri saurgun fortærir.

8. Pharaó med sinn hrausta her, í hafinu rauda drekkti sér, í vorri skírn svo skédur, Adam gamli deyr einnig hér, øllum synda hóp medur.

9. Sú laug er gler-sjór þessi þá, þann Jóhann-es í anda sá, gégnum skírn skína kunna, réttlætis geislar Herrans há, í hjørtun og sálir manna.

10. Ezechíels þad vitrun var, vatn af musteri framflaut þar, gaf líf og græding sanna, kann svo skírnar flód kristninnar, kámid hreinsá syndanna.

11. Í skírninni eru allir menn, af andlegu meini græddir senn, er því vel adgætandi, ad vær ei syndgum aptur enn, svo annad verra hendi.

12. Kristi réttlæti klædumst vér, sem kostulegasti skrúdinn er, því ber oss vel ad vanda, ad vær hann kvolum ekki hér, med óklárendum synda.

13. Endurfæding vor orka kann, ad krossfestist

sá gamli mann, en nýr upp optur standi, í meinleisi uppalist hann, æsinlrga blífandi.

14. Sérhvør madur, sem mælt er hér, musterí heilags Anda er, því skyldi hann vel vanda, veglegann sess í sjálfum sér, svoddan gésti til handa.

15. Vér høfum víst í vatnsins sá, vorum Gudi trúlofast þá, og svarist allar stundir, látum oss ekki sídan sjá, Satans merkjunum undir.

16. Send þú oss, Drottinn! sanna dád, svo vér behøldum skírnar nád, en aldrei af oss brjótum, hér med prísum þitt hjálpar rád, hvers æsinlega njótum.

## 18. Sálmur.

**Um berging Kristi líkama og blóds.**

Lagid: Gædsku Guds vér prísum.

Hvør sem ad hold mitt etur, hvør sem drekkur mitt blód, Jesús svoddan framsetur, sú lifir ætíd þjód, ó, hvad gott géstabod! ó, hvad hollt andar fædi! ó, hvad lífkrøptug gædi! ó, hvad sætt engla braud!

2. Nú má neyta og drekka, nádar braud géfst oss hér, svo meigum sjá og smakka, hvad sætur Drottinn er, ó, hvad hollt himna braud! eilíft líf í sér hefur, eilíft líf þjódum géfur, eilíft líf øllum baud.

3. Lifanda lífs af brunni, látum oss drekka senn, Guds húss gnægd hún kunni, gjøra vel drukkna menn, komi því þyrstir hér, kaupid fyrir alls ekki, eti svángir og drekki, bjódast nú bestu kjør.

4. Svo ertu, sál mín! líka, sannlega boðin nú, fyrir saðníng svo ríka, svaung og þurftug ert þú, fagnandi flýttu þér, fyrst þinnar forþénustu, fé og gull ekkért veitstu, géfins þá þigg þú hér.

5. Vor er að vísu eigi, verðskuldan nokkru nýt, Spámaður því svo segir: silfur þeir vega út, fæst þó ei fyrir það braud, ersiði opt sem reyna, ei finnur saðníng neina, samt er þó sálin snauð.

6. Aldrei samvitsku seður, sjálfs forþéuan hér, góðverkum má ei meður, miskun Guðs kaupa sér, sjá þú þá, sála mín! þeirrar fæðu þú neytir, þér sem Jesús nú veitir, géfins fyrir gæðsku sín.

7. O! þá dásemd dýrmæta, Drottinn Guð verkar hér, hans sáum hold að eta, hans blóð nú drekkum vér, hann einn allt orkað fær, hans dýrð um heiminn greiðist, hans lof svo vídt útbreiðist, eins og eilífðin nær.

## 19. Sálmur.

### Um dásamlega skikkan Drottinlegrar kvøldmáltíðar.

Lagið: O, Jesú! elsku hreinn.

Í Kristí kvøldmáltíð, kræsíng veitist oss blíð, náðar féhyrðslan fríð, fátækum opnast lýð.

2. Himna braud ei það er, að nú meðtøkum vér, heldur með sjálfum sér, seður oss Drottinn hér.

3. Guð hafði ei æðra neitt, oss svo það feingi veitt, heldur enn sitt holdið eitt, hvørs vér nú sáum neytt.

4. Oſs molbar madka hann, med þeſsu næra vann, hvørnin þá hata kann, hold ſitt, þad med oſs ſann?

5. Utdrífur andleg mein, øll þeſsi fædan hrein, lífkrøptug lækníng ein, linandi daudans grein.

6. Þad braud er beſt til ſanns, balſam ódaudleikans, grædt fær og holdid hans, hvørskyns ſtórglæpi manns.

7. Hvar veit nú nokkur mann, neinn hlut ſvo banvænann, ad géti græddann þann, Guds daudi ſem allt vann?

8. Hvar kanntu, ſál mín! ſjá, Satans ſkeyti ſvo hná, ad nádar ſkjøld orki á, oſs ſem Jeſús nam fá?

9. Hvar helſt á heimsins þjód, hættulegt mein ſvo ſtód, ad Jeſú bleſsad blód, bót ſé ei harla gód?

10. Heilagaſt hold þad er, hvørt nú medtøkum vér, lítur því himna her, og hátigna englarner.

11. Ljómar nú lífs tré mætt, laufblød þeſs fá allt grædt, og aflagad endurbætt, allt rammt gjørandi ſætt.

12. Fagni nú allt hvad er, er ſkyldt Gud lofum vér, vér gjørum þakkir þér, þér ſem oſs miſkun tér.

## 20. Sálmur.

Um manns réttilegann undirbúníng ádur hann gengur til altaris Sakramentis.

Lagid: Jeſús Kriſtur ad Jórdan kom.

Hvør ſem ad Herrans hold og blód, hyggur ſér ad medtaka, leyndardóm Guds þad þekki þjód, því ſkal

sig best ransaka, svo sem postulinn Páls tér, um prófan Kristi sauda, áfelli svo ei eti sér, edur í lífs stad dauda, sem ablar sálu nauda.

2. Þessi prófun hún andleg er, um hana fellur ræda, mold og aska er madur hver, madka og orma fæda, af jørdunni upprennur mann, af jørdunni hér nærist, ad jørdu verdur aptur hann, í jørdunni fortærist, úr jørdu aptur færist.

3. Hvad er mannsképna annad enn, andstyggilegt blód-sædi? til ómaks fædast allir menn, ódum falla lífs gædi, hérvistar stundir hefur fár, hérvistar raunir margar, hérvistin þegar hentast stár, hérvistum daudinn fargar, hérvistar blóm ei bjargar.

4. Í fædíngu veit enginn hvad, um hans hagi þá skédur, á dauda stundu eins er það, æfin dregst sorgum medur, øll skøpud sképnan ekkért er, er þó madurinn minna, í augliti síns Herra hér, hér vegna synda sinna, er þær þó ekki vinna.

5. Kvøldmáltíd Guds nú sjáum senn, sína med leyndardóma, sakramentum, það merki menn, med-deilíng Krists líkama, lífsins uppsrettu lind það er, líf og nád sem oss géfur, lífkrøptug þessi lækníng hér, lífsins grand allt af skéfur, líf eilíft í sér hefir.

6. Þetta vors Herra hold og blód, hvørt oss til nautnar kjøri, helgar og gjørir heimsins þjód, heilags Anda musteri, læknandi andleg lemstrar sár, læknandi synd banvæna, lækníng þessi og

lífgun klár, læknar Guds børn alleina, rétt-trúadir þad reyna.

7. Fagni nú Kristi brúdur blíd, brúdgumans røddu hlýdi, í brúdkaup lambsins bodin fríd, brúdkaups. klædi sig skrídi, brúdkaups klædid. þad besta hnoss, brúdgumans er réttlæti, brúdkaups skrúda þeim bú þú oss, brúdguminn Jesú sæti! og leid oss í lífsins mæti.

## 21. Sálmur.

### Um Kristi Uppstigning.

Lagid: Öll kristnin gèf ad gaum.

Sjá þig, mín sál! um kríng, sjá nú Krists uppstigníng, sjá nú hvørt gagn hún géfur, Guds ríki opnad hefir, Drottins lof lýdur magni, lífsins inngaungu fagni.

2. Lífs vóru luktar dyr, lukt var Paradýs fyr, enn Kristi uppfør kunni, opna þann veg sálunni, Drottins lof lýdur magni, lífsins inngaungu fagni.

3. Ofan sté híngad hann, hér svo réttlætti mann, eins líka upp nam stíga, oss ad gjøra dýrdliga, Drottins lof lýdur magni, l. i. f.

4. Sem brúdur blíd í lund, brúdgumans girnist fund, sál mín! lát þig svo lánga, í lambsins brúdkaup inngánga, Drottins lof lýdur magni, l. i. f.

5. Af fjalli Olíveti, uppsté vor Drottinn því, frid og sátt framberandi, føgnud samvitskum sendi, Drottins lof lýdur magni, l. i. f.

6. Með honum máttu þá, mín sál! á fjallið gá, góðum með girndar hótum, gjør það, en ekki fótum, Drottins lof lýður magni, l. i. f.

7. Fjall merkir himininn há, hann skaltu girnast á, sléttlendið heimsins hrekki, hverjum þú fylgir ekki, Drottins lof lýðnr magni, l. i. f.

8. Bethanía eitt er, ángistar húsið hér, gégnum það leið þín liggur, ef lífsins til ferðast hyggur, Drottins lof lýður magni, l. i. f.

9. Hvør sál, sem hyggst að fá, til himins með Kristó ná, góðverkum gjarnan safni, guðhrædd, en vondu hafni, Drottins lof lýður magni, l i. f.

10. Guðs barna himnesk høll, heiløg og blessuð øll, saurugt kann síst að líða, synd má þar úti bíða, Drottins lof lýður magni, l. i. f.

11. Hann sem gott hyggst að fá, hann sem Guð gyrnist sjá, hann skal sér hér fyrst haga, hans í augsýn guðlega, Drottins lof lýður magni, l. i. f.

12. Drottinn! géf dugnað þú, Drottins boð rækjum nú, Drottius í dýrðarprýði, Drottinn oss alla leiði; Drottins lof lýður magni, lof Drottins aldrei þagni.

## 22. Sálmur.

Um þann heilaga Anda.

Lagið: Nú hefst nóttin og hylur dag.

Þá vor Herra til himna sté, heilagann Anda

ofan sendi, yfir Postula allra fyrst, á Hvítasunnu í hægum gust.

2. Bæn og eindrægni blifu í, bænar andinn kom yfir þá því, samband elskunnar sjálfur hann, samanbatt trúnni Gud og mann.

3. Í reidi-eldi ofan fór, ádur fordum Gud, skapari vor, í ástarloga andi hans, ofan sté nú til syndugs manns.

4. Svo sem ad Jesús Son Guds var, sendur heimi til frelsunar, eins kom heilagur Andi nú, oss ad helga í réttri trú.

5. Sál verkar lífid líkamans, limanna abl og hræríng hans, allt eins heilagur Andi kann, andlega ad hræra og lífga mann.

6. Salómons hús vid fyrstu fórn, fyllti Guds dýrd í ytstu horn, vid bænoffur hús hjarta þíns, heilags Anda dýrd fyllir eins.

7. Sá helgum Anda yfir býr, athøfn sinni til besta snýr, øllum vill gjarnan gagnast hann, Guds vors í því sporgaungu-mann.

8. Helgum Anda sé hátt lof téd, hædstum Fødur og Syni med, fyrir ástgjafir allar senn, Amen af hjarta sýngi menn.

## 23. Sálmur.

Um vegsemd heilagrar kristni.

Lagid: Á einn Gud vil eg trúa.

Geym ad í tæku tími, trúud sála! med þakkargjørd,

ad Gud þinn Fadir frómi, fékk þér hæli hjá sinni hjørd, þad er hans kristnin klára, Kristí unnustan trú, engiu áfellis bára, orkar þér drekkja nú, í ørk Guds barna ertu, innleidd og geymd í hlé, unn henni og allteins vertu, sem andleg þín módir sé.

2. Má hún því heita módir, mey og trúlofud brúdur ein, ad andlig børn alltíd fædir, einum Gudi í trygdum hrein, holds vild og heimsins hrekki, og herfilegt (Satan) grey, þessa vill þídast ekki, því et hún skírlíf mey, svoddan frú sér til handa, Son Guds trúlofa vann, og henni sinn eiginn anda, í egta=pant skeinkti hann.

3. Þad skip má kristni kalla, sem Kristur sjálfur innanbords er, trú er stýrid, stjórn alla, sterkur og vís tók Gud ad sér, mastur í skipi midju, merkir Kristí kross=tré, englar hafa þar ydju, óhætt svo bátnum sé, seglid er ord hans hreina, andi Guds blæs í þad, leid kann svo lýdum beina, í lífs høfn og sælu=stad.

4. Kristnin er vín=tréd væna, og víngardur sá sem frjófgun vann, blód Jesú gjørir þann græn=ann, Gud hefir siálfur plantad hann, umgyrdtur alla vegu, Englanna verndar múr, hann gróf þar víst vínþrúgu, var þad hans pína súr, dýrdarleg Drottins lilja, dávænt býdur hún géd, vondir þyrn=ar þó vilja, vaxa henni upp med.

5. Enn er kristnin sú kvinna, klædd og umgyrdt var sólunni, þad skal þá þýding finna, þetta er Kristi

réttlæti, túnglið hún trað með fótum, tel eg það heimsins prjál, Satan með svikum ljótum, síst vinnur henni tál, koldøkk ytra ásýndum, innra þó dáfalleg, þúnglega þreyngist stundum, þreitandi krossins veg.

6. Er hún víst andleg móðir, undir krossi þó stendur nú, berandi nógar nauðir, náttúru pálmviðs hefir sú; víntréð það vex þess betur, sem verður því gengið nær, kristnin eins aukist gétur, þá andstreymis þúngann fær, Guðs dóttur heimur hyggur, hrak mest og vanþøkk gaf, tára-bikar þá þyggur, þegjandi drekkur af.

7. Svoddan tign, sál mín! sjáðu, sem kristnin hefur leint og ljóst, heimsins hégóma smáðu, haldt þér við hennar móður brjóst, þú ert innan skips borða, útsteyp ei sjálfri þér, lenda skalt fyrst og skorða, skérja boðum þig ver, hoga svo hérvist þinni, að hreinsunar sé þér stund, og blómlega brúði finni, brúðguminn hýr í lund.

8. Herra þíns hylli mundu, hann er vín-tréð en kvisturinn þú, gróðursett í hans undu, ávøxt góðann því færðu nú, sá oss í samlag kjøri, sinnar kristni nú hér, á hæð til himna beri, sem hrósandi sigri er, hjálpi oss helgi Andi, høfn og lendíng að ná, á lifandi manna landi, ljóma Guðs dýrðar sjá.

## 24. Sálmur.

Um þad, hvørninn Gud hefir fyrirætlad allʒ
Þá trúudu til eilífrar sælu.

Lagid: Gud þann Engil sinn Gabriel.

Ef þú, sál mín! útvalníng þín, efar í hjarta þínu, horfdu þá fyrst, á Herrann Krist, hans fæding, líf og pínu, í honum þú, útvalin nú, í honum trúud vertu, óska-barn Guds þá ertu, fyrir utan hann, þarf enginn mann, góds vænta sér, Gud slíkum er, einn forterandi eldur, útvalinn má, sannkallast sá, sér fast vid Drottinn heldur.

2. Því er þad þrent, sem þér fær kénnt, þetta enn gjør ad skilja, Guds miskun sú, þrátt þyggur þú, þér sýnir fyrst hans viljo, forþénan Krists, er vottur viss, vill Gud til lífs þig leida, lét hann því Son sinn deyda, Andi hans þá, er þridji sá, í ordinu hann, upplýsir mann, ástverk Drottins svo skilji, Gud sór þann eid, ad einkis deyd, eda fordæmíng vilji.

3. Sál mín! þú sjá, þrjá stólpa þá, þín útvalníng á stendur, Gud þig tilbjó, af engu þó, er hér hinn fyrsti kéndur, sídan þá snaud, í synd varst daud, Son hans þig endurleysti, og fallna á fætur reisti, þridja stólpann, þína skírn fann, Guds baru í trú, gjørir þig sú, gaumgjæf þú miskun slíka, af því hún hér, svo undan fer, eptirfylgir hún líka.

4. Aldrei þú kannt, full-grunda grannt, Gud hvad þér velgjört hefir, hann lægdi sig, en leysti þig, líf

fyrir hel þér géfur, hann héldt þér fast, svo hætt ei dattst, hann þig vilta vidrétti, í vøkvad haglendi setti, hans høndum í, hvílir þú frí, hann heill þín er, hann gaf sig þér, honum mátt víst behalda, hann þín geymi, honum lof sé, hér og um aldir alda!

## 25. Sálmur.

Um nytsemi bænarinnar.

Lagid: Sælir ern þeir allir nú.

O! hvad bæn mannsins øblug er, sem úthellist á jørdu hér, í hædum allt kann verka, himinsins lykill heitir því, hún er vor skjøldur raunum í, sigrandi Satan sterka, einn múr-veggur því orka má, ad óvinir sist í høllu ná, eins heptir hún Guds reidi, hún er vort tilflugt hørmum úr, hún er vor erindsreki trúr, hún kann til himna leida.

2. Girnist þú komu grædarans, gudhrædda bæn lát leita hans, hún mun hann fullskjótt finna, girnist þú nú í naudsyn hér, nádar dyr Drottins opnist þér, þad kann hún vel ad vinna, ef þig þyrstir í eilíft góts, andleg hella er Jesús oss, bænar vønd hafdu í hendi, slá þú honum þá hellu á, Herrans nádar-vatn géfst þér þá, allskonar bøl bætandi.

3. Ef þú villt Gudi offra hér, einu því honum þekkast er, trúud bæn þín er þetta, sá gódi ilmur sætleikans, sem hún færir í augsyn hans, stillir Guds reidi rétta, ef med honum villt umgángast, elskadu þá bænrækni fast, ef þú villt eininn smakka,

hversu sætur að Herraun sé, í hjartans hús með bæninni, hann skalt innleiða og lokka.

4. Bænin skal vera skikkuð rétt, skynsamlega fyrir Guð frammsett, trú-góð með lítilæti, auðmjúk, forsjál og alldjarfleg, æru Guðs stundi jafnan mjøg, náungans gagns og gæti, bænar húsið sem hjartað er, fyrir hverskyns óvin læsa ber, en opna einum Guði. Sá Jesús sem oss biðja bauð, bænheyri oss í allri nauð, og til lífsins innleiði.

## 26. Sálmur.

Um verndan heilagra Engla.

Lagið: Gjørvoll Kristnin skal gleðjast nú.

Sjá hér Guðs miskun, sála mín! hann setur þér Engla skara, að greiða þinn veg og gæta þín, og grandvarlega bevara, ekki þurfum nú undrast vér, þó aðrar Guðs skepnur þéni oss hér, fyrst englar ei það spara.

2. Jesús vort høfuð andligt er, Engla vernd fékk hann ríka, limir hans erum einninn vér, oss geyma þeir því líka, á himnum eiga andar þeir, umgángast með oss síðar meir, því tjá nú þjónkan slíka.

3. Daníel leystu ljónum frá, Loth úr Sódóma eldi, Englar vor þanninn geyma og gá, við grimmu Satans ofbeldi, sálirnar flytja sælu í, sem báru øndu Lazarí, Drottins í dyrðar veldi.

4. Heilagir eru englarnir, eins skyldir, sál mín! breyta, í augsýn þeirra það ekkert gjør, ósæmiligt

má heita, hreinir þeir flýa synd ef sjá, svo sem bíflugur reiknum frá, og dúfur ódaun hata.

5. Gledi = vín eru englum hér, ydrunar tárin mauna, gledjum þá því og gjørum vér, greida ydrun syndanna, andlegir eru andar þeir, andlegt ber oss því stunda meir, svo fáum fylgd englanna.

6. O Guð! sem lætur engla her, oss nú á hönd-um bera, og lánga reisu leida hér, líss um eydi-mørk hvera, lát þá sømu, þá lif vort dvín, leida oss inn í dýrd til þín, unn oss þar ásamt vera!

## 27. Sálmur.

Um slægd og umsátur djøfulsins.

Lagid: Fadir vor! sem á himnum ert.

Tak þig í vakt, þú vesflug sál! veidarinn Satan býr þér tál, umsitjandi hvad orka kanu, ótal svik-rædi bruggar hann, fellir mann fyrst í syndir sá, sídan rógber oss Gudi hjá.

2. Syni Guds bjó hann svika mein, svikja vildi hans lærisvein, Adam feldum í armód veik, í Kristi skóla Júdam sveik, ó! hvad hægra þeim óvin er, oss ad tál = draga veika hér.

3. Alla vegu hans umfall rís, athøfn hverri er snaran vís, medlætis lyst er metnads kríng, mótgángi fylgir ørvænting, vid aura safn, fær ágyrnd fest, alla gudrækni hindrar mest.

4. Metnad óhófi fneljar, embættid snøru letinn-ar, ysirbodan fær ágirnd skéd, umvøndun fylgir

reidi med, umgengni sparar øfund síst, upphefdinni er drambid víst.

5. Í munninn leggur lýgi hann, ljóta hugsun í hjartans rann, sérhvørn lim manns til syndar dró, sauruga drauma opt tilbjó, alla stadi hann óttast þarf, óþreyttur fremur svika starf.

6. Af því, trúud sál! ad þér gá, andleg hervopn þig tak uppá, sannleiks lindann þér brúka ber, brynju réttlætis fádu þér, í Jesú undir innflý þú, úr þeim bjargskorum ver þig nú.

7. Trúar skjøldinn þér tak í hand, til ad útslokkva Satans grand, hún fær úr stad svo fjøllin fært, freistni og efa vel fortært, hjálprædis set þér hjálm uppá, heiløg von mýkir allskyns þrá.

8. Sverdid Andans, sem ord Guds er, innblæstri Djøfuls móti ber, ef þitt sálar skip áføll fær, allskyns freistínga bylgjan slær, med hreinni bæn vek Herra þinn, hún deysir Satans skeytin stinn.

9. Veitstu best, Drottinn! vanmátt manns, veitstu best orku freistarans, vorum herskrúda vill hann ná, vor merkismadur sértu þá, í oss strídandi ebl vort ráð, í þér svo fáum sigri náð.

## 28. Sálmur.

### Nokkrar lífs-reglur kristins manns.

Lagid: Hvar mundi vera hjartad mitt.

Lífs reglur hollar heyrid enn, hugfestid børnin smá: dauda, eilífd og dóminn senn, daglega þenk-

id á, næsta mjøg þetta nálgast menn, naum er lífsstund og fá, lagi því hvør svo lifnad sinn, ad lendi hann Gudi hjá.

2. Ovíst er þad hvørt úngur mann, ellidøgunum nær, ydrun sendi því undan hann, ádur enn daudinn slær; margnr hastari helstund fann, heldur enn meintum vær, nú í dag lík sá kallast kann, kóngur lifdi í gjær.

3. Vogadu ei fyrir vinskap manns, ad vinna hvad órétt er, því Guds er eins, enn ekki hans, yfir ad dæma þér, þeim hilli Drottins dómarans, daglega abla sér, þá reikníng heimtir lýds og lands, linkind í málum tér.

4. Ottastu Gud og unn sem ber, annast náúnga þinn, óvin þolugur íllt ei gjør, øllum vert góðvikinn, lát alltíd nokkud ágengt þér, ad gá dygda-veginn, Drottni lifir, þá deya fer, sá deydir vilja sinn.

5. Umgengni þína og athøfn best, allskonar dygdum prýd, þolinmódur þá veitir vest, vidmóts hegdun sé blíd; allt þad hvørn dag þér yfirséist, umbæti kvøld bæn fríd, en þad þú margt gott ógjørt létst, ydri þig fyrr og síd.

6. Á hædum uppi hluti þriá, hugleida skaltu mest: auga Guds fyrst sem allt kann sjá, og eyra sem heyrir best, samvitsku bók er þridja þá, þar á allt skrifad sjest, þetta skyldi oss fæla frá, ad fýsist hvad gegnir vest.

7. Umliduar syndir ángri þig, akta lítt stundlegt fé, eilíf gædi sé girnileg, gef frá þér uggleysi, vonum fyrr daudinn sýnir sig, syndga þér óþekkt sé, skil þig vid heimsins hrekkja stig, hlýdni lát Gudi í té.

8. Hreinlífi manns er hættast þá, holds vellysting er mest, lítilæti þad lóga má, lukkan sær eingann brest, réttsýni helst kann hæpid stá, høndlun stóra vid fest, girnst þú ei framar annad á, enn þókknast Gudi best.

9. Stunda þú svo ad vera víst, sem vilt ad haldinn sért, annars heims fylgir oss þá síst, utan hvad høfdum gjørt, í Herrans augsyn hvørn dag fyrst, hér svo vel snidinn vert, ad óttist ei þó audnadist, eins dæmist og þá ert.

10. Set þér lifnadar leidrétting, lífs medan audid er, sá heims forøkktun helst er kríng, hylli Guds ablar sér, þakklætis er þad áminníng, ef þig velgengni skér, en hitt ydrunar uppvakníng, ef þú mótlæti ber.

11. Þitt lífsins takmark láttu því, Lausnarann Gud og mann, stefndu á hann, því náð hans ný, uytsemd alla þér vann, elskan þig hefji hædir í, haldt þér svo fast vid hann, hreint lítilæti hofmódsfrí, honum best þókknast kann.

12. O! Drottinn kjær, sem sjálfur sier, svoddan vér girnumst fá, vertu oss nær svo vinnum vér,

vilja þíns jafnan gá, lof þitt og æru eblúm hér, en síðar himnum á, sjáum þig vær og sýngjum þér, Sanctus og Gloria.

## 29. Sálmur.

Um það hvørnig vér skulum uggleysinu frá oss hrinda.

Lagið: Einn Herra eg best ætti.

Hvør um það hugsa vildi, hvað tregt að hjálpast er, aldrei svo ugglaust skyldi, ana fram sem nú skér, í alla staði øllum, alla tíma er hætt, Englar í himna høllum, hafa því líka mætt.

2 Adam var óhætt eigi, í sællri Paradís, svo féll frá sannleiks vegi, Salómon harla vís, Davíð sá mæti maður, mannslag og hórdóm vann, hvørgi finnst hér sá staður, hættulaus segjast kann.

3. Yfir þér uppi grundir, einn Guð sem stygdir nú, helvíti heitt niðri undir, hvert víst forþéntir þú, bak til er glæpa geimur, gégnt augum dómurinn, á allar hliðar heimur, hér nú elskugi þinn.

4. Hygðu að hvaðan sértu, hvar af þín skammast mátt, athuga eins hvar ertu, andvarpa síðan þrátt, grunda hvert leið þín liggur, lifðu því ugglaus síst, framsýnn til himins hyggur, hlið mjótt vandratað víst.

5. Ef að þú allskyns mæti, á himnum girnist fá, í gégnum margt mótlæti, máttu fyrst gánga þá, kórónu ef kýs að hljóta, kallmannlega þá stríð, þeim er bein leið til bóta, sem hugar ei mótgángs hríð.

6. Æfi manns øll má heita, orusta hættu-mest, þá oss sýnist vel veita, vor freistar Satan vest, svo snart sem sofna hyggjum, svikarinn vaka kann, vopnin þá vær af leggjum, vélfullur brynjast hann.

7. Hvør kann hér fastann finna, fögnud jardríki á? allt þad vill ódum linna, oss sem nú gledja má; en hvad oss ángra kunni, aldrei til þurda fer, ugglevsi enginn unni, ádur stríds-lokin sjer.

8. Dómarinn Kristur kjæri, kémur þá vonum ei, vel þér því vaka bæri, vertú sem forsjál mey, lát þig ei verøld villa, varfarlega framm gá, uppspretta alls þins ílla, ágirndin heita má.

9. O Gud! sem gafst oss anda, gott ad uppbyrja nú, lát oss stødugа standa, ad stunda hvad girnist þú, frá íllu oss bevara, en þá hérvistin dvín, unn oss med fridi fara, í fødur-land heim til þín!

## 30. Sálmur.

Um þad, hvernig madur skal bera sig ad breyta eptir hegdan Kristi.

Med sama lag.

Frelsarans er frammferdi, fegursti speigill vor, uppfrædíng oss þad gjørdi, ørkum hans dygda spor, øll vor heill er Krists pína, en hans líferni hér, heilaga hegdun fína, hvørskyns kénnandi er.

2. Sá sem vill sídar ríkja, í sælu Drottni med, hann skal frá vondu víkja, vild hans stunda og

géð, lífs reglum sem oss setti, sinni með hegðan hér, allir sig eptir rétti, elski hann hreint sem ber.

3. Hvør sem vill (vor Guð sagði), vel eptirfylgja mér, sinn kross skal sá að bragði, sjálfur fyrst bera hér, sá sem kann sér afneita, sína um lífsins tíð, ást Guðs og elsku heita, ávinnur fyrr og síð.

4. Gjør þú oss, þýði Herra, þína sporgaungu menn, fyrirgéf vort hið verra, veglegust eining þrenn, veit þú að vort framferði, venjist líkt þínu hér, svo að oss eilíf verði, ununar víst hjá þér.

## 31. Sálmur.

Um afneitun sjálfs síns.

Lagið: Allt mitt ráð til Guðs eg set.

Heyr, mín sál! hvað þinn Herra tér, hvør sem vill eptirfylgja mér, sér skal sjálfum afneita, elski nokkur sig sjálfann mest, sönn ást til Guðs þar útrýmist, svo mátt ei sál mín breyta.

2. Sá eiginn vilja mælir mót, með því deyðir sjálfs elsku rót, Krists lærisveinn kann heita, ást til Guðs ser ei alvarleg, utan mann hati sjálfann sig, svo skaltu sál mín breyta.

3. Hvað sem einn elskar umfram allt, er það hans Guð, sem meina skalt, helst muni vegsemd veita, hvør sem mest elskar sig sjálfann, sig gjörir víst að Guði hann, svo mátt ei sál mín breyta.

4. Abraham stórar frægðir fékk, föðurlandi þá út af gékk, fús til framandi sveita; andlegur Guðs

mann ertu þá, elsku sjálfs þíns ef gengur frá, svo skaltu sál mín breyta.

5. Með sama auga engin kann, upp og niður að líta senn, eins vill það ersidt veita, að unna sér af alúð skást, og elska Guð með sömu ást, svo mátt ei, sál mín! breyta.

6. Um blómstur nokkur ort það er, eptir sólu þau snúi sér, sem Sólfylgendur heita, afbragðs kostum og heiðri hér, hníga svo eins að Guði ber, svo skaltú, sál mín! breyta.

7. Öll verk sem koma af ást og trú, í augsýn Drottins vel skarta nú, þó oss sýnist aum heita, en af sjálfselsku ef frammgá, ekki þókknast þau Guði þá, svo máttú ei, sál mín! breyta.

8. Sá afneita sér sjálfum kann, sína vegsemð ei girnist hann, Guðs æru gjarn að leita, allt gott þiggjum af hendi hans, honum skal géfast dýrð til sanns, svo skaltú, sál mín! breyta.

9. Hvør eiginn vilja á hlýðist, Adams dæmi sá skoði best, Guðs vild ei gjørði skeyta, ást hans og farsæld af sér braut, olli tøpun og mannsins þraut, svo máttú ei, sál mín! breyta.

10. O maður! Guði offra þú, eiginn vilja, svo kanntú nú, sjálfum þér senn afneita, Drottins vild skaltú meta mest, mundu hans æra eblist best, svo skaltú, sál mín! breyta.

## 32. Sálmur.

Um hvíld og rósemd sálarinnar.

Lagid: Má eg ólukku ei mót standa.

Hvar viltú, sál mín! huggun fá? hvørt skëpnum hjá, hvøggur þér hælis leita? Oh! nei, þeim øllum ædri ert, ei fá þér gjørt, rétta hægd rólegheita, Jesús einn er, allt þarflegt þér, hans undum í, undir þú frí, girnd þína vill hann veita.

2. Brúdur hans ert, því áttu fast, hann adhyllast, og unna allra fyrstum, haltu þig líka hans bústad, hættu ei þad, adra annast ad vistum, í auranægd, er ei hughægd, hvørgi hér má, hvíld né ró fá, fyrir utan kónginn Kristum.

3. Metord og vellyst margur mann, meina hvíld kann, og hugbót sálu sinni, ógunst manna ef adgustar, eins stødug var, sem strá storm standast kynni, manna lofstýr, mjøg er oss rír, utvaldra prís, annars heims vís, hans trúi' eg lof ei linni.

4. Ønd vor er lífid líkamans, líf sálar manns, er Drottinn einninn líka, réttu lífi hún lifir þá, laus slisum frá, íbúd hans hefir ríka, annars er daud, ílls rík, góds snaud, hvíld hvergi fann, hittir því bann, lætur sér fjandmenn slíka.

5. Hvør sem vid Gud sér halda kann, hvíld sálar fann, øruggur heims um haudur, gladur er víst í sorgum sá, sigrandi þrá, lifir þó litist daudur, ást-

gjøf andans, er unun hans, hatandi heim, finnir lítt seim, Drottins náð er hans audur.

6. Hreinsa nú, Herra! hjartad mitt, herbergid þitt, unnustinn andar minnar, Gud velkominn til gistíngar, gakk þú inn þar, unn mér íbúdar þinnar, og þá hug-hægd, hvíld náð og frægd, lofa þú mér, ad þakka þér, um ár eilífdarinnar.

## 33. Sálmur.

Um góda og hreina samvitsku.

Med sama lag.

Hvad sem þú mann vilt hafast ad, hugsadu um þad, samvitskan saurgist eigi, í návist hennar varna vid, syndanna sid, sanndæm er þó hún þeigi, hún er sú bók, til minnis tók, allt þad þú hér, órétt gjører, og lýsir því á dóms degi.

2. Med sannleiks stýl sú skrifud skrá, skírir grant frá, allskyns íllu athæfi, því kanntu madur synja síst, samvitskan nýst, vaknar víst, vært þó svæfi, fúl, fúin er, færir því þér, íll-orma þá, ei deya fá, nagandi alla æfi.

3. Legg þú því alla alúd á, ad deyda þá, fyrir ydrun hughreina, á uggleysi nú ekki mátt, ala þá dátt, um alla æfi þína, lífs-bók þæg þér, þinn Jesús er, líf, lærdóm, trú, laga skalt þú, eptir honum alleina.

4. Hvar sem þú ert, og hvørt þú fer, hvørn tíd er þér, samvitskan fast fylgjandi, allt hvad í hana innlagder, eptir þér ber, íllt og gott uppreiknandi,

geymslu-féd frú, forvarar nú, skilar því þá, þig dæma á, vill þér svo verda ad grandi.

5. Samvitsku dóm, frekt forda þér, fyrst sami er, sekur sakaráberi, vottur, dýblissa, dómarinn, hrís, hegníng stinn, sérhvør því varsær veri, þá sjálf fús sá, mál dæma má, sem vitnid var, viti sakar, hvar er þá undansæri?

6. Svo sem þú leggur allt kapp á, eilíft líf fá, samvitsku haf svo hreina, svo snart sem manni missist sú, missist þeim trú, missist og Guds nád eina, syndanna síd, varna því vid, samvitsku kvøl, kvellíng og bøl, þarftu síst þá ad reyna.

7. Ur bók samvitsku illgjørd svo, med ydrun þvo, ad lesist ei á dóms degi, sannrar gudrækni set þér form, samvitsku orm, sigrandi, svo hann deyi, innvortis eld, augna-tár feld, slokkur hratt hér, huggun svo þér, annars heims endast meigi.

8. Géf þú oss, Herra! heims um hríd, heya gott stríd, og trú heilagri halda, samvitskan hrein þar sé vid fest, sem kunni best, sigursæld vorri valda, svo børn þín ein, hér hjarta hrein, meigi þig fá, í sælu sjá, og lofa um aldir alda.

## 34. Sálmur.

Áminníng til sannarlegs lítilætis.

Lagid: Jesú Kristi! þig kalla' eg á.

Vird þú fyrir þér, ønd mín aum! eymdar hag mannsképnunnar, lítilætis svo géf þú gaum, gjør

ei synd drambseminnar, fæding, hérvist og útför er, allskonar sorgum vafin, og kvelling kafin, umferdar reisu hefir hér, hæpid þó nætur tafin.

2. Illa fer þér ad upphrokast, aska og moldar þrekkur, andstygdar sædi ádur varst, en nú saurinda sekkur, orma fæda snart ordinn ert, eginlegt neitt ei hefur, þá tíd hér tefur, utan hvad hefur illa gjørt, er þér þó hefnda krefur.

3. Lilju þá Drottinn segir sig, sem vex í dalverpunum, eru þad hjørtun audmjúklig, íbúdar kirkja honum, þad blóm má síst á fjøllum sá, sirrist Herrann drambláta, sem stórum státa, hefir þeim næsta ógéd á, elskar best lítiláta.

4. Svo sem vatnid ei vinna kann, veg forbrekktann upprenna, allt eins Guds miskun ekki rann, upp til drambsamra manna, lítilát sál er sessinn sá, sér fann Drottinn hægastann, og bústad bestann, í augsýn hans sá mikid má, misþokka vann sér stærstann.

5. Lít þú, sál mín! þinn Lausnarann, lét hann sig stórum pína, med lítilæti ljúfur vann, lækna drambsemi þína, um veg hógværdar hefir hér, í himna sælu inngengid, og frid oss fengid, hófmóds gøtu því hugsi sér, himins tilkomast einginn.

6. Vegur dramblætis Adam er, úthýsing Paradýsar; hvørnig má hann því þángad þér, þú hofmódugi! vísa? athuga meir hvad ógjørt létst, af því

sem skyldan krefur, en hitt sem hefir, mannkosta þøgn er øllum best, eigin hrósan hún kéfur.

7. Dygda féssjóð ei máttu mann, með hrósun opinbera, annars djøfull við drambið kann, dýrgrip þeim ræntann géra, lát þig ei hofmóð hefja hátt, hvaðan í afgrunn lasta, þér kann að kasta, drambsemi ekki elska átt, þá andskotans sæng hægasta.

8. Allra lasta er sæði sú, og svoddan þerrivindur, sem þurkar brunn Guðs náðar nú, nærandi mannakindur, varist því hættann hroka-vind, hvør sem vill missun hljóta, og náðar njóta, Guð gefi øllum svoddan synd, sannri með auðmýkt hata!

9. Dramblætis-þrota vondann vorn, virðstú, Jesús! að græða, lítilæti þín blessuð børn, bið eg þú vildir gæða, kénn oss að feta feril þinn, framferði rétt að haga, og lifnað laga, síðan leiddir til lífsins inn, lofa þig alla daga.

## 35. Sálmur.

Um það hvørnin maður skal forðast ágirndina.

Lagið: Náttúran øll og eðlí manns.

Sáluhjálp manns, sem augljóst er, elsku mestrar útkrefur, ágirnd svo hata øllum ber, argur er sá hana hefur, hann vantar mest, hvað hefur flest, hinu líkt sem hann brestur, óvæginn senn, við alla menn, en sér þó sjálfum vestur.

2. Drambsemi alls ills er upphaf, ágirnd svo rótin lasta, grundaðu mann hvørt gagn það gaf,

sem gjørir hún eptir brasta, opt ekki par, þér afrekar, en stundum fallvølt gœdi, vanblessan skér, illt audsafn hér, ópókknun Drottins bædi.

3. Auds med ónœdi ablar mann, en forvarar med kvída, sídan missist med sorgum hann, svo vill æsin útlída, annadhvørt oss, þad aura hnoss, yfirgéfur til líka, eda vær þad, í annan stad, ymsir þá gótzi slíka.

4. Agirndar synd er ørgust því, afgudadýrkun vesta, ad sképnu sjálfa setur í, sæti skaparans besta, auds þirna þá, ei elska má, ofmarga sál þeir meida, áhyggju med, sárt særa géd, suma í gløtun leida.

5. Auds gnótt né ørbyrgd ekki kann, útsløkkva þorstann aura, þess geysilegar blossinn brann, sem borid var á hann meira, traudt takmark því, auds ágirnd í, af þér skyldan útkrefur, svo ei kastist, í afgrunn ytst, engin takmørk sem hefur.

6. Sál mín! ad slíku géf þú gaum, gjør ágirnd frá þér reka, sé ber þú annad ei fyrir dóm, enn hvad gladdir fátæka, þeirra hønd þér, holl hyrdsla er, himneskt en fallvølt eigi, í hana nú, hvad innlétst þú; er þér víst á dóms deigi.

7. Hvørjum ei nægist Herrann Gud, hendir þann ágirnd vesta, anuastu madur aumann lýd, ekki mun þig þá bresta, ó Kristi kjær! kristni svo hrær, kjærleikans verk sé framin, ágirnd vel ver, veit oss hjá þér, víst og gótz eilíft, Amen!

## 36. Sálmur.

Um sannann kjærleika.

Lagid: Fadir vor! sem á himnum ert.

Ofaurgud elska ekki má, utan Guds børnum finnast hjá, trúar ljós kann ei kvikna þar, kjærleiks eldnr sem einginn var, sól og byrti skilst aldrei ad, elska og trúin, sama er þad.

2. Daudur er sá ei anda kann, eins trú ef brestur kjærleikann, ávøxtur andans elskan er, ávøxtur trénu vitni ber, sann-kristinn má ei segjast sá, sem kjærleikur finnst ekki hjá.

3. Salómons kyrkja blómann bar, besta gulli øll forgyllt var, andlegt hús Drottins er þá skyldt, af kjærleika sé vel forgyllt, og í hjarta sé elskan fyrst, ytri verkum þad bevísist.

4. Kjærleikur umber annars brest, er hann manukosta sædid best, øll verk þau virdast íll og ljót, ef ekki spretta af kjærleiks rót, kristnina alltíd eblir sá, ædri enn trúin heita má.

5. Ofundsjúkur hann ekki er, íllmannlega ei hagar sér, gódgjarn, hógvær, sér hrokar síst, hýr í vidmóti, fridgjarn víst, ránglæti gledst hann aldrei af, ekkért rúm vondri hugsun gaf.

6. Øllu trúir og allt umber, ekki leitar þess hvad hans er, þó túngumálum linni ljóst, líka spádómum tæmist brjóst, kjærleikur aldrei afmáist, eikst hann þó meir í himna víst.

7. Kjærleiks=verk, sál mín! keppstu við, kristnum hlýðir best samlyndið, sem síðar eigum børn Guðs blíð, búa saman um alla tíð, einn líkami sem er=um hér, ein andleg sál oss stjórna ber.

8. Eins Herra þjónar erum vær, eindrægni stundum børn mín kjær, samhuga øll í ást og trú, innbyrðis skyldum lifa nú, ó, Guð! tendra vorn elsku eld, í anda helgum fyrir Kristi skuld.

## 37. Sálmur.

Um ástundun skírlífisins.

Lagið: A einn Guð vil eg trúa.

Hreinlífi hann skal stunda, sem heita vill Kristí lærisveinn, snúru saurlífis synda, Satan ínetjar margann einn, vér høfum Herrans blóði, hreinsast í skírnar sá, lostans lifnadar voði, leysist oss ekki þá, í felum og fjærvist manna, fólk drýgir svoddan brest, augsýn Guð og englanna, ættum þó forðast mest.

2. Afvik það enginn leika, augum Guðs felā gjørðir manns, né englana útiloka, eða og sjálfs samvitsku hans, verkanna vitnin þessi, varfærni gleðja átt, lostans ofbráður blossi, bálast í himininn hátt, en sá óðaun hann ockar, allt nær til vítis frekt, skammvinn sú vellyst verkar, volæði æfinlegt.

3. Minníng Kristí krossfesta, krossfesti þína holdsins vild, umþenkíng eilífs neista, í þér sløkkvi saurlífis eld, of=hita holdsins breka, hepti iðrunar tár, elsku þess ætíð freka, ótti Guðs deysi klár,

sparsemi sá sér setur, sífeldt í drykk og mat, lost-var svo lángtum betur, losta-girnd forðast gat.

4. Allt jafnt skalt einhvør vinna, annríkis sterk þó naudsýnleg, sídur kann færi finna, freistarinn til ad svíkja þig, Davíds íllgjørdum olli, ad ydjulaus framgékk hann, Jóseph frelsti þad falli, frílega þjóna vann, brosandi bragda refur, bruggar þér svikin íll, banvænann hala hefir, honum þig stínga vill.

5. Hætt er hreinlífis blómi, hvar sem sælgæti gnæfir frekt, gjættu ad Drottins dómi, drýgðu því ekkért svívirdilegt, í hófi skalt holdid ala, haga gudlega þér, heilagt hugsa og tala, heyrir Gud allt og sjer, kjærleiksins rjódust rósa, rétt kollud sál mín sért, skírlífis liljan ljósa, líka einninn þú vert.

6. Ad sigrast af sjálfs síns holdi, svívirdileg minkun víst er þad, en þad vinna med valdi, veglegt þykir í allann stad, lastanna táldrægt tundur, tor-veldt ad sløkkva er, vid únga sig of-fast bindur, frá øldrudum naudugt fer, hjá fátækum sýsist lenda, fælist ei hreisi smá, skammast sín vart hin vonda, voldugum gista hjá.

7. Ill girnd eins atferd hefir, sem aumkunarleg-ur ferdamann, hógvær fyrst húsa krefur, hrokar sér strax þá kémur í rann, í húsbóndans sess sig setur, sinn þræl gjørandi hann; sál mín! þig sjá um betur, síst hýsir óvin þann, bruna saurlífis synda, svíptu

Drottinn! oss frá, lát oss hreinlífi henda, og himneskum arfi ná.

## 38. Sálmur.

Um þetta fallvalta líf.

Lagið: Um dauðann gef þú, Drottinn! mér.

Settu, mín sál! í þanka þér, þessa lífs aumt volæði, æfi, heilsa, lán, lukka, fjör, leikur á grønnum þræði, hjartað upphef til Herrans þá, hégóma heims í burtu frá, og girnstu eilíf gæði.

2. O, hvað skammvinn manns æfin er! einni stund fyrri líður, sem harður straumur hastar sér, hvatskeytlega framm skríður, þess meir stytist sem leingist líf. lifandi Drottinn sé vor hlíf, og athvarf á allar síður.

3. Lífið til dauðans upphaf er, allskyns mótlæti vafið, daglega burtu deyum vér, dauðlegt er manns upphafið, mið-tíminn þjáist sorg og sút, síðasta skeiðið líður út, ótta og ángri kafið.

4. Miðt í saurnum fyrst mindast mann, í myrkri tekur sitt fóður, leiðist svo út með ángri hann, af lífi sinnar móður, rotið sæði er efnið hans, en bóla vatns hérvistin manns, endalykt orma sjóður.

5. Jørð berum vær í holdi hér, hold vort verður að jørðu, jørðina troðum jafnan vér, jarðhús líkamir urðu, þeir sem þar drottna djarfir tveir, (dauði og synd) það brjóta þeir, og nýða, svo nemur furðu.

6. Hvað er það reikna manninn má? má hann

þræl daudans kalla, brotþættast gler, og blødru smá, blaktandi sísíd valla, vølundar hús hans æfin er, eymdanna haf, og styrjøld þver, hljómur, hvellandi bjalla.

7. Veglegri nyt er lísíd líkt, ef líka viltu upp henni, med sannleiks kníf, þar finnur fiekt, fúa og madka inni, og sem epli frí ásýndar, en hjadna strax og verda ei par, ef hampar þeim hendi þinni.

8. Heims audur, skraut og hefdar par, helst er þeim eplum líkur, ytra dáføgur ásýndar, en í raun dupt og reykur, sál mín! hafdu svo heiminn þá, ad hjartad festir þar ekki á, hans blóm í visnan víkur.

9. Einn Gud skikkadi orminn þann, er lundinn stínga gjørdi, yfir Jóns spámanns høfdi hann, hratt svo uppvísna yrdi, eins svo foreydslu orma hér, í allt þad setti sem stundlegt er, svo eydist ad engu verdi.

10. Med blómlegum heimi ad blómgast hér, best þykir þeim því nædi, med tøpudum honum ad tapa sér, tel eg þad verst skadrædi. Stýr vorum hjørtum, Herra kjær! svo hverju framar þig elskum vær, og erfum eilíf gjædi.

## 39. Sálmur.

Um þad, hvad hégómlegur hlutur ad verøldin sé.

Lagid: Einn tíma var sá audgur mann.

Sál mín! elskadu ekki heitt, aumann heim né þad hans er neitt, eldsmatur allt er þetta, eilífum gjædum unn þú best, eilíf velferd er þar vid fest,

og eilífs lífs unan rétta, girnist ei manna metorð hér, minnst báðst að því sem fallvalt er, að þókn-ast Gudi sé þekkast þér.

2. Lát þér nægja þinn Lausnarann, lærðu að þekkja þig og hann, Mammon skalt midur stunda, ersid reisa þín æsi er, er hann þá farartálmi þér, þér ber það þrátt að grunda, fátæk komstu í heiminn hér, héðan eins líka aptur fer, mið-tíma sómir sama þér.

3. Of-hladið skip mun søkkva senn, svo kéfur audur marga menn, lát þér því lítið nægja, féssjóður þinn er Drottinn dýr, í dauða sem ekki frá þér flýr, mun það mest meinum hægja, tapast allt annað auð-safn hér, allra helst sá því safnar sér, í Gudi ríkur ekki er.

4. Audur með ónáð ablast kann, áhyggjulaust ei brúkast hann, missist með sút og sorgum, fuglalíms hefir ást hans art, andlegt sidur ef þennaun snart, festist það manni mørgum, ágjarna mannsins ómak þekkt, einginn Herra er nærsta frekt, bæði fallvallt og banvænlegt.

5. Minníng Krísti, sem krossfestist, krossfesti þína holdsins lyst, sætleik andans svo smakkir, minníng eilífs bruna og báls, bálið slokkur þíns losta táls, krossinn þiggjandi þakkir, í andlega fórn þú offra þann, einka Son þér hjartkjærastann, girnd þín, sál mín! svo heitir hann.

6. Mjó liggur leið í himna høll, hrufótt og

þyrnum hladin øll, rósum varin er eigi, af vellyst þroskast ytri mann, innri nærist vid kostinn þann, ad sorgum mettast meigi, óttinn Drottins skal deyda því, daudlegt hold þitt hér heimi í, frá þess klækjum svo komist frí.

7. Um Guds réttlæti þeinktu þrátt, þinn girndardóm svo hata átt, og veiginn vellystínga, høggorms fladrandi hausinn er, í hala banvænum eitur ber, honum vill hann þig stínga, sjá til þú kunnir sigri ad ná, svo lífs kórónu mættir fá, Jesús géfi þér gæfu þá!

## 40. Sálmur.

### Um gagn freistínganna.

Lagid: Gædskuríkasti grædari minn.

Sannkristin sál þad sómir þér, sumtídis reyna freistíng hér, stødug í strídi øllu, mótgángs bylgjur þá bídur þú, betur festir sinn fót þín trú, á Kristó hjálparhellu, bøls stríd, hreggs hríd, ad þá snærir, enn meir færir dvøxt trúin, sem al-laufgud eik, græn ekki fúin.

2. Abl manns í strídi marka má, megnid trúar svo prófast þá, freistíngar fær ad reyna, í Péturs bát þá Son Guds svaf, sjórinn æstist svo á þá gaf, urdu skip-menn vonvana, mótkast, heims hast, manni er þetta reynsla rétt, sem Ritníng kénndi, reidi teikn ekki af Herrans hendi.

3. Meir er oss hætt í medlæti, vid margskyns

synd, enn andstreymi, holdsins vild krossinn kéfur, ó hvad mørg beiskt aloes korn, útrímandi sjálfs þokka vorn. Drottinn oss opt inn géfur, heims akt, fjár frakt, þyrna þessa, hætta, hvassa, hann burt-snídur, svo hveiti góds áform hindrist sídur.

4. Pad sem menn dæma daudans bann, Drott-iun med sama lífga kann, af ørbyrgd gnægtir géf-ur, hvad hrygd og ángur høldum vér, huggun og gledi opt þad er, sótt til smyrsla hann hefir, kross á, oss þá, kærkominn, í sérhvørt sinn, ad sønnu vera, þolgódir skyldum þjáníng bera.

5. Trúfasti Drottinn typta nú, tímanlega, en sídar þú, vyrdstu mér vægd ad sýna, lát hrísi fylgja miskun med, mér aumum syndu fødurs géd, og næma nákvæmd þína, Gud minn! þræl þinn, heimur hatar, raunir ratar, rénar kæti, leid mig í eilíft eptirlæti.

6. Samarítane Kriste kjær! kom mér hálfdaud-um þræli nær, á þinni leid liggjandi, lát beiska vín í synda sár, sídan huggunar vidsmjør klár, mein og verki mikjandi, Jesús! Jesús! þjádu nú, en þol og trú, lát þverra eigi, eilífann sigur svo ødlast meigi.

## 41. Sálmur.

### Grundvøllur kristilegrar þolinmædi.

Lagid: O! Jesú ønd mín leitar.

Mín sál! med þøkkum þygdu, þann kross þig henda kann, ad Drottins dæmi hygdu, til dauds var pínd-

ur hann, aldrei kann oss tilfalla, annað slíkt sem hann bar, af øllum, fyrir alla, á øllu píndur var.

2. Kulda, benjar, klæðleysi, kvøl, háð, ørbyrgð og smán, húngur, þorsta, heipt, geysi, høgg, bríxl, lýgi og rán, hann varð því hátt að kolla, harðrí í dauðans neyð, af øllum, fyrir alla, á øllu svoddan leið.

3. Aumt er því á að heyra, ofkátur þrællinn er, en Herrann hlýtur bera, hrellíng og neyð á sér, limir láta glaum gjalla, grætur høfuðið þó, af øllum, fyrir alla, á øllu þvíngaður dó.

4. Guðs børn kénndu kjør þessi: kvellíng sára Job bar, Pétur hékk hátt á krossi, hálshøggvinn Jacob var, María sorgir svella, Sonar við krossinn þá, af øllum, fyrir alla, á øllu píndann sá.

5. Með krossfestum kristnir ættu, krossfesta hold og géð, í tign svo tignast mættu, tignuðum øllum með, og dýrðlegir á dýrðar palla, með dýrðlegum leiðast þeim, af øllum, fyrir alla, á øllu leið fyrir heim.

6. Þá Kristur með krossins hamri, klappar hjartans dyr á, strax á stundu samri, stilltur uppljúktu þá, heyrðu hvað hann kann spjalla, sem hefir þú þá fyrir gést, af øllum, fyrir alla, á øllu þjáður mest.

7. Gulleg krossburðar keðja, kann best að skarta þá, sína vill Son Guðs gleðja, síðasta deigi á,

systkinum sorgar galla, sjálfur afþurkar hann, af øllum, fyrir alla, á øllu kvalníng sann.

8. Sjá þinn brúdgumann blída, blessadann, sála mín! ramma hlaut raun ad líða, rjódur af ofur pín, hann bar og hvítann mjalla, því hrakníng sára og deyd, af øllum, fyrir alla, á øllu saklaus leid.

9. Pú hlýtur hrellíng hafa, er Herra þíns girnist kjør, hann kann hunáng ad gésa, af hellu mótlætis þér, der því blessunar falla, sú beiska krossins rót, af øllum, fyrir alla, á øllu blés Drottni mót.

10. O, hvad beisk mótgángs myrra, margann gét-ur vankjætt, géf oss gledi-vín, Herra! gjørt vort hid ramma sætt, og leid til himna halla, hans fyrir blód og deyd, af øllum, fyrir alla, á øllu píslir leid.

## 42. Sálmur.

Huggun sú, ad madur kunni fyrir gudlega hjálp, stødugur standa allt til æfiloka.

Lagid: Gødskurikasti grædari minn.

Nær mun koma sú nádarstund? nær mun eg fá og sjá þinn fund, Jesú brúdguminn blídi? nær mun mér unnt, elskugi minn! í okkar brúdkaup leid-ast inn, heims úr útlegd og strídi? Gud minn! Gud minn! þú mig leys, úr holdsins hreysí, og heimsins voda, leyf mér þitt auglit um eilífd skoda.

2. O! hvad hræddur eg aumur er, í leirkérum því breiskum ber, minn trúar féssjód fríða, sál og líkama synda hætt, segi eg þau kér, sem nú hef rædt,

eitt vill þar ødru stríða, Guð minn! Guð minn! Satan refur, grið ei géfur, grimmur slægur, ást-vinum þínum er of óvægur.

3. Eg hræðist líka heims ókjør, hrekkvís og óheil veraldin er, hvør kann hér rønd við reisa? hvørt sem mér gengur með eða mót, mínum stofnar það hrøsun fót, súrt hata, sætt vil kjósa, Guð minn! Guð minn! hvør vill nunna, klakklaust kunna, komast héðan, óhættann veg fæ eg ekki sjeðann.

4. Verdleik mínum eg vísa frá, verdleik Drottins eg treysti á, víst mun hann veg minn beina, hans náð staðføst og eilíf er, aldrei kann hún því bregð-ast mér, eg fæ það alltjafnt reyna, Guð minn! Guð minn! høndin þín, þú heillin mín! úr hættu leiði, óvina umfall svo aldrei meiði.

5. Sáluhjálp þá, sem Guð gaf mér, grundvallað hefur í hjarta sér, af því kann aldrei skeika, úthellt blóð Jesú ásamt mun, og sakramenta innsiglun, aðstyðja einninn líka, Guð minn! Guð minn! von mín er, nú øll í þér, eg aungvu kvíði, harmkvæli nokkur þó holdið líði.

6. Frelsarinn hefur þú fundið mig, fyrr enn eg kunni hitta þig, hví muntu vernd mér veita, eingu óhægra er það þér, að geyma það. sem fundið er, enn að óvísu leita, Guð minn! Guð minn! sem mirkri eyðdir, ljóss til leiddir, lífs braut rétta, lát mig ei aptur í dymmu detta.

7. Trygða féſjóð mér tærir þú, trúar hönd mín opt veiklaſt nú, gétur viðtekið valla, annaſt þú hennar orku breſt, á þér lát hana fá ſig feſt, ſterklega æfi alla, Guð minn! Guð minn! þér vil eg fús, mitt hjartans hús, til hvíldar veita, auðmjúkum anda kannt aldrei neita.

8. Trúar augum eg tildra nú, til þín, Drottinn! mig aumka þú, óverðugum beſt bjarga; óforþént miſkun, er rétt náð, ómaklegum ſem verður tjáð, og géfin opt þeim arga, Guð minn! Guð minn! heill mín er, þá øll í þér, því ørugg blífur, greidiſt þér gott lof, Guð eilífur!

## 43. Sálmur.

Um daglega umþenking dauðans.

Lagið: Í blæu einni er byrgður í mold.

Væntu æ dauðans vinur kjær, vonum framar hann ſtendur nær, við hvørn dag þeinki hugur þinn, hann mun vera ſíðaſti minn.

2. Hvað ſem þú gjørir, hugſa ber, hvørt ſvoddan yðja hæfði þér, ef í því verki ættir þú, andaſt þá ſtrax og dæmaſt nú.

3. Lífi fékkſtu að láni náð, lífs hefir þú ei eignar-ráð, nakinn komſtu í heiminn hér, héðan eins líka aptur fer.

4. Á hvørjum deigi deyr þú hér, dauðann hvør lífs ſtund færir þér, allt hvað hér eykſt við æfi manns, allt kortar það lífdaga hans.

5. Þess leingur sem vær lifum hér, lífið þess styttra eptir er, um það sem einum áfram bar, eptir því minna leiðar var.

6. Lát frá þér deya lesti fyrst, lífið áður enn fær þú mist, hvør sem deyr vondum vilja frá, víst lifir Guði í dauða sá.

7. Adam, gamla af øllum mátt, á meðan lifir, deyða átt, þá mun Drottinn nær deya fer, dásamlegur lifa hjá þér.

8. Dauðinn flytur og færir mann, frá hégóma í himna rann, í hvørja átt sem eykin datt, er hún þar kyrr, það trúi eg satt.

9. Ef þú íhugar opt og þrátt, að endilega deya átt, aðhald er það og orsøk þér, að akta lítt það sem heimsins er.

10. Athuga þú hvað andlát manns, afmindað gétur limi hans, þetta skyldi þig fæla frá, forbønnuð verk að girnast á.

11. Sál og líkama svíður það, sann=nauðug verða að skiljast að, andarslit hvør sem athugar, elska mun síður syndirnar.

12. Sá, sem með vondri synda gjørð, sér hefir stofnað andar=morð, í gégnum dauðann gengur hann, í gløtunar stað þó eilífann.

13. Þeir einir hljóta himna víst, hér nú lifa í Guði fyrst, þeirra líf Drottinn eflaust er, í trúnni sem hann binda sér.

14. Ó, Drottinn! géf oss øllum nú, innlífast þér með sannri trú, líka deya og lifa þér, lofa síðan með engla hér!

## 44. Sálmur.

Huggun fyrir þá, sem missa sína ástvini.

Lagið: Hærsta hjálpræðis fögnuði.

Ó kristin sál! umhugsa fyrst, á dauðastundu Jésúm Krist, því að ógn dauðans aldrei kann, ófbjóða þeim sem þenkja úm hann.

2. Beiskt vatn í Mara mjøg sætt var, þá Móíses tréð í brunninn bar, það lífsins tréð er Drottinn dýr, sem dauðans remmu í sætleik snýr.

3. Sá edla kvistur, allra bót, upprunninn er af Jesse rót, hvør sem geymir hans heiløg orð, hann smakkar aldrei sálar morð.

4. Eymd mannsins deyr en ekki hann, er dauð-inn leið í himna rann, afgángur hans er endíng kífs, og fæðíng holl til eilífs lífs.

5. Ekki missum vér ástvini, undan oss þó þeir sendir sé, fyrir sorgir þeir fögnuð fá, frá myrkv-um inn í ljósið gá.

6. Yfir lífdaga hættast haf, í høfn dauðans þeir komast af, leystir frá allri sút og sekt, syrgja skulum þá ekki frekt.

7. Hvítann skrúða við Herrans hlið, hafa þeir nú og pálma-við, sorgar klæði ei sómir þá, fyrir svoddan menn að taka uppá.

8. Öll hefur þeirra augna tár, afþurkað Drottins hovdin klár, lambsins stóli þeir lifa hjá, ljómandi sýngja Gloria.

9. Allskyns hljódfæri hljóma þar, hvorpur sláandi gullegar, hjá Englum Guðs sér una þeir, ekki skulum þá gráta meir.

10. Láttu þér ekki gremjast geð, Gud þó taki hvað hefur oss léð, ef þú missir þinn ástkjærann, einn elskara snart finnur hann.

11. Alít það ei þó adskilið, athuga framar samkvæmið, sem eptir kémur eilíft þó, í andvaralausri sælu og ró.

12. Andlát sitt virðir ábatann, upprisunni sá trúa kann, hvørrar ímindan augljós er, eðlis skapning í heimi hér.

13. Eiðist heims ljós að aptni dags, upprennur þó að morgni strax, grasið visnar þá vetrar að, á vorinu aptur blómgast það.

14. Af eikum falla ávextir, aptur þó vaxa blómlegir, og ef sæðið skal frjófgun fá, fyrst í jørdunni rotna má.

15. Þá Phœnix hefur æfi endt, í eigin hreiðri sig sjálfann brennt, af öskn kviknar aptur þar, úngur með fjaðrir gullegar.

16. Svo endurnýast allskonar, eigin foreydslu það sem var, aldrei skyldi neinn efa þá, upprisu holdsins dómsdag á.

17. Þú meintir kannskè ment og fè, mektast hefdi þinn ástkjæri, í Guds ríki audugur hann, alla speki vel skynja kann.

18. Hædsta tign þó hèr hefdi gist, í himnaríki er betri vist, Drottni hefur svo þóknast þad, þinn vilji skal þar hnegjast ad.

19. O, Drottinn! þú tókst aptur nú, eign þína, sem mèr lèdir þú, þitt nafn, heilagi Herra klár! hædst sè lofad um eilíf ár!

## 45. Sálmur.

Um þann sídasta dóm.

Lagid: Tak af oss, Fadir!

Þá Kristur kèmur, kóngur rèttdæmur, allt augljóst verdur, ord honum og gjørdir, alla uppvekur, er þeim hefnd-frekur, sem dóms er sekur.

2. Á allar sídur, ógn þeim ofbýdur, undir eldgángur, yfir Gud strángur, samvitskan særir, Satan ákjærir, synd fridtjón færir.

3. Hvar mun þá hæli, Herra minn sæli? eg veit mig argann, unnid hafa glæp margann, eg óttast dóminn, úti er tíminn, en eilífd komin.

4. Her himins hjadnar, hrynur og brádnar, sig saman lyknar, sól rodnar, túngl bliknar, þín verk ei þordu, þig sjá í dýrdu, er ekkért íllt gjørdu.

5. Eg aumur madur, of mjøg saurgadur, hvad mun þá þora, þig reidann ad heyra? hvørt má helst flýa? hvad skal þá segja? hvør veit ad vægja.

6. Þú Herrann hýri! hærsti dómari! mér munt ei mýja, má eg því til þín flýa, þú þoldir dauda, þinna svo sauda, bættir bøl nauda.

7. Þig Son sinn sendi, sinni af hendi, Fadirinn frídi, ad fridkaupa lýdi, er því ógladur, ef nokkurr madur tíuist tapadur.

8. Víst vill hann eigi, eg vesæll deyi, Herra! þad heyrdu, hans vilja fullgjørdu, lát ei erfd pína, eilíft bøl pína, aumka ønd mína!

9. Lægd løgmáls frekann, lýsir mig sekann, þinn munnur medan, mig kallar blessadann, þad má mér meira, mun eg þó heyra, fridar bod fleira.

10. Eg er óhræddur, í þér nád-gæddur, þó dvinir allir, yfir mér hefnd kalli, þú fridar-fórnin! frelsar þín børnin, vor heill og vørnin!

11. Þú Herra hlýdinn, helgadir lýdinn, létst lífid æda, til lausnar oss útblæda, veit vægd í dómi, vor bródir frómi! þitt hædst lof hljómi!

## 46. Sálmur.

Um laungun eptir eilífu lífi.

Lagid: Þá linnir hér mín líkams víst.

Ei máttú, sál mín! elska dátt, of-fallvalt lífid þetta, med helgri girnd í hædir hátt, heldur skalt þér upplétta, þar er æska en elli síst, enginn daudi, og lífid víst, og ángurlaus unun rétta.

2. Utvaldir skína eins og sól, Englum Guds næsta líkir, ósjúkir hafa eilíft skjól, allskyns nægd

mettast slíkir, Drottinn Guð fullur dásemdar, drykkjar þá straumum vellystar, innbirðis elsku-ríkir.

3. Eilíf gjæði eru svo stór, enginn kann þau að mæla, og svo dýrmæt, að engum fór, úttala né nóg hæla, óvøllt heilbrygði æ er þar, unun og nægð Guðs vellystar, og frábær fagnaðar sæla.

4. Svo góður hlutur enginn er, sem einn Guð himna hæða, inndæli mest þá alla skér, sem eignast hann og viðræða, oss í honum og hann í oss, hýrann sjáum það gleði hnoss, er rótin allra gjæða.

5. Jerúsalem þar uppi er, ekkért musteri hefur, með høndum gjørt, né sól þar sjer, síst túngls þar þørfin krefur, hennar musteri og byrti best, er blessaður Guð, sem ljómar mest, og upplýsíng øllum gefur.

6. Eins sem ei heyrðist axar hljóð, þá upp var verið að smíða, Jerúsalem á jørðu stóð, jafnt mun og hinni líða, þeir andlegu steinar eru hér, með øxi mótlætis kantaðir, sem hennar bygging hlýða.

7. Drottníngin sú sem sókti heim, Salómon kóng hinn ríka, er sønn fígúra sálum þeim, sem koma í høllu slíka, gimsteina hvør og gullið ber, góðrá dygða sem framdi hér, Engla fylgð fær hún líka.

8, Kóngsins spekt hana fúrðar frekt, og fjøldann dýrstn rétta, dýrmæt klæði sem mestu mekt, og musteris prýði setta, í forundran svo segir sú, síst vár þess von með minni trú, gæti eg gripið þetta.

9. Hér máttú, sál mín! heyra og sjá, hvað

Drottinn vill þér veita, ef þú girnist hans húsum ná, heilaglega skalt breyta, andlegs góða ef væntir víst, veraldar gæðum ættir síst, með ákéfð eptirleita.

10. Ef þú girnist að auðnist þér, af lífsins tré þig metta, náðu Kristó í heimi hér, hrein trú má verka þetta, inn í Guðs hús kann ekki ná, ótukt, manndráp, heipt, lýgi, þrá, né sáðýt girnd féráttar.

11. Heiløg þrenníng! með hollri náð, hjartað mitt virðstu byggja, á mér hafðu allt eignar ráð, aldrei lát mig þig styggja, gef mér hér smakka farsæld fyrst, fyll mig síðar þíns húss vellyst, svo megi eg þér lof til leggja.

## 47. Sálmur.

Um þá farsæld, þegar maður fær að sjá og skoða Guð í eilífu lífi.

Lagið: Að ydka gott með æru.

O Drottinn allsvaldandi! eg vil gjarnan til þín ná, á lifandi manna landi, lát mig nægð þíns góða sjá, nær eg þig, næ að finna, neiðar stig, mun þá linna, lángar mig, heim til húsa þinna.

2. O! þann fögnuð frábæra, fögnuð allann sem gnæfir, nær mun auðnast sú æra, að sjá Guð minn sem býr í þér? þíns húss sjá, sælu rétta, svánga má, drykkja og metta, er þér hjá, eilífs lífs uppspretta.

3. O! þú líf æskilega, ó! þú blessuð farsæld blíð, þar heiløg þrenníng hæga, hjartans girnd fyllir alltíð,

ad líta Krist, ljómann bjarta, í lífsins vist, hjá honum skarta, gnæfir mest, girnd alla vors hjarta.

4. O, Jesú! elskan blída, edla bidill sálar mín, nær ætlar þú innleida, í þinn kóngs sal brúdi þín? hvad vantar, í efstu høllum? ekki par, né hætt vid føllum, Gud er þar, sjálfur allt í øllum.

5. Er þar Gud allra besti, augum vorum prýdi ný, hunángs seimur sætasti, saungur fagur eyrum í, balsam kjær, best sem skarta, blómstur skjær, mjúk ad snerta, hvør þar fær, hvad hans girnist hjarta.

6. O! dáfrída ásjónu, ó! sæta roddu Lausnarans, dýrdar krýndur kórónu, kjær draup nád af vørum hans, fyrst hann er, allt í øllum, upplýsir, varnar føllum, fridinn tér, konum jafnt sem køllum.

7. Gud er sá ljóssins ljómi, ljós í hvørjum sjáum vér, þad er vor sæmd og sómi, ad sjá hann í sjálfum sér, lokkar mann, líf indæla, lofa hann, og vid mæla, aldrei kann, ad úttalast sú sæla.

8. O! farsæl borgin besta, blessud høllin uppi þar, heimili heilagasta, háleitrar Guds þrenníngar, nær mun ný, nád sú gledja, nái eg frí, mig þar sedja, og Gudi í, Gud sjálfann tilbidja.

9. Nær mun sú sólin renna, sem uppljómar þessa borg? nær mun eg fá ad finna, føgnud þann ei snertir sorg? sála mín! sjá þau mæti, sæl þú skín, í eptirlæti, arfleifd þín, er Gud Drottinn sæti.

10. Vér lifum Gudi lifanda, líka erum kirkja

hans, vèr eigum hann hèr í anda, en þar ad raun rètt til sanns, sælu ad, sjá margfalda, samastad, lífsins halda, géfi oss þad, Gud um aldir alda!

## 48. Sálmur.

Um þad allra ástúdlegasta samlag, sem vèr skulum hafa vid heilaga Engla, í eilífu lífi.

Lagid: Mikilli farsæld mætir sá.

Eilíft lífid er æskilegt, ekki neinn giptist þá, Englum líkir í ædstu mekt, egum vèr Gud ad sjá, vitska, tign, dýrd og virdíng manns, vegsamleg mjøg þá er, svo aldrei kunni hjartad hans, hana ad skynja hèr, inndælid er þad allra mest, auglit Drottins ad skoda best, alla blessun þad undir býr, alla heill, dýrd og nád, allt eptirlæti ad oss snýr, allt batnar þá vort rád, allt andstreymi svo á burt flýr, aldrei snertir oss þad.

2. Ei er farsældar framar von, en frídann Gud ad sjá, þessi hin fagra fridar sjón, fyllir girnd allá þá, Engla umgengni ødlumst þó, ástúdleg verdur sú, samlíkir þeim í sælu og ró, sannheilagri enn nú, hvítum skrúda svo skrídumst vær, skínandi lambsins stóli nær, syndanna slíkum færdir af, frílega lofum þann, hjálprædis klædid gott oss gaf, gledjandi rèttlátann, vakni sá upp í syndum svaf, sjái dýrdar ljómann!

3. Engin áreitir annann þar, enginn kann reidast þá, ei er þar brunnur íllgjørdar, engin metnadar þrá, engin mótlæting, eymd nè fár, ydrunar tár ei nein, ei heldur daudleg synda sár, sálum vinna þar

mein, húngur og þorsti horsinn er, af Herrans elsku mettumst vér, útvalda Drottins aldrei þá, of=hiti skada kann, yfir þeim heldur hendi sá, himneskann byggir rann, af lífi þeirra sem ljómar á, lifandi vatn fram rann.

4. Utvøldum Guds svo gledjist géd, gésta=bod er tilreidt, klára vín, feiti, mergur med, mun þar til rétta veitt, svoddan veitslu vér sitjum ad, sælir um eilíf ár, og lof sýngjandi þøkkum þad, þá verdur gled=in klár, allt mun þetta þá uppfyllast, í anda og sann=leik fullkomnast, líf og andi Guds orðid er, ótti daudans þá flýr, hann var svelgdur í sigur hér, sjá hans broddur er rír, øll vor augna tár afþerrir, ángri í gledi snýr.

5. Hrigdarlaus gledi hljómar þá, heilsa mótlætis frí, lífid án mædu, ljós ei fá, lystigardi þeim í, aldr=eigi følnar elskan þar, aldreigi gledin dvín, enginn madur þar andvarpar, engann snertir þar pín, ynd=is hægd er þar øllum téd, andvaralausri sælu med, andvaralaus hin rétta ró, rósamleg unun mest, ununar=samleg, farsæl fró, farsæl eilífdin best, eilíf þrenn=íngar eining þó, eining guddóms þar sjest.

6. Upp upp, mín sál! athuga nú, æru og veg=semd þá, sem okkur er vís þá eg og þú, erum Guds stóli hjá, okkar vardhalds Engil þann, er hér nú stydur vid, þá munum gjørla þekkja hann, en þurf=um hans ekki lid, er þá samkvæmis unun stór, al=

skínandi í dýrdar kór, ó, Jesú! kom og ei vid tef, innleid í sælu þá, ó, Jesú! kom og gledi géf, Guds húsum lát oss ná, ó, Jesú! þig fyrir utan ef, um eilífd géf oss ad sjá!

## 49. Sálmur.

Um þær feikna kvalir, sem þeir fordæmdu verda ad lída í Helvíti.

Lagid: Gud oss lærdóm sinn ljósann gaf.

Hvør kristin sál þad hugleidi, hvad vítis píslir bitrar sé, soo stendur befur syndum mót, segjandi opt af hjartaus rót, í frá andar deyd, oss bevari Gud.

2. Í Helvíti er alls ílls nægd, á øllu gódu mesta óhægd, óbærilegur hiti hnár, heljar nístandi grimdin sár, í frá andar deyd, oss bevari Gud.

3. Myrkur og svæla sífeldleg, sorg og djøfla mynd ófrín mjøg, óp og ýlfranir eilífs veins, andstyggileg lykt brennisteins, í frá andar deyd, oss bevari Gud.

4. Ormur samvitsku etandi, ótti, þurkur, sveingd, harmkvæli, øfund, hatur, víl, ørbyrgd mest, engin gód von med heilsu brest, í frá andar deyd, oss bevari Gud.

5. Sól og túngl enginn sjá þar kann, síst af øllu þó Gud sjálfann, sú litla skíma eldi af, enga hug-hægd fordæmdum gaf, í frá andar deyd, oss bevari Gud.

6. Maginn í húngri mædist mest, munnur af þorsta pínist vest, elds loginn verkar óp og kvein, inn-

læsist hann í merg og bein, í frá andar deyd, oss bevari Gud.

7. Af einum neista í eymdar glód, ólídanlegri pína stód, enn þó kvinnu hér kynni sár, kvelja jódsótt um þúsund ár, í frá andar deyd, oss bevari Gud.

8. Sælgæti øls og matar mest, margur af hvørju hélt sig best, hugfrói þeim þad enginn er, ei fá vatus dropa ad svala sér, í frá andar deyd, oss bevari Gud.

9. Dýrmæt klædi og metord med, minnst kunna þá ad hugga géd, íklæddir skømm um eilíf ár, engin vegsemd til boda stár, í frá andar deyd, oss bevari Gud.

10. Audur stodar þá ekki par, allir jafnsnaudir finnast þar, Guds blída auglit aldrei sjá, øllu þýngra þad liggur á, í frá andar deyd, oss bevari Gud.

11. Kvala eldinn um eilíf ár, uppblæs Guds reidi stormur hár, samvitsku ormur innra slær, ytra djøflanna grimd frábær, í frá andar deyd, oss bevari Gud.

12. Hata fordæmdir hvørr annann, hata þeir líka Gud sjálfann, hata þeir Engla heilaga, hata þeir alla útvalda, í frá andar deyd, oss bevari Gud.

13. Øll ólukka, sem innast má, øll slæst í eitt og plágar þá, alla varir þad ellífd þó, aldrei finnandi vægd né ró, í frá andar deyd, oss bevari Gud.

14. Minnsta korn þá af minnstu kvøl, er miklu

þýngra enn allt heims bøl, og þó að Adams arfarnir, allir skipti því jafnt með sér, í frá andar deyð, oss bevari Guð.

15. O Drottinn! géf oss øllum það, að þenkja svo um kvala stað, að þángað komumst aldrei vér, í varfærni framgaungum hér, í frá allri neyð, oss til lífs innleið!

## 50. Sálmur.

Um það, hvørninn eilíflega munu vara þær helvítsku kvalir.

Lagið: Miskuna þú mér mildi Guð.

Ef þú, kristin sál! athugar, að píslirnar, eilífar eiga að vera, því betur lærir þar af þú, að þeinkja nú, hvað þúngt sé þær að bera, helvíti heitt, huggun fær eydt, það bitra bál, brennandi sál, alla tíð á að vara.

2. Fordæmdra líf í eldi þá, er dauði sá, æ er yfir hángandi, þeirra dauði líf einninn er, sem aldrei þver, í kvølum ósegjandi, brenni-bøðlar, þreytast síst þar, aukandi kvøl, ofan á bøl, með allskyns eymd og grandi.

3. Hvað er það mann kann þýngra að þjá, enn það síst fá, er hann mest epirlángar? enn hitt umbera verður víst, sem vildi síst, plágur og píslir strángar, áþyktað er, að sá sem hér, sí-syndga vann, sárt hefnda bann, ei skuli af honum gánga.

4. Tapaðir safna syndum sér, um alla hér, eilífð-

ar æfi sína, um Guds eilífd þeir þvíngast því, þeim píslum í, sem aldrei eiga ad dvína, hans gædsku géd, og miskun med, útslökktu þeir, í sér því meir, kvelur þá kvöl og pína.

5. Þeir elskudu aud óþarfann, of=fallvaltann, vellyst og virdíng bædi, himneskum féssjód sinntu síst, sem er Gud víst, ei girntust andleg gædi, skammvinn lífs lyst, leidist þeim síst, hrapandi því, helvítid í, eilífa eymd og mædi.

6. Ó! þú eilífd óendanleg! enginn kann þig, út sjá né nóg ad grunda, ó! hvad mikid þú eikur á, alla píslþá, tapada hlýtur henda? nær ára stund, ótal þúsund, umleid óhast, önnur byrjast, svo gengur án alls enda.

7. Ó, þú eilífd! ó, eilífd þú! ein ertu sú, sem mest kann mein ad vinna, fordæmdra písl er þúngbær þá, því heita má, bitur og beisk ad finna, þó þýngri er, því margföld skér, allra þýngst þó, þad undir bjó, ad hún skal aldrei linna.

8. Ó, þú daudi! sem aldrei deyr, endíng þín er, á ný þig uppbyrjandi, daudann girnast fordæmdir fá, fyrrist hann þá, líf trú eg lángt frá standi, aumt hel þad er, sem aldrei þver, og lífi því, ad lifa í, sem alltíd er deyandi.

9. Ó! þú banvæna auma líf! ef þú ert líf, því viltu þá svo deyda? ó, þú lifanda auma hel! ef þú ert hel, því vilt ei lífs eymd eyda? ó, eilíf tíd! ill=

um mjøg stríd, ad þenkja til þín, er þýngri pín, enn annad allt sem líða.

10. O! sál mín! sál mín! sjá ad þér, sárheit píst er, opt er þad athugandi, nádar-tímanum géf ad gaum, gjør ydran aum, eymd slík svo aldrei grandi, sá syndum sér, safnar tídt hér, þess meira bál, brennir hans sál, elds mat svo áleggjandi.

11. O! Drottinn Jesú! Herra hýr, í hædum býr, vor synda bótin sanna, fullu borgandi fyrir oss, festur á kross, líf, heill og lausnin manna, ljúfur likn sýn, leys oss frá pín, íllt andar bøl, eilífa kvøl, oss láttú aldrei kanna.

12. O! þú rétt nefndi gódi Gud! sem gløtudum lýd, sendir þinn Son í heiminn, oss ad leysa úr andar deyd, og allri neyd, sé þér dýrd søgd og framin! og þér, Jesús! sem frelstir fús, Guds Anda med, gøfgun sé téd, um aldir alda, Amen!



